# Efnisyfirlit

## Laugardagsmorgunn



## Laugardagssíðdegi



## Prestdæmisfundur

## Sunnudagsmorgunn



## Sunnudagssíðdegi



## Aðalfundur Stúlknafélagsins

# Laugardagsmorgunn

## Inngangsávarp

### Gordon B. Hinckley forseti

Kæru bræður og systur, samverka menn mínir í þessu mikla verki, ég tel það við hæfi nú við upphaf þessarar ráðstefnu að ég segi fáein orð um ábyrgðarverk okkar og ráðsmennsku undanfarin tíu ár.

Hinn 12. mars 1995 var okkur veitt hin mikla og helga ábyrgð þessa forsætisráðs.

Á næstu aðalráðstefnu þar á eftir sagði ég þetta:

„Nú, kæru bræður og systur, er sá tími upprunninn að við þurfum að teygja okkur örlítið lengra, útvíkka sjóndeildarsvið okkar og auka skilning okkar á hinu mikla hlutverki Kirkju Jesú Krists hinn Síðari daga heilögu í þúsund ára ríkinu. Við þurfum nú að leggja hart að okkur. Við þurfum nú að halda hiklaust áfram, með staðgóða þekkingu á víðfeðmi og mikilvægi hlutverks okkar. Nú er tími til að gera það sem rétt er, hverjar sem afleiðingarnar verða. Nú er tími til að leggja okkur fram við að halda boðorðin. Nú er tími til að rétta hinum hrjáðu og villuráfandi í myrkri og kvöl hönd góðvildar og elsku. Nú er tími til að sýna hvert öðru hugulsemi og góðvild, heiðarleika og háttprýði í öllum okkar samskiptum. Með öðrum orðum, að verða kristilegri“ (*aðalráðtefna í apríl*, síðdegishluti sunnudags, 2. apríl 1995).

Þið verðið að dæma um það hversu vel okkur hefur tekist að fylgja þessu boði sem gefið var fyrir tíu árum.

Síðastliðinn áratugur hefur verið dásamlegur í sögu kirkjunnar. Enginn jafnast á við hann. Verkinu hefur miðað undursamlega áfram. Afreksverkin eru mörg og þýðingarmikil.

Framþróun þessi er ekki aðeins verk Æðsta forsætisráðsins, Tólfpostulasveitarinnar eða Yfirbiskupsráðsins. Hún á rætur í trú, bænum, starfi og dyggri þjónustu allra stikuforsætisráða eða háráða, allra biskupsráða og sveitarforsætisráða, allra forsætisráða aðildarfélaganna, allra trúfastra þegna þessarar kirkju.

Ykkur öllum, kæru bræður og systur, hvar sem þið eruð, vil ég tjá hjartans þakklæti mitt fyrir hina dyggu og dásamlegu þjónustu ykkar. Hve dásamlegt fólk þið eruð.

Hátign og mikilleiki fagnaðarerindis Jesú Krists hefur á okkar tíma verið endurreist fyrir tilstilli spámannsins Josephs Smith í dýrðlegum ljóma.

Er við nú stöndum á hátindi þess tíma og lítum aftur, megum við ekki hreykja okkur upp eða verða dambsöm, en við getum verið auðmjúk og þakklát fyrir það sem áorkast hefur í hinum ýmsu viðfangsefnum.

Kirkjan hefur til að mynda vaxið svo að meðlimafjölda að þegnar hennar eru nú fleiri utan Bandaríkjanna en innan þeirra. Við erum orðin fjölmenn alþjóðleg fjölskylda, ríflega tólf milljónir þegna í 160 löndum.

Á þessum tíu árum hafa 500 nýjar stikur verið stofnaðar og yfir 4.000 nýjar deildir og greinar. Þrjár milljónir meðlima hafa bæst í hópinn.

Fjöldi þeirra sem skráir sig í Fræðsludeild kirkjunnar hefur aukist um nærri tvö hundruð þúsund. Æskufólk okkar er að mestum hluta öflugra og trúfastara.

Menntunarsjóðurinn var stofnaður. Við byrjuðum þar með hendur tómar og aðeins von og trú að leiðarljósi. Nú nýtur ungt fólk, um 18.000 manns, aðstoðar hans. Það á heima í 27 löndum. Það nýtur menntunar og brýst undan þeirri fátækt sem það og fyrirrennarar þess hafa búið við í kynslóðir. Það eykur hæfni sína og tekjur þess margfaldast.

Við höfum aukið við fjölda mustera. Árið 1995 voru þau 47. Nú eru þau 119 og þrjú í viðbót verða vígð á þessu ári.

Mormónsbók var fáanleg á 87 tungumálum árið 1995. Nú er hún fáanleg á 106 tungumálum.

Fimmtíu og einni milljón eintaka af Mormónsbók hefur verið dreift á umliðnum tíu árum.

Við höfum byggt bókstaflega þúsundir bygginga um heim allan. Þær eru betur úr garði gerðar og henta betur þörfum okkar en eldri byggingar.

Þar að auki höfum við byggt þessa undursamlegu höll sem við nú tölum frá, hina sérstæðu og fallegu Ráðstefnuhöll hér í Salt Lake City.

Í öllu þessu höfum við um heim allan hjálpað hinum hrjáðu og ógæfusömu hvar sem þeir eru. Á umliðnum tíu árum höfum við látið af hendi rakna fjármuni og neyðarbirgðir fyrir hundruð milljóna dollara til hjálparstarfs þeirra sem ekki eru okkar trúar.

Við höfum ferðast um heiminn og borið vitni um þetta verk almættisins. Á þessum árum hef ég persónulega ferðast nærri eina milljón og sexhundruð þúsund kílómetra til nærri 70 landa. Ástkær lífsförunautur minn ferðaðist með mér þar til hún lést fyrir ári síðan. Einmanaleika okkar verður ekki með orðum lýst.

En von okkar er björt og trú okkar sterk.

Okkur er ljóst að við höfum séð harla lítið af því sem gerast mun á komandi árum.

Ég er nú 95 ára gamall. Ég hélt aldrei að ég myndi lifa svo lengi. Líf mitt minnir mig á skilti nokkurt sem hékk á ryðguðum vír á gaddavírsgirðingu í Texas: Á því stóð:

Þjakaður af þurrkum,
flæmdur burt af flóðum,
rúinn inn að skinni,
framseldur af fógeta.
Tóri áfram samt!

Ég vona að ég njóti þeirra forréttinda að vera meðal ykkar, kæru vinir og samverkamenn, eins lengi og Drottinn leyfir. Og ég vona að sú þjónusta verði viðunandi.

Undirstaða okkar er fagnaðarerindi Drottins Jesú Krists. Valdsumboð hins heilaga prestdæmis er hér, endurreist og í umsjá þeirra sem tekið hafa á móti því beint frá Drottni. Fortjaldi himins hefur verið svipt frá og Guð himins, og ástkær sonur hans, hafa talað til hins unga spámanns Josephs, við innreið þessarar allra síðustu ráðstöfunar.

Sú ábyrgð okkar er mikil að halda áfram. En tækifæri okkar er dýrðlegt.

Ég legg enn áherslu á það sem ég sagði fyrir tíu árum. Við skulum „teygja okkur örlítið lengra, að útvíkka sjónadeildarsvið okkar og auka skilning okkar á hinu mikla hlutverki Kirkju Jesú Krists hinna Síðari daga heilögu í þúsund ára ríkinu.“

Ég tjái ykkur öllum elsku mína, blessun og þakklæti, við upphaf þessarar miklu ráðstefnu. Ég bið þess auðmjúklega að andi Drottins hafi stjórn á öllu sem hér fer fram. Í nafni Jesú Krists, amen.

# Skýr og dýrmæt atriði

**Boyd K. Packer forseti**
**starfandi forseti Tólfpostulasveitarinnar**

Joseph Smith sagði: „Ég sagði bræðrunum, að Mormónsbók væri réttari en allar aðrar bækur á jörðinni og burðarsteinn trúar okkar, og að maðurinn kæmist nær Guði með því að fara eftir kenningum hennar, fremur en nokkurrar annarrar bókar" (Mormónsbók formáli: v; sjá einnig History of the Church, 4:461).

Fyrsta útgáfan af Mormónsbók: Annað vitni um Jesú Krist kom úr prentvélinni í Palmyra, New York, í mars 1830. Joseph Smith – ómenntaður sveitapiltur – var þá nýorðinn 24 ára gamall. Á árinu á undan hafði hann eytt samtals um 65 dögum við þýðingu af töflunum. Næstum helmingur þess tíma var eftir að hann meðtók prestdæmið. Prentunin hafði tekið sjö mánuði.

Þegar ég las í fyrsta sinn Mormónsbók frá upphafi til enda, las ég loforðið um, að ef ég mundi „spyrja Guð, hinn eilífa föður, í nafni Krists, hvort [það sem ég var að lesa] er ekki sannleikur. Og ef [ég mundi spyrja] í hjartans einlægni, með einbeittum huga og í trú á Krist, [þá mundi] hann opinbera [mér] sannleiksgildi þess fyrir kraft heilags anda" (Moróní 10:4). Ég reyndi að fylgja þessum leiðbeiningum, eins og ég skildi þær.

Ef ég vænti dýrðlegrar og yfirþyrmandi opinberunar þegar í stað, þá gerðist það nú ekki. Mér leið þó vel, og ég fór að trúa.

Næsta vers geymir jafnvel enn stærra loforð: „Og fyrir kraft heilags anda getið þér fengið að vita sannleiksgildi *allra* hluta" (Moróní 10:5; skáletrað hér). Ég vissi ekki hvernig heilagur andi starfaði, jafnvel þótt Mormónsbók útskýri það mörgum sinnum og með margvíslegum hætti.

Ég las og komst að því að „englar tala með krafti heilags anda, og þess vegna hafa þeir orð Krists að mæla." Þar segir einnig, að maður eigi að „endurnærast af orðum Krists; [með því loforði að] orð Krists munu segja yður að fullu, hvað yður ber að gjöra" (2 Ne 32:3).

Og þar segir greinilega að ef „þér fáið eigi skilið ... þá er það vegna þess, að þér spyrjið ekki og knýið ekki á." (2 Ne 32:4).

Ég las einnig: „Ef þér viljið fara inn um hliðið og taka við heilögum anda, þá mun hann sýna yður allt, sem yður ber að gjöra" (2 Ne 32:5). Ég hafði þegar gert það þegar ég var staðfestur sem þegn kirkjunnar með „handayfirlagningu til veitingar á gjöf heilags anda" (Trúaratriðin 1:4).

Ef ég hafði í barnalegu sakleysi ungs drengs búist við einhverri sérstakri andlegri reynslu, þá hafði það ekki gerst. Er árin liðu og ég hlustaði á prédikanir og lexíur og las í Mormónsbók, fór skilningur minn að aukast.

Nefí hafði mátt þola mjög slæma meðferð af hendi bræðra sinna og minnti þá á að engill hafði talað til þeirra: „En þið voruð orðnir svo tilfinningalausir, að þið gátuð ekki skynjað orð hans" (1 Ne 17:45). Þegar ég skildi að heilagur andi gæti haft samskipti í gegnum tilfinningar okkar, varð mér ljóst hversvegna orð Krists, hvort sem þau eru í Nýja testamentinu eða Mormónsbók eða öðrum ritningum, vöktu svo góða tilfinningu. Með tímanum komst ég að því að ritningarnar hafa svör við ýmsu sem ég þurfti að vita.

Ég las: „Og hér eru orðin, og þau gilda um ykkur og *alla* menn" (2 Ne 11:8; sjá einnig 1 Ne 19:23–24: 2 Ne 6:5; 11:2). Ég leit svo á að ritningarnar giltu fyrir mig persónulega, og það sama gilti hvað alla aðra varðar.

Þegar vers sem ég hafði hlaupið yfir nokkrum sinnum fékk persónulega merkingu, fannst mér að sá sem ritað hefði það vers hefði djúpan og þroskaðan skilning á mínu lífi og minni líðan.

Ég las til dæmis, að spámaðurinn Lehí neytti ávaxtarins af lífsins tré og sagði: „Ég tók því að þrá, að fjölskylda mín mætti einnig neyta hans, því að ég vissi, að hann var eftirsóknarverðari en allir aðrir ávextir" (1 Ne 8:12). Ég hafði lesið það oftar en einu sinni. Ég hafði ekki fengið mikið út úr því.

Spámaðurinn Nefí sagðist einnig hafa ritað „það, sem sálu minni tilheyrir, ... börnum mínum til uppfræðslu og gagns" (2 Ne 4:15). Ég hafði lesið það áður, og ég skildi það ekkert sérlega vel heldur. En seinna þegar við eignuðumst börn, skildi ég að bæði Lehí og Nefí þótti jafn vænt um börn sín og okkur þótti um börn okkar og barnabörn.

Mér fannst þessar ritningargreinar skýrar og dýrmætar. Ég undraðist að hinn ungi Joseph Smith hefði haft slíkt innsæi. Staðreyndin er sú að ég held ekki að hann hafi haft svo djúpt innsæi. Hann þurfti ekki að hafa það. Hann bara þýddi það sem ritað var á töflurnar.

Slíkt skýrt og dýrmætt innsæi er hvarvetna í Mormónsbók. Það ber vott um djúpa visku og reynslu sem áreiðanlega er ekki einkennandi fyrir þá sem eru 23 ára.

Ég lærði að hver sem er, hvar sem er, getur lesið í Mormónsbók og hlotið innblástur.

Sumt innsæi kom eftir annan, jafnvel þriðja lestur og virtist „gilda" um það sem ég stóð frammi fyrir hverju sinni.

Ég nefni annað skýrt og dýrmætt innsæi sem ekki fékkst við fyrsta lestur í Mormónsbók. Þegar ég var 18 ára, var ég kvaddur í herinn. Ég hafði ekki haft neina ástæðu til að velta því fyrir mér fyrr, en nú varð ég mjög áhyggjufullur um hvort rétt væri fyrir mig að fara í stríðið. Svarið fann ég í Mormónsbók.

„Þeir [Nefítarnir] börðust ekki fyrir einveldi eða valdi, heldur börðust þeir fyrir heimilum sínum og frelsi sínu, konum sínum og börnum, og öllu sínu, já, fyrir trúarsiðum sínum og kirkju sinni.

Og þeir gjörðu það, sem þeir töldu skyldu sína gagnvart Guði, því að Drottinn hafði sagt við þá og einnig við feður þeirra: Séuð þér ekki sekir um fyrstu áreitnina, né heldur hina síðari, þá skuluð þér ekki leyfa óvinum yðar að ráða yður af dögum.

Og enn fremur hefur Drottinn sagt: Þér skuluð verja fjölskyldur yðar, jafnvel með blóðsúthellingum. Af þeirri ástæðu börðust Nefítar við Lamaníta til að verja sig og fjölskyldur sínar, landareignir sínar og lönd, sem og rétt sinn og trú sína" (Alma 43:45–47).

Vitandi þetta, gat ég þjónað fúslega og með sóma.

Annað dæmi: Við þurftum einu sinni að taka mikla ákvörðun. Þegar við vorum enn óviss eftir bænir okkar, fór ég að hitta öldung Harold B. Lee. Hann ráðlagði okkur að láta til skarar skríða. Hann skynjaði að ég var enn mjög óákveðinn, og sagði: „Vandinn með þig er sá, að þú vilt sjá endalokin strax í upphafi." Síðan vitnaði hann í þetta vers úr Mormónsbók: „Deilið því ekki, sakir þess að þér sjáið ekki, því að þér fáið engan vitnisburð fyrr en eftir að reynt hefur á trú yðar" (Eter 12:6).

Hann bætti við: „Þú verður að læra að ganga fáein skref út í myrkrið, og þá mun ljósið kvikna og fara fyrir þér." Þannig getur eitt vers í Mormónsbók orðið til að breyta líf manns.

Hefur ykkur ekki stundum liðið eins og Nefí, sem sagði: „Og andinn leiddi mig, og ég vissi ekki fyrirfram, hvað gjöra skyldi" (1 Ne 4:6)? Hefur ykkur ekki stundum fundist þið vera mjög veikburða eða vanmáttug?

Moróní fannst hann vanmáttugur og var hræddur um að menn „muni hæðast að orðum vorum [vegna veikleika okkar].

. . . Drottinn talaði til [hans] og sagði: Heimskingjar draga dár að öðrum, en þeir munu sjá eftir því. Og náð mín nægir hinum bljúgu, svo að þeir munu ekki færa sér veikleika yðar í nyt –

Og komi menn til mín, mun ég sýna þeim veikleika sinn. Ég gef mönnum veikleika, svo að þeir geti orðið auðmjúkir. Og náð mín nægir öllum mönnum, sem auðmýkja sig fyrir mér. Því að ef þeir auðmýkja sig fyrir mér og eiga trú á mig, þá mun ég láta hið veika verða styrk þeirra“ (Eter 12:25–27).

Lífið þýtur áfram. Þegar ykkur finnst þið vanmáttug, áhyggjufull, niðurdregin, eða hrædd, opnið þá Mormónsbók og lesið. Látið ekki of langan tíma líða áður en þið lesið vers, hugsun, eða kapítula.

Mín reynsla hefur verið að vitnisburður hellist ekki yfir okkur skyndilega. Fremur vex hann, eins og Alma sagði, frá sáðkorni trúar. „Mun þetta ekki styrkja trú ykkar? Því að þið munuð segja: Ég veit, að þetta er gott sáðkorn, því að sjá, það spírar og tekur að vaxa“ (sjá Alma 32:30). Ef þið nærið það, mun það vaxa; og ef þið nærið það ekki, mun það visna (sjá Alma 32:37–41).

Verið ekki vonsvikin þótt þið hafið lesið og lesið og samt ekki enn fengið öflugan vitnisburð. Þið kunnið að vera eitthvað lík lærisveinunum sem talað er um í Mormónsbók og voru fullir af krafti Guðs í mikilli dýrð „en þeir vissu það ekki“ (3 Ne 9:20).

Gerið ykkar besta. Hugsið um þetta vers: „Og sjáið um, að allt þetta sé gjört með visku og reglu, því að ekki er ætlast til að maðurinn hlaupi hraðar en styrkur hans leyfir. Hins vegar er honum ráðlegast að starfa af kappi og vinna þannig til verðlaunanna. Þess vegna skal allt gjörast með reglu“ (Mósía 4:27).

Andlegar gjafir sem lýst er í Mormónsbók eru til staðar í kirkjunni í dag – hugboð, áhrif, opinberanir, draumar, sýnir, vitranir, kraftaverk. Þið megið vera viss um að Drottinn getur sýnt sjálfan sig með krafti og í mikilli dýrð, og stundum gerir hann það. Kraftaverk geta gerst.

Mormón sagði: „Er þá degi kraftaverkanna lokið?

Eða eru englar hættir að birtast mannanna börnum? Eða hefur hann haldið krafti heilags anda frá þeim? Eða mun hann gjöra það, svo lengi sem tíminn varir, jörðin stendur eða einn maður finnst á jörðunni, sem frelsa má?

Sjá. Ég segi yður, nei, því að með trú gjörast kraftaverkin“ (Moróní 7:35–37).

Biðjist alltaf fyrir – einir og með fjölskyldum ykkar. Svör munu fást með margvíslegum hætti.

Fáein orð eða orðasamband í versi, eins og „aldrei hefur hamingjan falist í ranglæti“ (Alma 41:10), mun segja ykkur frá raunveruleika hins illa og hvernig hann vinnur.

„Því að á þann hátt vinnur djöfullinn, því að hann leiðir engan til góðra verka, nei alls engan. Né heldur gjöra englar hans það, né heldur þeir, sem lúta honum“ (Moróní 7:17).

Kynslóðir spámanna kenndu kenningar hins ævarandi fagnaðarerindis til að vernda „hina friðsömu fylgjendur Krists“ (Moró 7:3).

Mormón sá okkar dag. Hann gaf þessa viðvörun: „Ef Drottinn agar ekki fólk sitt með ýmsum þrengingum, já, ef hann vitjar þess ekki með dauða og skelfingu, með hungursneyð og alls kyns fári, þá gleymir það honum“ (He 12:3).

Þegar Drottinn vitjaði Nefítanna, spurðu þeir „hverju nafni [ber okkur] að nefna þessa kirkju, því að ágreiningur er meðal fólksins um þetta atriði.

Og Drottinn sagði við þá: ... Hvers vegna mögla menn og deila um slíkt?

Hafa þeir ekki lesið ritningarnar, sem segja, að þér verðið að taka á yður nafn Krists, sem er mitt nafn? Því að með því nafni verðið þér kallaðir á efsta degi“ (3 Ne 27:3–5).

Meginkjarni Mormónsbókar er vitnisburður hennar um Jesú Krist. Af meira en 6000 versum í Mormónsbók, er miklu meira en helmingur sem fjalla beinlínis um hann.

Svo að, „vér tölum um Krist, vér fögnum í Kristi, vér prédikum um Krist, vér spáum um Krist og vér færum spádóma vora í letur, svo að börn vor viti, til hvaða uppsprettu þau mega leita til fyrirgefningar synda sinna“ (2 Ne 25:26).

Mormónsbók er óendanlegur fjársjóður visku og innblásturs, ráðgjafar og leiðréttingar, „[sniðin] eftir getu hinna veiku og veikustu [meðal okkar]“ (K&S 89:3). Jafnframt er hún næringarrík fyrir þá lærðustu, ef þeir vilja auðmýkja sig (sjá 2 Ne 9:28–29).

Í Mormónsbók lærum við um:

Sáluhjálparáætlunina eða „hina miklu sæluáætlun“ (Alma 42:8; sjá einnig Alma 42:5, 8, 12, 30)

Kenninguna um Krist og friðþæginguna (sjá 2 Ne 31:2–21; 32:1–6; 3 Ne 11:31–40; 27:13–21)

Hvers vegna dauðinn er nauðsynlegur (sjá 2 Ne 9:4–6; Mósía 16:8–9; Alma 12:25–27)

Líf eftir dauðann í andaheiminum (sjá Alma 42:11–14)

Hvernig hinn illi vinnur (sjá 2 Ne 2:27; Alma 28:13; 3 Ne 2:2)

Skipulag prestdæmisins (sjá Mósía 29:42; Alma 4:20; 5:3, 44; Alma 13:1–10)

Sakramentisbænirnar (sjá Móró 4:3; 5:2)

Örugga leið til að dæma milli góðs og ills (sjá Moró 7:16)

Hvernig fá má fyrirgefningu syndanna (sjá Mósía 4:26)

Skýrar, spámannlegar viðvaranir og margt, margt annað viðvíkjandi endurlausn mannsins og lífi okkar. Allt er það hluti af fyllingu fagnaðarerindisins (sjá K&S 20:9).

Mormónsbók staðfestir kenningar Gamla testamentisins. Hún staðfestir kenningar Nýja testamentisins. Hún endurreisir „mörg skýr og afar dýrmæt atriði,“ (1 Ne 13:29) glötuð eða numin brott úr þeim (sjá einnig 1 Ne 13:20–42; 13:23). Hún er í sannleika sagt annað vitni um Jesú Krist.

Á þessu ári höldum við upp á að 175 ár eru liðin frá stofnun kirkjunnar og 200 ár frá fæðingu spámannsins Josephs Smith. Í kirkjunni verður mikið ritað og sagt til heiðurs honum.

Eins og venjulega mun margt verða sagt og ritað til að ófrægja hann. Það hafa alltaf verið, eru nú, og munu verða til þeir sem vilja reyna að þyrla upp 200 ára gömlu ryki, í von um að finna eitthvað sem Joseph er talinn hafa sagt eða gert, í þeim lilgangi að niðurlægja hann.

Opinberunin segir okkur frá þeim „sem lyfta hæli sínum móti mínum smurðu, segir Drottinn, og segja þá hafa syndgað, þegar þeir hafa ekki syndgað gegn mér, segir Drottinn, heldur hafa gjört það, sem rétt var í augum mínum, og sem ég bauð þeim“ (K&S 121:16). Þeirra bíður einmitt mjög ströng refsing.

Við þurfum ekki að verja spámanninn Joseph Smith. Mormónsbók: Annað vitni um Jesú Krist mun verja hann fyrir okkur. Þeir sem hafna Joseph Smith sem spámanni og opinberara verða að finna einhverja skýringu á Mormónsbók.

Og á hinni kraftmiklu vörninni: Kenningu og sáttmálum, og hinni þriðju: Hinni dýrmætu perlu. Gefnar út saman, mynda þessar þrjár ritningar óhrekjandi vitni um að Jesús er Kristur og bera því einnig vitni að Joseph Smith var spámaður. [**Vitnisburður**]

# Hin hljóðláta rödd og öri hjartsláttur

**Richard C. Edgley biskup**
**fyrsti ráðgjafi í Yfirbiskupsráðinu**

Árið 1995 var mér boðið að bjóða fólk velkomið og segja nokkur orð í upphafi vísindanámsstefnu í Salt Lake City um næringu barna. Níutíu og sex vísindamenn úr 24 löndum voru viðstaddir. Þegar ég leit yfir áheyrendur meðan ég flutti orð mín hreifst ég af því hve margar þjóðir áttu þar fulltrúa, en það mátti sjá af klæðnaði þeirra, hörundslit, tungumáli og öðrum sérkennum.

Þremur eða fjórum mánuðum síðar var ég á stikuráðstefnu við austurströnd Bandaríkjanna. Ég sat á pallinum áður en prestdæmisleiðtogafundurinn hófst og sá þá Afríkumann koma inn í kapelluna og setjast við ganginn milli bekkjaraða. Mér fannst hann kunnuglegur en gat ekki munað hvar ég hafði séð hann áður. Ég hallaði mér að stikuforsetanum og spurði hver þessi maður væri. Stikuforsetinn svaraði: „Ó, hann er ekki í kirkjunni. Hann er gestaprófessor frá Afríku sem kennir við virtan háskóla hér á svæðinu. Fyrir nokkrum mánuðum sat hann einhvers konar vísindanámsstefnu í Salt Lake City. Þar sá hann bækling um kirkjuna sem varð til þess að hann les nú allt sem hann getur fundið um hana. Hann kemur á allar samkomur sem hann getur.“ Í hálfgerðu gamni bætti stikuforsetinn við: „Ég yrði undrandi ef hann færi ekki á Líknarfélagsfund.“

Eftir prestdæmisleiðtogafundinn kynnti ég mig fyrir gestaprófessornum. Hann staðfesti áhuga sinn á þessari nýfundnu sannleiksuppsprettu. Hann sagði að fjölskylda sín, sem enn væri í Afríku, væri að læra hjá trúboðunum og kæmi til hans í Ameríku eftir fjórar vikur eða svo, og þá yrðu þau öll skírð saman.

Við lok fundarins á laugardagskvöldið kom þessi maður til mín, lamdi sér á brjóst og sagði með ákafa: „Hjartað berst svo ákaft í brjósti mér, að ég fæ vart hamið það. Ég veit ekki hvort ég get beðið í fjórar vikur eftir að fjölskylda mín skírist.“ Ég benti honum á að reyna að róa hjarta sitt og bíða eftir konu sinni og börnum, svo þau gætu öll látið skírast saman.

Þegar Elía reyndi að bjarga lífi sínu og flúði undan hinni guðlausu fönísku prinsessu, Jesebel, leiddi Drottinn hann upp á hátt fjall þar sem hann varð fyrir óvenjulegri reynslu. Þegar Elía stóð á fjallinu frammi fyrir Drottni, kom „mikill og sterkur stormur ... en Drottinn var ekki í storminum. Og eftir storminn kom landskjálfti, en Drottinn var ekki í landskjálftanum. Og eftir landskjálftann kom eldur, en Drottinn var ekki í eldinum. En eftir eldinn heyrðist blíður vindblær“ (I Kon 19:11–12).

Ég er stundum spurður af þeim sem ekki eru okkar trúar hvers vegna kirkja okkar vaxi svona hratt, bæði meðlimafjöldi og starfsemi, meðan hvorttveggja dregst saman í öðrum kirkjum. Svarið við þeirri spurningu er einfaldlega hin hljóðláta rödd og öri hjartsláttur. Í þessum önnum kafna, róstusama og hávaðasama heimi, er það ekki líkt og stormur, ekki líkt og eldur, ekki líkt og landskjálfti, heldur hin afar hljóða rödd sem veldur örum hjartslætti. Það er hin hljóðláta staðfesting hið innra um að þetta sé hið endurreista fagnaðarerindi Jesú Krists, með allri sinni kenningu, prestdæmi og sáttmálum sem glatast hafði í margar aldir myrkurs og glundroða. Já, það er hljóðlát rödd og ör hjartsláttur sem vitnar um kraftaverk endurreisnarinnar.

Það er hljóðlát rödd og ör hjartsláttur sem hvetur milljónir kirkjuþegna til að líkja eftir lífi Jesú í orði, verki og þjónustu. Það er hljóðlát rödd og ör hjartsláttur sem hvetur þúsundir eftirlaunahjóna til trúboðsþjónustu í 18 mánuði eða lengur. Þau neita sér um lífsþægindin til að fara út í heim og þjóna öðrum á eigin kostnað af töluverðri

fórnfýsi að margra mati, þjóna oft á afskekktum stöðum heims þar sem heitt sturtubað og þægilegt rúm eru munaður sem aðeins verður til í minningunni.

Það er hljóðlát rödd og ör hjartsláttur sem fær hundruð þúsunda ungra manna og kvenna til að yfirgefa gott starf, fresta menntun sinni (stundum að hætta íþróttaæfingum og hafna skólstyrk), eða fresta ástarsambandi til að þjóna Drottni – og þetta gera þeir allt á eigin kostnað – til að boða endurreisn fagnaðarerindisins. Það er hljóðlát rödd og ör hjartsláttur sem vekur hjá unga fólkinu okkar þrá og hugrekki til að standa hrein, heiðarleg og hlýðin, jafnvel þótt það kosti aðkast og höfnun. Það er hljóðlát rödd og ör hjartsláttur sem hvetur menn til að halda boðorð Guðs með gleði og deila byrðunum með þeim sem ólánssamari eru. Já, það er kraftur í hljóðlátri rödd og örum hjartslætti.

Alma spurði á sinn hátt um andlegt ástand hjarta okkar. Hann spyr: „Hafið þér fæðst andlega af Guði?" Og síðan: „Hefur mynd hans greypst í svip yðar? *Hefur þessi gjörbreyting orðið í hjörtum yðar?"* (Alma 5:14, leturbr. hér). Með öðrum orðum, er hjartsláttur ykkar ör af vitnisburði um Jesú Krist?

Ég vil nefna þrennt af mörgu sem fær hjarta mitt til að slá örar. Fyrst, hjarta mitt slær örar af vitneskjunni um að Jesús Kristur er persónulegur frelsari minn og að ást hans til mín nægði til þess að hann þjáðist ólýsanlega, jafnvel allt til dauða. Hjarta mitt slær örar þegar ég djúpt hugsi geri mér ljóst að ég get hreinsast, helgast og frelsast fyrir blóð Jesú Krists. Hjarta mitt slær örar þegar ég hugleiði gjaldið sem greitt var – þjáningarnar sem urðu til að hlífa mér við svipuðum þjáningum fyrir syndir mínar og brot.

Annað, hjarta mitt slær örar af vitneskjunni um ungan dreng, aðeins 14 ára, sem fór út í trjálund og vegna einfaldrar, auðmjúkrar bænar lukust himnarnir upp, Guð og Kristur birtust og englar stigu niður. Og þannig var fylling fagnaðarerindis Jesú Krists endurreist með öllu sínu prestdæmi, sáttmálum og hreinum kenningum. Og hjarta mitt slær örar þegar ég hugleiði það sem þessi drengur mátti þola til þess að koma til leiðar fyllingu hins endurrreista fagnaðarerindis. Meðan himneskir englar stigu niður, voru englar Satans einnig að verki. Ofsóknirnar hófust og líkt og hjá spámönnum til forna, lauk lífi Josephs með fórnardauða. Í öllum raunum sínum og ofsóknum var ungi spámaðurinn trúfastur og ákveðinn.

Vegna spámannsins Josephs Smith skil ég betur umfang friðþægingar Krists. Vegna spámannsins Josephs skil ég betur mikilvægi Grasgarðsins – hins mikla þjáningarstaðar Krists, þar sem Kristur tók ekki aðeins á sig okkar eigin syndir, heldur einnig sársauka okkar, veikleika, raunir og harmkvæli. Ég skil algjört og eilíft eðli hinnar miklu og síðustu fórnar hans. Ég skil betur þá ást sem frelsarinn sýndi í þessu síðasta lausnarverki sínu. Vegna Josephs Smith hefur ást mín og þakklæti til frelsarans aukist og tilbeiðsla mín orðið innihaldsríkari. Meðal margra sálma í sálmabók okkar eftir W. W. Phelps, eru þessi kunnu orð: „Lof syngið honum sem litið fékk Jahve!" („Lof syngið honum," *Sálmar,* nr. 11). Hjarta mitt slær örar þegar ég syng þennan sálm.

Já, vegna þess að við syngjum með ákafa og af hjartans lyst: „Lof syngið honum sem litið fékk Jahve," syngjum við af enn meiri lotningu, tilfinningu og þakklæti um frelsarann með þessum orðum: „Ó, hvílík dásemd að hann skyldi hugsa' um mig. Og hann dó fyrir mig. Ó, hve dásamleg dýrð, dýrð hans fyrir mig." („Um Jesú ég hugsa," *Sálmar,* nr. 65). Hjarta mit slær örar vegna þess skilnings sem spámaðurinn Joseph veitti mér varðandi persónuleg áhrif friðþægingar frelsarans.

Þriðja, hjarta mitt slær örar þegar ég læri og íhuga helgar ritningar Mormónsbókar, að hún styður Biblíuna og ber frekara vitni um guðdómleika Jesú Krists sem sonar Guðs, lausnara og frelsara heimsins. Vegna þessa helga félaga

Biblíunnar hefur skilningur minn á kenningu Krists aukist, og ég hef hlotið fullnægjandi skilning á mörgum spurningum sem ekki fást svör við í Biblíunni. Mormónsbók veitir áþreifanlega sönnun á því að Joseph er spámaður Guðs, Kristur birtist honum í raun, og fagnaðarerindið hefur verið endurreist í hreinleika og fyllingu. Hjarta mitt slær örar með því einu að hugleiða það kraftaverk sem tilurð Mormónsbókar er – hið erfiða verk við leturgröftinn á málmplötunum, vandlega varðveislu þeirra gegnum aldir af Guðs útvöldu, og undursamlega þýðingu hennar. Sannlega samræmist það að fullu skilgreiningunni á helgiritum. Vegna hinnar mikilfenglegu ástar Guðs til okkar lét hann okkur í té sönnun sem við getum handleikið, við getum fylgt, við getum lært og jafnvel véfengt. En mikilvægast er að Guð elskar okkur nægilega til þess að gefa mér og hverjum þeim sem einlæglega leitar persónulegrar opinberunar varðandi sannleiksgildi Mormónsbókar – áþreifanlega sönnun á endurreisninni og að Joseph Smith hafi verið sannur spámaður.

Spámaðurinn Alma í Mormónsbók talar um þessa helgu vitneskju og segir: „Gjörið þér ekki ráð fyrir, að mér sé þetta sjálfum kunnugt? Sjá, ég ber yður þess vitni, að mér er vel kunnugt um, að það, sem ég hef talað um, er sannleikur. Og hvernig haldið þér, að ég viti með vissu, að það er satt? Sjá, ég segi yður, að hinn heilagi andi Guðs hefur kunngjört mér það. Sjá, ég hef fastað og beðið í marga daga til að öðlast vitneskju um þetta sjálfur. Og nú veit ég sjálfur, að það er sannleikur, því að Drottinn Guð hefur opinberað mér það með sínum heilaga anda. Og þetta er andi opinberunar, sem í mér býr,“ tilvitnun lýkur (Alma 5:45–46).

Líkt og Alma til forna, getum við öll, jafnt kirkjuþegnar og einlægir trúarnemar, vitað með vissu að þetta er sannleikur. Sú vitneskja er mikil forréttindi. Hún er meira en forréttindi; það er okkar ábyrgð að vita. Það er mikill missir að vita ekki þegar slík forréttindi eru veitt. Drottinn hefur sagt: „Knýið á, og fyrir yður mun upp lokið verða“ (Matt 7:7). Spámaðurinn Jakob í Mormónsbók segir: „[Haldið] yður fast að Guði í fullri einlægni“ (Jakob 6:5). Við þurfum ekki að treysta á vitsmuni okkar eða skilningarvit. Við lærum, við biðjum, og líkt og Alma til forna getum við einnig fastað, og þá kemur hin hljóðláta rödd og öri hjartsláttur. Hugsið ykkur persónulega opinberun frá Guði um að þetta sé sannleikur. Aðeins hugsunin ein fær hjarta mitt til að slá örar. Í nafni Jesú Krists, amen.

## Öll börn þín verða frædd um Drottin

**Systir Coleen K. Menlove**
**aðalforseti Barnafélagsins**

Nýlegar náttúruhamfarir hafa snert okkur djúpt. Þjáningar barna, saklausra fórnarlamba, hvíla sérstaklega þungt á okkur. Við höfum séð börn án fjölskyldumeðlima sem annast þau, vernda og elska. Við þráum að hjálpa þeim á einhvern hátt – hvern þann hátt sem létta myndi þeim þjáningarnar og vekja þeim von. Við erum þakklát fyrir tækifæri sem gefast til aðstoðar. Vinna þeirra mörgu sem eru að hjálpa þessum börnum er okkur hvatning.

Þó þurfum við ekki að leita langt að börnum sem lifa við ólíkar og þó erfiðar aðstæður. Af vangá getum við horft fram hjá þeim börnum sem eru mitt á meðal okkar. Eru okkur í raun ljósar þær háskalegu aðstæður sem umlykja okkar eigin börn? Við getum yfirleitt greint hvort líkamlegum þörfum þeirra er mætt, en hvað um andlegar þarfir? Þekkja þau ljós og frið fagnaðarerindis Jesú Krists? Ritningin segir: „Öll börn þín verða frædd um Drottin, og mikill verður friður barna þinna."[1]

Börn þarfnast þess friðar sem fylgir vitneskjunni um að þau eigi elskandi föður á himnum, sem sendi son sinn, Jesú Krist, til að færa heiminum ljós og von. Það er undir okkur fullorðna fólkinu komið að beina börnum í átt að friði og ljósi.

Andlegar aðstæður sumra barna í heiminum nú endurspeglast í málverki eftir danska listamanninn, Carl Bloch. Málverkið sýnir fagurlega frásögn ritningarinnar í 5. kapítula Jóhannesarguðspjalls. Kristur, græðarinn og huggarinn, er þungamiðja myndarinnar. Hann er að lyfta tjaldi af manni sem verið hafði sjúkur frá fæðingu. Maðurinn bíður eftir kraftaverki lækningar við laugina í Betesda, en enginn er honum til aðstoðar. Meðan hann bíður og vonast eftir kraftaverki, er Kristur nærstaddur með kraftinn til að lækna hann.

Málverkið sýnir nokkra aðra í bakgrunni, en enginn horfir beint á Krist. Drottinn er mitt á meðal þeirra, en þó er aðeins einn sem sér hann sem slíkan. Allir aðrir virðast uppteknir við annað, óvitandi um hinn mikla kraft Jesú og kraftaverkið sem er um það bil að gerast meðal þeirra. Ungt barn og kona, sennilega móðir þess, virðast í sjónmáli Jesú, en líkt og aðrir horfa þau annað. Þessi kona er í návist frelsarans og lætur hjá líða að leiða barn sitt til frelsarans. Mér er spurn, hefðum við einnig glatað þessu tækifæri til að koma til Krists? Draga atburðir líðandi stundar svo að sér athygli okkar og slæva svo andlega sýn okkar, að við sjáum ekki það sem mestu máli skiptir? Ég spyr, glötum við tækifærum til að læra af Drottni og skynja elsku hans? Glötum við tækifærum til að deila með öðrum – einkum börnum – því sem mestu skiptir, fagnaðarerindi Jesú Krists? Við höfum öll séð börn og unglinga standa ráðvillt í hóp og bíða eftir því að vita það sem mestu skiptir.

Ég get næstum heyrt þetta barn og önnur hrópa orðin sem við svo mörg höfum sungið: „Kenn mér hans ljósið og kærleik að fá." Munið textann: „Kenn mér hans ljósið og kærleik að fá. Kenn mér að biðja Guð himninum á. Kenn mér svo réttlætið vísi mér veg, veginn ljóssins sem ganga vil ég."[2]

Kennum við börnum okkar að vita, finna og fagna í fegurð, krafti og undri fagnaðarerindis Jesú Krists? Gordon B. Hinckley forseti sagði: „Nærum börnin með vitneskju um hann sem við köllum Drottin Jesú Krist. Kennum börnum okkar hinar miklu frelsunarreglur fagnaðarerindisins."[3] Börnin þurfa að vita að trú á frelsarann og hlýðni við hann veitir þeim frið í róstusömum heimi.

Hvernig kennum við börnum okkar? Við getum fylgt fordæmi frelsarans. Í Mormónsbók lesum við um upprisinn frelsarann birtast fólki í Vesturálfu. Þegar hann

kenndi fólkinu, bauð hann börnunum að koma til sín. Hann kraup og bað með börnunum og fyrir þeim. Hann blessaði börnin, hvert og eitt. Hann fann gleðina af návist þeirra og lauk upp himnunum svo að þau fengju kennslu frá upphæðum.

Þegar þið hafið börn ykkar við matborð fjölskyldunnar, þegar þið hafið þau með við daglegt bænahald og ritningarnám og á fjölskyldukvöldum ykkar, eruð þið að fylgja fordæmi frelsarans með kennslu ykkar. Þegar þið gerið þetta, ættuð þið að láta þau vita að saman reyni fjölskyldan að halda boðorðin og reynast verðug þess að verða eilíf fjölskylda. Það kann að verða á þessum óformlegu einkastundum, að andinn hvetji okkur til að spyrja réttra spurninga eða segja einmitt það sem hjálpar börnum okkar að þekkja og finna ljós Drottins. Ef við sköpum tækifæri, mun andinn leiða okkur.

Við eigum dásamleg og fær börn mitt á meðal okkar. Við getum hjálpað þeim að finna frið í þessu lífi og í komanda lífi.

Börn þurfa að læra um og finna ljós Krists svo að þau geti valið ljósið og hafnað myrkrinu. Móse varð fyrir undursamlegri reynslu þegar hann ummyndaðist og sá Guð með andlegum augum sínum. Eftir að Móse hafði lært af Guði og séð dýrð hans og verk, kom Satan til Móse með myrkur og glundroða. En vegna þess að Móse hafði séð ljós og dýrð Guðs, þekkti hann muninn. Hann stóð áræðinn gegn Satan og sagði: „Hver ert þú? Því að sjá, ég er sonur Guðs.“[4]

Börn þurfa að fyllast ljósi fagnaðarerindisins, þannig að þegar freistingarnar koma geti þau sagt: „Ég veit hver ég er. Ég er barn Guðs. Ég veit hvað mér ber að gera. Ég veit að ég á að skírast, taka á móti heilögum anda og halda boðorðin.“ Síðan geta börnin sagt: „Ég veit hvað ég get orðið. Ég get orðið réttlátur ungur maður og tekið á móti prestdæminu eða ég get orðið réttlát ung kona.“ Börn sem full eru af vitneskju og ljósi geta tekið þá ákvörðun að hafna myrkrinu og snúa til ljóss og friðar fagnaðarerindsins.

Börn sem eiga fagnaðarerindið geymt í hjarta sér þekkja hönd Drottins í lífi sínu. Börnin vita meira en við stundum ætlum og geta gert meira en við stundum teljum. Mér hefur lærst að þau börn sem hafa ljós fagnaðarerindisins eru trúgjörn. Þau efast ekki. Samantha, 11 ára, sagði: „Ég veit að fagnaðarerindið er sannleikur vegna þess að ég finn það.“ Benjamín þriggja ára sagði: „Ég veit að faðir minn á himnum heyrir bænir mínar og svarar þeim vegna þess að hann elskar mig.“ Börn sem eiga ljós fagnaðarerindisins segja: „Ég veit að heilagur andi leiðbeinir mér vegna þess að mér líður vel þegar ég hef valið að fylgja rödd hans.“ Samúel er að byrja að skilja þær tilfinningar sem berast frá heilögum anda. Þegar móðir hans spurði hann: „Hver er heilagur andi?“ svaraði hann: „Það er hlý tilfinning í brjósti.“ Samúel skildi líka að þegar litli tveggja vikna bróðir hans var veikur þá var það heilagur andi sem hvatti hann til að biðja um hjálp Drottins. Getið þið fundið frið þessara barna?

Að kenna börnum krefst meira en aðeins löngunar. Það krefst kostgæfni af okkar hálfu. Áður minntist ég á sönginn: „Kenn mér hans ljósið og kærleik að fá,“ eftir systur Clöru McMaster. Systir McMaster sagði mér að þegar hún hafi þjónað í aðalstjórn Barnafélagsins hafi henni verið falið það verkefni að gera söng um kennslu barna. Henni fannst þetta skelfilegt verkefni og baðst fyrir til að vita hvernig hún ætti að fara að.

Þegar hún afhenti verkið eftir mikið basl var henni sagt að það væri ekki rétt. Henni var sagt hverju breyta þurfti og að halda áfram þar til það væri rétt. Hún var andlega örþrota og vissi ekki hvernig hún átti að halda áfram. Enn leitaði hún handleiðslu Drottins, gerði breytingar og afhenti nýja útgáfu. Þetta gerðist þrisvar sinnum og að lokum var henni sagt að þetta væri fullkomið og hún þyrfti engu að breyta.

Þótt systir McMaster væri oft að því komin að gefast upp, vann hún samviskusamlega að því sem hún var beðin að gera og vonaði að það yrði börnunum til blessunar. Innblásinn söng hennar hafa bæði fullorðnir og börn í mörgum löndum sungið á mörgum tungumálum. Þessi söngur sýnir mína hjartans þrá – að öll börn muni læra að vera í ljósi fagnaðarerindis Jesú Krists. Söngurinn hefst með bón barns: „Kenn mér hans ljósið og kærleik að fá“ og endar með skuldbindingunni, „fögnum, gleðjumst við ljós þitt hvern dag.“[5]

Það krefst tíma og áreynslu að kenna barni, en við megum ekki beina athyglinni frá því eða gefast upp. Börn okkar þarfnast þess svo að loforðið rætist: „Mikill verður friður barna þinna.“[6] Látum ekkert barn efast um að himneskur faðir og Jesús Kristur elski það. Látum öll börn vita hver þau eru, hvað þau eigi að gera, og hver þau geta orðið.

Ég er þakklát öllum sem rétta börnum hjálparhönd, sem elska þau og kenna þeim, hvernig sem jarðneskar aðstæður þeirra eru, svo að þau geti fundið friðinn af ljósi fagnaðarerindisins og notið loforða Drottins.

Mig langar einkum að tala til barna um allan heim. Ég hef hitt sum ykkar hér og nokkur ykkar í Afríku, á Filippseyjum, í Kóreu og nýlega í Úkraínu og Rússlandi. Ég hef vitjað ykkar í Barnafélaginu og jafnvel á barnaspítölum. Ég vona að þið vitið hve heitt fjölskylda ykkar elskar ykkur, og Barnafélagskennarar, og það sem mikilvægast er, himneskur faðir og Jesús Kristur.

Sættist aldrei á minna en forréttindi og blessanir Guð fyrir ykkur. Staðall ykkar hvað varðar klæðnað, málfar og hegðun, eru ytri tákn um innri skyldurækni við himneskan föður og áform hans varðandi ykkur.

Áhrif ykkar á mig eru meiri en þið getið gert ykkur í hugarlund. Þakka ykkur fyrir þá gleði og von sem þið veitið mér og Barnafélagsleiðtogum ykkar og einkum foreldrum ykkar. Munið eftir að þakka þeim sem elska ykkur og kenna. Ég veit, og ég vil að þið vitið, að þið eruð börn Guðs, himneskur faðir elskar ykkur og þið getið beðið til hans hvenær sem er og hvar sem er. Reynið alltaf að muna eftir og fylgja Jesú Kristi, því það mun veita ykkur ljós og frið og von um eilífðirnar. Um þetta vitna ég í nafni Jesú Krists, amen.

HEIMILDIR

1. 3 Nefí 22:13.
2. *Barnasöngbókin,* 177.
3. Pago Pago, Amerísku Samóaeyjum, samkoma kirkjuþegna 13. okt. 1997; eða Church News, 4. sept. 1999, 2.
4. HDP Móse 1:13.
5. *Barnasöngbókin, 177.*
6. 3 Nefí 22:13.

# Nú er tíminn til undirbúnings

**Öldungur Russell M. Nelson**
**í Tólfpostulasveitinni**

Mínir kæru bræður og systur, frá því á síðustu aðalráðstefnu, hefur elskan mín – elskuleg eiginkona mín í 59 ár – látist. Ég var heima laugardag einn án nokkurra verkefna sem knúðu á, og við unnum saman. Hún þvoði þvottinn okkar. Ég hjálpaði til með því að bera hann, brjóta saman, og setja á sinn stað. Síðan sátum við í sófanum, héldumst í hendur, nutum þess að horfa á sjónvarpsþátt, þegar mín ástkæra Dantzel friðsamlega hvarf inn í eilífðina. Lát hennar kom skyndilega og óvænt. Aðeins fjórum dögum áður höfðu niðurstöður reglubundinnar skoðunar hjá lækni okkar leitt í ljós að sýnatökur væru góðar. Eftir að tilraunir mínar til að lífga hana við höfðu reynst árangurslausar, helltist sorgin yfir mig. Minn nánasti vinur, yndisleg móðir tíu barna okkar, amma fimmtíu og sex barnabarna okkar, hafði verið tekin frá okkur.

Dantzel var ekki bara elskaður og elskandi félagi. Hún var kennari: Með göfugu fordæmi, kenndi hún trú, dyggðir, hlýðni, og miskunnsemi. Hún kenndi mér hvernig á að hlusta og elska. Vegna hennar þekki ég allar blessanir sem hlotnast eiginmanni, föður, og afa.

Með djúpu þakklæti, vil ég minnast á þann mikla kærleik sem streymt hefur frá kærum vinum út um heiminn. Ótal bréf, símtöl, kort, og önnur boð hafa borist. Í því öllu var látin í ljós aðdáun á henni og samúð til okkar, sem eftir lifa. Þessi boð öll voru svo mikil að magni, að við gátum því miður ekki svarað þeim öllum hverju fyrir sig. Má ég þakka hverjum og einum mikla vinsemd í okkar garð. Þakka ykkur kærlega, kærlega fyrir. Orð ykkar hafa fært fjölskyldu okkar svo mikla huggun á þessum sorgartíma. Við elskum okkar kæru Dantzel svo heitt! Við söknum hennar!

Af skyndilegu brotthvarfi hennar getum við lært mjög mikilvæga lexíu: Nú er tíminn til að búa sig undir að mæta Guði. Á morgun kann það að vera of seint. Spámenn hafa um aldir lýst þessu yfir: „Þetta líf er tími mannanna til að búa sig undir að mæta Guði ... [skjótið] ekki degi iðrunar ykkar á frest til hins síðasta.“[1]

## NAUÐSYNIN Á AÐ UNDIRBÚAST *NÚNA*

Samt slá margir hlutunum á frest.[2] Spámaður hefur varað okkur við: „Þið getið ekki sagt ... Nú *ætla* ég að iðrast, nú *ætla* ég að snúa mér til Guðs míns. Nei, þið getið ekki sagt þetta, því að hinn sami andi, sem ræður líkömum ykkar á þeim tíma, sem þið hverfið úr þessu lífi, sá hinn sami andi mun hafa vald yfir líkama ykkar í þeim eilífa heimi.“[3] Annar spámaður bætir við: „Sá, sem saurugur er, mun enn verða saurugur; sá, sem réttlátur er, mun enn verða réttlátur.“[4]

Stórkostleg er sú þekking að „hvert það vitsmunastig, sem við öðlumst í þessu lífi, mun fylgja okkur í upprisunni.“[5] Frá spámanninum Joseph Smith lærum við einnig að „Guð hefur ... tíma ... útvalið ... þegar hann mun færa alla þegna sína, sem hlýtt hafa röddu hans og haldið boðorð hans, inn í himneska hvíld sína. Sú hvíld[6] er af slíkri fullkomnun og dýrð, að maðurinn þarfnast undirbúnings áður en hann getur, í samræmi við lögmál þess ríkis, komið inn í það og notið blessana þess ... Guð hefur sett mannkyni sérstök lögmál sem, ef haldin eru, nægja til að búa það undir að erfa þessa hvíld.“[7] Systir Nelson var þannig undirbúin!

Það dýrðlega takmark virðist fjarska fjarlægt ef maður er niðurdreginn vegna heimsins vandamála og depurðar. Ég minnist þess er vinur sem átti erfiðan dag hrópaði upp yfir sig: „Ó, af hverju fæddist ég eiginlega?“ Áætlun Guðs svarar

spurningu hans. Við komum inn í þennan heim til að eignast líkama. Við getum orðið ástfangin og gifst. Við getum átt börn og upplifað erfiðleika dauðlegs lífs. (Vinsamlega fyrirgefið mér að nefna í sömu andránni börn og erfiðleika lífsins. En ég finn að hvort tveggja er hluti af vaxtarþroska okkar.) Kirkjan var endurreist – jörðin var sköpuð – svo að þessar fjölskyldur gætu verið innsiglaðar í heilögum musterum. Að öðrum kosti, mundi öll jörðin verða „gjöreydd.“[8]

Við komum til að reynt yrði á okkur, og til að velja.[9] Ákvarðanir okkar ákveða örlög okkar. Okkur er „frjálst að velja frelsi og eilíft líf fyrir atbeina hins mikla meðalgöngumanns allra manna, eða velja helsi og dauða.“[10] Þeir sem velja leið Drottins mega búast við ofsóknum.[11] En laun þeirra eru örugg. Þeir sem reynast trúfastir „munu erfa Guðs ríki, ... og gleði þeirra verður algjör að eilífu.“[12] Systir Nelson hefur unnið til þeirra verðlauna. Hvílíka huggun það færir mér og fjölskyldu okkar!

Erfiðleikar og áreynsla falla ríkum jafnt sem fátækum í skaut. Fyrir mörgum árum var ég beðinn að framkvæma uppskurð á mjög auðugum manni. Sýni tekin með skurðaðgerð sýndu að hann var með krabbamein á háu stigi sem breiðst hafði út um líkamann. Þegar ég greindi frá þessu, voru fyrstu viðbrögð hans að treysta á auð sinn. Hann mundi fara hvert sem væri eða gera hvað sem væri til lækninga. Hann hélt að hann gæti keypt sér heilsu að nýju. En hann dó innan skamms. Einhver spurði: „Hve mikið skildi hann eftir sig?“ Svarið er, auðvitað: „Allt saman!“

Forgangsröð hans snerist um þessa heims hluti. Metorðastigi hans hallaðist upp að röngum vegg. Ég minnist hans þegar ég les þessa ritningargrein: „En sjá. Reynsludagar yðar eru liðnir. Þér hafið frestað hjálpræðisdegi yðar, þar til ... of seint.“[13]

Sem geislandi mótvægi, hafði systir Nelson undirbúið sig í lífi sínu fyrir þann tíma er hún kæmi aftur til Guðs. Hún lifði hvern dag eins og hann væri hennar síðasti. Hún naut hverrar stundar, vitandi að tíminn á jörðu er dýrmætur.

Sumar lifa eins og aldrei komi að skuldadögum. Aðrir sólunda deginum í þrúgandi ótta við morgundaginn eða lamandi áhyggjum vegna mistaka gærdagsins. Öll mættum við gjarnan hugleiða orð skálds, sem greypt eru á sólskífu eina:

*Minn fingur-skuggi, sem þú lítur*
*framtíð þína, frá því liðna slítur;*
*óborinn tími, framar honum sefur*
*rökkri hulinn, ekkert enn þér gefur.*
*Handan hinnar óafturkræfu línu*
*er horfin tíð, lengur ei á valdi þínu:*
*Ein stund aðeins, er á þínu valdi,*
*einungis NÚIÐ, þar sem skugginn dvaldi.*[14]

*HVERNIG* UNDIRBÚUMST VIÐ?

Nú er tíminn. En *hvernig* undirbúumst við? Byrjum með iðrun! Ritningarnar lýsa yfir: „Hafir þú því sóst eftir að breyta ranglátlega á reynsludögum þínum, þá dæmist þú óhreinn fyrir dómstóli Guðs ... ekkert óhreint fær dvalið með Guði.“[15] Hann gaf þessa einföldu reglu: „Ef þér haldið ekki lögmál mitt, getið þér ekki öðlast þessa dýrð.“[16]

Nú er tíminn til að bera lotningarfulla virðingu fyrir eigin líkama. Hann þjónar sem tjaldbúð fyrir anda manns um alla eilífð. Líkamlegum þrám á að stjórna með viljastyrk andans. Við eigum að hafna öllu óguðlegu.[17] Við eigum að „hafna öllu illu

og halda [okkur] fast að öllu góðu, og lifa eftir sérhverju orði, sem fram gengur af Guðs munni.“[18]

Vegna algengra og hræðilegra hörmunga í heiminum, efast sumt fólk um tilvist Guðs. En í raun og veru er hann að reyna að hjálpa okkur. Hann opinberaði þessi orð: „Hversu oft hef ég hrópað til yðar með munni þjóna minna og með þjónustu engla og minni eigin raust, og með þrumuraust og með raust eldinga og með raust fellibyls ... jarðskjálfta ... hagléls ... hungursneyðar og plágu ... og hefði frelsað yður með ævarandi hjálpræði, en þér vilduð það eigi!“[19]

Von hans okkar vegna er eilíft líf. Við gerumst hæf fyrir það með hlýðni við sáttmála og helgiathafnir musterisins ... fyrir okkur sjálf, fjölskyldur okkar, og áa okkar. Við getum ekki orðið fullkomin án þeirra.[20] Við getum ekki *óskað* okkur inn í návist Guðs. Við eigum að hlýða þeim lögmálum sem þessar blessanir byggjast á.[21]

Áætlun Guðs er sanngjörn. Jafnvel þeir „sem dáið hafa án þekkingar á fagnaðarerindinu, en hefðu meðtekið það, ef þeim hefði leyfst að dvelja lengur, verða erfingjar hins himneska ríkis Guðs.“[22] Áætlun hans er einnig miskunnsöm. Hann „mun dæma alla menn samkvæmt verkum þeirra, samkvæmt því, sem hjörtu þeirra þrá.“[23]

Nú er tíminn til að skrá nöfn okkar meðal fólks Guðs. Það gerum við með því að greiða tíund. Hann leggur tíund á fólk sitt til að blessa það.[24] Systir Nelson kenndi fjölskyldu okkar þá lexíu, aftur og aftur.[25]

Nú er tíminn til að samræma markmið okkar markmiðum Guðs. Verk hans og dýrð hans – „að gjöra ódauðleika og eilíft líf mannsins að veruleika.“[26] – getur orðið okkar. Um musterishjónabönd sagði frelsarinn: „Kvænist maður eftir mínu orði, sem er lögmál mitt, og eftir hinum nýja og ævarandi sáttmála, ... [skulu þau] erfa hásæti, ríki, hátignir og völd, yfirráð, ... [upphafningu sína og dýrð] í öllu.“[27] Við eigum að líkja eftir fordæmi Drottins, elska eins og hann elskaði, biðjast fyrir eins og hann, og standast allt til enda eins og hann.[28]

MIKILVÆGI DAUÐANS Í EILÍFRI ÁÆTLUN GUÐS

Dauðinn er nauðsynlegur þáttur í eilífri tilveru okkar. Enginn veit hvenær hann kemur, en hann er nauðsynlegur í hinni miklu sæluáætlun Guðs.[29] Svo er friðþægingu Drottins fyrir að þakka, að væntanleg upprisa er staðreynd og eilíft líf er möguleiki öllu mannkyni.[30] Sá möguleiki verður að veruleika þegar við fylgjum lögmálum Guðs.Hann sagði: „Ef þér haldið ekki boðorð mín, sem ég hef gefið yður á þessari stundu, komist þér með engu móti í himnaríki.“[31] Dag einn verðum við dæmd af Drottni[32] og förum í okkar eigin heimkynni sem undirbúin hafa verið í himnesku húsi föðurins.[33] Himnesk dýrð bíður þeirra sem verið hafa hlýðnir ljúfum boðorðum Guðs.[34]

Bræður og systur, við lifum til að deyja og við deyjum til að lifa – í öðru ríki. Ef við erum vel undirbúin, færir dauðinn engan ótta. Frá eilífu sjónarhorni, er dauðinn þeim einum ótímabær sem ekki eru undir það búnir að mæta Guði.

Nú er tíminn til undirbúnings. Síðan, þegar dauðann ber að garði, getum við horfið fram á við til himneskrar dýrðar sem himneskur faðir hefur búið trúföstum börnum sínum. Þangað til, fyrir syrgjandi ástvini sem eftir lifa – svo sem fjölskyldu okkar og mig – er broddur dauðans slævður með staðfastri trú á Krist, fullkomnu vonarljósi og ást til Guðs og allra manna og djúpri þrá eftir að þjóna þeim.[35] Sú trú, sú von, sá kærleikur mun gera okkur hæf til að koma inn í heilaga návist Guðs og, ásamt okkar eilífu förunautum og fjölskyldum, dvelja með honum til eilífðar. Um þetta vitna ég í nafni Jesú Krists, amen.

1. Alma 34:32–33; sjá einnig 13:27.
2. Ritningar minna okkur öll á að „...ég vildi, að þið ... hertuð eigi hjörtu ykkar lengur. Því að sjá, nú er tíminn og dagur hjálpræðis ykkar. ... iðrist og herðið ekki hjörtu ykkar, þá mun hin mikla endurlausnaráætlun samstundis ná til ykkar“ (Alma 34:31).
3. Alma 34:34; skáletri bætt við.
4. Mormón 9:14; sjá einnig 2 Ne 9:15–16; K&S 88:27–32, 34–35; K&S 130:2.
5. K&S 130:18.
6. Í Nýja testamentinu, hefur orðið *hvíld* verið þýtt frá gríska kvenkyns nafnorðinu, *katapausis,* sem merkir „hið himneska blessunarástand þar sem Guð dvelur.“ Þannig að *hvíld* felur í sér eiginleika dýrðar.
7. *Teachings of the Prophet Joseph Smith*, Joseph Fielding Smith valdi (1976), 54.
8. Sjá K&S 2:1–3; 138:48; Joseph Smith – Saga 1:39.
9. Sjá K&S 98:12; 2 Ne 9:27; Abraham 3:24–26.
10. 2 Ne 2:27.
11. Sjá 2 Tím 3:12.
12. 2 Ne 9:18.
13. He 13:38.
14. Henry Van Dyke, mars 1904. Sólúr og ljóð til sýnis í Wells College, Aurora, New York.
15. 1 Ne 10:21.
16. K&S 132:21; sjá einnig 88:36–39.
17. Sjá 2 Ne 2:21; Morm 9:28; Moró 10:32.
18. K&S 98:11.
19. K&S 43:25.
20. Sjá K&S 128:15, 18.
21. Sjá K&S 130:20–21.
22. K&S 137:7.
23. K&S 137: 9.
24. Sjá Mal 3:10; 3 Ne 24:10. Tíund býr fólk einnig undir dag endurgjalds og brennslu (sjá K&S 85:3).
25. Sjá Spencer J. Condie, *Russell M. Nelson, Father – Surgeon – Apostle*, (Deseret Book Co.) 2003, 104.
26. HDÐ Móse 1:39; sjá einnig 6:59; Joseph Smith Translation, Genesis 6:62.
27. K&S 132:19; sjá einnig K&S 75:5; 101:65.
28. Sjá 2 Ne 33:4; 3 Ne 15:9; 27:21–22; K&S 14:7.
29. Sjá Alma 42:8–9.
30. Sjá 1 Kor 15:50–54; 1 Jóh 5:11, 20; Alma 1:4; 12:25; Morm 9:13; K&S 46:14; 76:40–42, 50–59; 133:62.
31. 3 Ne 12:20.
32. Sjá 1 Ne 10:20; 2 Ne 9:41–46; Alma 12:27.
33. Sjá Jóh 14:2; K&S 98:18.
34. Sjá K&S 78:7; 131:1–3.
35. Sjá 2 Ne 31:20; Mósía 16:7–8; Moró 7:38–48.

# Óbreytanlegur sannleikur fyrir breytilega tíma

**Thomas S. Monson forseti**
**fyrsti ráðgjafi í Æðsta forsætisráðinu**

Kæru bræður og systur, bæði innan sjónmáls og samankomin um allan heim. Ég bið um athygli ykkar, bænir og trú er ég nýt þeirra forréttinda að ávarpa ykkur eins og mér hefur verið falið.

Ég byrja á að hrósa ykkur öllum. Í þessum vandasama heimi er æskufólk kirkjunnar betra en nokkru sinni fyrr. Trú, þjónusta og starf kirkjuþegna okkar er lofsvert. Við erum bænheitt og trústerkt fólk, og reynum að vera heiðarleg og siðsöm. Við önnumst hvert annað. Við reynum að sýna náungum okkar kærleik.

En svo að við verðum ekki of sjálfsánægð leyfi ég mér að vitna í annan Nefí í Mormónsbók.

„Á þeim degi mun [djöfullinn] ... hvetja til andvaraleysisdvala holdlegs öryggis, svo að þeir segi: Allt er eins og vera ber í Síon. Já, Síon dafnar, og allt er gott – Og þannig svíkst djöfullinn að sálum þeirra.“[1]

Sumir hafa sagt að á sjálfsánægjutré okkar séu margar greinar, og að á hverju vori fjölgi brumi þeirra.

Við höfum ekki efni á sjálfsánægju. Við lifum á erfiðum tímum; merki þess má sjá alls staðar. Við verðum sterklega vör við þau neikvæðu áhrif í samfélagi okkar sem læðast að venjulegum fjölskyldum. Stundum sýna sjónvarp og kvikmyndir veraldlegar og ósiðsamar karl- og kvenhetjur og reyna að halda þeim á lofti sem fyrirmyndarleikurum og leikkonum þótt líf þeirra sé langt frá því að vera til fyrirmyndar. Hvers vegna ættum við að fylgja blindum leiðsögumanni? Útvarpsstöðvar senda út siðspillandi tónlist með smekklausum textum, háskalegum boðum og lýsingum á nær öllu því illa sem hægt er að ímynda sér.

Við, þegnar Kirkju Jesú Krists hinna Síðari daga heilögu, verðum að rísa gegn þeirri hættu sem umlykur okkur og fjölskyldur okkar. Okkur til hjálpar við það set ég fram nokkrar ábendingar, og auk þess nokkur dæmi úr eigin lífi.

Ég byrja á fjölskyldukvöldi. Við höfum ekki efni á að vanrækja þann innblásna þátt. Hann getur fært öllum í fjölskyldunni þann andlega þroska sem hjálpar þeim að standast freistingarnar sem alls staðar eru. Þær lexíur sem lærast heima eru þær sem vara lengst. – Eins og Gordon B. Hinckley forseti og fyrirrennarar hans hafa sagt: „Heimilið er grundvöllur réttláts lífs, og ekkert getur komið í þess stað né uppfyllt mikilvægt hlutverk þess.“

Dr. Glenn J. Doman, þekktur rithöfundur, læknir og áhrifamaður, skrifaði: „Nýfætt barnið er næstum nákvæm eftirmynd af tómri tölvu, þótt það taki henni stórlega fram að mest öllu leyti. ... Það sem sett er í [huga] barnsins á fyrstu átta árum þess verður þar mjög sennilega það sem eftir er. Ef þið komið ranghugmyndum inn í [huga] þess á þeim tíma, verður mjög erfitt að eyða þeim.“ Hann bætti við: „Mótttækilegasti aldur mannlegs lifs er tveggja eða þriggja ára.“[2]

Mér líka þessi orð: „Hugur þinn er skápur, og þú fyllir hillurnar.“ Við skulum tryggja að skáphillur okkar og fjölskyldu okkar séu fylltar af því sem veita mun sálum okkar öryggi og gera okkur mögulegt að snúa aftur til föður okkar á himnum. Slíkar hillur má fylla af trú og trúarlærdómi, bænum, ást, þjónustu, hlýðni, fordæmi og góðvild.

Næst ræði ég um skuldir. Þetta er tími lántöku, tími þegar margskonar kreditkortatilboð streyma inn um bréfalúgu okkar í viku hverri. Þau bjóða yfirleitt lága vexti, sem varað geta í skamman tíma, en það sem mörgum er yfirleitt ekki ljóst

er að eftir þann tíma hækka vextirnir verulega. Ég vil deila með ykkur orðum forseta J. Reuben Clark, yngri,sem í mörg ár átti sæti í Æðsta forsætisráðinu. Sannleikur þeirra er sígildur. Hann sagði: „Sú regla gildir í fjármálum og hagstjórn um heim allan að vextir greiðast af lánsfé. ... Vextir sofa aldrei, verða hvorki veikir né deyja; þeir fara aldrei á spítala; þeir vinna á sunnudögum og hátíðisdögum, taka sér aldrei frí; þeir fara aldrei í heimsóknir eða í ferðalög; þeir eru aldrei ánægðir; þeir sleppa aldrei vinnu né er þeim sagt upp vinnu; þeir fækka aldrei vinnustundum sínum. ... Séuð þið skuldug eru vextir félagi ykkar hverja stund, hvern dag og hverja nótt, þið getið ekki sniðgengið þá, sloppið frá þeim eða virt þá að vettugi. Þeir sinna hvorki grátbænum, boðum, né bönnum, og alltaf ef þið verðið fyrir þeim, á vegi þeirra eða mætið ekki kröfum þeirra, þá kremja þeir ykkur."

Bræður mínir og systur, mér blöskra sumar auglýsingarnar sem ég sé og heyri. Þær eru, hreint út sagt, annað veðlán á heimili ykkar. Tilgangur slíkra lána er að freista okkar til að fá meira lánað til þess að eignast meira. Það sem aldrei er nefnt er sú staðreynd, að ef við getum ekki greitt þessa „aðra" greiðslu af húsi okkar, eigum við á hættu að missa það.

Forðist þær kenningar og afsakanir að munaður gærdagsins sé í dag orðinn nauðsynjar. Hann verður ekki nauðsynjar nema við gerum hann slíkan. Mörg ung hjón í dag vilja byrja með marga bíla og heimili eins og mamma þeirra og pabbi voru alla ævi að eignast. Þar af leiðandi taka þau langtímalán sem greiðast skulu af tvöföldum launum. Kannski of seint verður þeim ljóst að breytingar verða, konur eignast börn, veikindi verða, uppsagnir, náttúruhamfarir eða annað slíkt gerist og ekki er lengur hægt að greiða afborganir, sem greiðast áttu af tvöföldum launum.

Það er brýnt að við lifum ekki um efni fram.

Næst finn ég mig knúinn til að tala til mæðra, feðra, sona og dætra.

Ég vil segja við hverja móður og hvern föður – verið góðir hlustendur. Tjáskipti eru svo mikilvæg í hinum hraða heimi nútímans. Gefið ykkur tíma til að hlusta. Og við börnin, ræðið við móður ykkar og föður. Ykkur kann að reynast erfitt að skilja, að foreldrar ykkar hafa gengið í gegnum margan þann sama vanda og mætir ykkur í dag. Oft sjá þau heildarmyndina mun betur en þið gerið. Þau biðja fyrir ykkur dag hvern og eiga rétt á innblæstri frá himneskur föður varðandi ráðgjöf til ykkar og leiðsögn.

Mæður, deilið húsverkunum með börnum ykkar. Stundum er auðveldara að gera hlutina sjálf en fá hjálp barnanna, en það skiptir svo miklu að þau læri mikilvægi þess að gera sinn hlut.

Feður, ég ráðlegg ykkur að sýna eiginkonu ykkar ást og góðvild. Sýnið börnum ykkar þolinmæði. Verið ekki of eftirlátir, því þau verða að læra að ganga sinn eigin veg í þessum heimi.

Ég hvet ykkur til að vera til staðar fyrir börn ykkar. Ég hef heyrt sagt, að enginn maður á dauðastundu hafi látið í ljós ósk um að hafa eytt meiri tíma á skrifstofu sinni.

Ég hef unun af eftirfarandi dæmi úr grein sem ber heitið „A Day at the Beach," eftir Arthur Gordon. Hann sagði: „Þegar ég var um 13 ára og bróðir minn 10 ára lofaði faðir okkar að fara með okkur í sirkus. En um hádegið hringdi síminn: Eitthvað áríðandi mál krafðist afskipta hans niðri í bænum. Við bjuggum okkur undir vonbrigðin. En þá heyrðum við hann segja: 'Nei ég kem ekki. Það verður að bíða.' Þegar hann kom aftur að borðinu brosti móðir okkar og sagði: 'Sirkusinn kemur aftur, þú veist það.' Faðir minn svaraði: 'Ég veit það, en bernskan gerir það ekki.'"

Bræður og systur, tíminn með börnum ykkar er skammur. Frestið því ekki að vera með þeim nú. Einhver orðaði það öðru vísi: Lifðu aðeins fyrir morgundaginn og þá munt þú í dag eiga fullt af innantómum gærdögum.

Foreldrar, hjálpið börnum ykkar að setja sér markmið varðandi nám og starf. Kennið sonum ykkar mannasiði og virðingu fyrir konum og börnum.

Gordon B. Hinckley forseti sagði: „Heimurinn verður innan fárra ára það sem við kennum nýrri kynslóð nú. Ef þið hafið áhyggjur af framtíðinni, skoðið þá uppeldi barna ykkar."[3]

Orð Páls postula til síns kæra Tímateusar gætu átt vel við: „Ver fyrirmynd trúaðra, í orði, í hegðun, i kærleika, í trú, í hreinleika."[4]

Foreldrar, lifið lífi ykkar þannig að börnum ykkar finnist þið verðug fyrirmynd að fylgja.

Ég áminni allar fjölskyldur: Leitið arfleifðar ykkar. Mikilvægt er að þekkja, eins og hægt er, þá sem á undan okkur gengu. Við lærum eitthvað um okkur sjálf þegar við fræðumst um áa okkar.

Ég minnist þess að sem drengur heyrði ég um reynslu áa minna, Millers. Um vorið 1848 gengu langalangafi minn, Charles Stewart Miller, og langalangamma mín, Mary McGowan Miller, í kirkjuna í Skotlandi, yfirgáfu heimili sitt í Rutherglen, Skotlandi, og ferðuðust yfir Atlantshafið Þau fóru í land í New Orleans og ferðuðust með hópi heilagra upp Mississippifljótið til St. Louis í Missouri, komu þangað 1849. Eitt ellefu barna þeirra var Margaret, langamma mín.

Þegar fjölskyldan kom til St. Louis var ætlunin að afla fjár til að komast til Saltvatnsdalsins, en þá kom upp kólera á staðnum. Miller-fjölskyldan varð illa fyrir barðinu á henni. Á tveimur vikum dóu móðirin, faðirinn og tveir synir. Langamma mín, Margaret Miller, var þá 13 ára.

Vegna fjölda dauðsfalla á svæðinu var enga kistu að fá – alls enga. Eldri drengirnir tóku niður grindverkið umhverfis uxana og smíðuðu úr því kistur fyrir þá sem dáið höfðu í fjölskyldunni.

Níu börn Millers-hjónanna sem eftir lifðu og eiginmaður elstu dótturinnar yfirgáfu St. Louis um vorið 1850 með fjóra uxa og einn vagn og komust að lokum til Saltvatnsdalsins það sama ár.

Ég er í svo mikilli þakkarskuld við þau og aðra göfuga forvera sem unnu fagnaðarerindinu og elskuðu Drottin svo heitt að þau voru fús til að fórna öllu sem þau áttu, þar á meðal lífi sínu, fyrir Kirkju Jesú Krists hinna Síðari daga heilögu. Hve þakklátur ég er fyrir helgiathafnir musterisins sem tengja okkur saman um alla eilífð.

Ég legg áherslu á mikilvægi þess verks sem við vinnum í musterum Drottins fyrir látna ættingja okkar.

Fyrir aðeins tveimur mánuðum kom fjölskylda mín saman í Salt Lake-musterinu til að láta framkvæma innsiglun fyrir nokkur látin ættmenni okkar. Þetta varð einhver andlegasta stundin sem fjölskylda okkar hefur átt saman og styrkti ást okkar hvers til annars og þá skyldu okkar að lifa verðug arfleifðar okkar.

Fyrir nokkrum árum þegar yngsti sonur okkar, Clark, var við nám í Brigham Young háskólanum, sat hann trúarnámsbekk og kennarinn spurði hann: „Hvaða stund með föður þínum er þér minnisstæðust?"

Kennarinn skrifaði mér síðar og sagði mér svarið sem Clark gaf honum og nemendum. Hann sagði: „Þegar ég var djákni í Aronsprestdæminu fórum við faðir minn og ég á fashanaveiðar hjá Malad, Idaho. Það var á mánudegi – á síðasta fashana-veiðideginum. Við gengum um fjölda akra í leit að fashönum, en sáum aðeins fáeina og hittum þá ekki. Pabbi sagði við mig: 'Clark, við skulum afhlaða byssurnar og leggja þær niður hjá skurðinum þarna. Síðan skulum við krjúpa og biðja.' Ég hélt að

pabbi myndi biðja um fleiri fashana, en mér skjátlaðist. Hann sagði mér að öldungur Richard L. Evans væri alvarlega veikur og að klukkan 12 á hádegi þennan sérstaka mánudag ætluðu allir úr sveit hinna tólf – hvar sem þeir væru staddur á þeirri stundu – að krjúpa og sameinast í heitri bæn og trú fyrir öldungi Evans. Við tókum niður höfuðfötin og báðumst fyrir."

Ég man vel eftir þessu, en mig hafði aldrei dreymt um að sonur minn væri að fylgjast með, læra og byggja upp eigin vitnisburð.

Fyrir nokkrum árum bar ungur drengur út dagblaðið okkar en afhenti það ekki á þann hátt sem honum var ætlað. Í stað þess að koma blaðinu að dyrum okkar, henti hann því stundum af slysni inn í runna eða jafnvel rétt við götuna. Sumir sem hann bar blaðið til ákváðu að safna undirskriftum og kvarta. Dag einn var komið heim til okkar og kona mín, Frances, beðin um að skrifa undir. Hún baðst undan því og sagði: „Hvers vegna, hann er aðeins lítill drengur og blöðin eru svo þung fyrir hann. Ég myndi aldrei gagnrýna hann, því hann reynir sitt besta." Margir skrifuðu þó undir kvörtunina og hún var send til yfirmanna drengsins.

Nokkrum dögum síðar kom ég heim ur vinnu og fann Frances grátandi. Þegar hún loks mátti mæla sagði hún mér að hún hefði rétt í þessu heyrt að lík litla útburðardrengsins hefði fundist í bílskúrnum heima hjá honum, hann hafði svipt sig lífi. Greinilega hafði gagnrýnin á hann orðið honum um megn. Hve þakklátur ég er fyrir að við tókum ekki undir þá gagnrýni. Hve sterk lexía þetta hefur alltaf verið um mikilvægi þess að vera ekki dómhörð og sýna öðrum góðvild.

Frelsarinn ætti að vera fordæmi okkar. Eins og skráð er um hann, hann „þroskaðist að visku og vexti, og náð hjá Guði og mönnum."[5] Hann „gekk um og gjörði gott ... því Guð var með honum."[6]

Munið að oft virðist viska Guðs heimska í augum manna; en ein stærsta lexían sem við getum lært á jörðu er sú, að þegar Guð talar og maðurinn hlýðir, þá hefur sá maður alltaf rétt fyrir sér.

Megum við ætíð fylgja Friðarhöfðingjanum, sem bókstaflega sýndi okkur veginn sem okkur ber að fylgja, því ef við gerum það, munum við lifa af róstusama tíma. Guðleg áætlun hans getur frelsað okkur frá hættunum sem að okkur steðja frá öllum hliðum. Fordæmi hans vísar veginn. Hann mætti freistingum, en virti þær einskis. Þegar honum var boðinn heimurinn, hafnaði hann honum. Er hann var beðinn um líf sitt, gaf hann það.

Nú er tíminn. Þetta er staðurinn. Megum við fylgja honum, þess bið ég í nafni Jesú Krists, amen.

HEIMILDIR

1. 2 Nefí 28:20–22.
2. Dr. Glenn J. Doman, *How to Teach Your Baby to Read*, Philadelphia: The Better Baby Press, 1979, bls. 43, 45. (Einnig Life magazine, 11/27/64).
3. Á aðalráðstefnu, okt. 1978.
4. 1 Tím 4:12.
5. Sjá Lúk 2:52.
6. Post 10:38.

# Laugardagssíðdegi

## Dyggð vinsemdar

**Öldungur Joseph B. Wirthlin**
**í Tólfpostulasveitinni**

Fyrir mörgum árum, þegar ég var kallaður sem biskup, þráði ég að biskupsráðið vitjaði þeirra sem væru minna virkir í kirkjunni til að athuga hvort við gætum eitthvað gert til að færa blessanir fagnaðarerindisins inn í líf þeirra.

Dag einn heimsóttum við mann á sextugsaldri sem var góður og virtur vélvirki. Hann sagði mér að hann hefði síðast komið í kirkju þegar hann var ungur drengur. Eitthvað hafði gerst þann dag. Hann hafði hagað sér eitthvað illa í bekknum og var hávaðasamari en hann hefði átti að vera og kennarinn reiddist, dró hann út úr bekknum, og sagði honum að láta ekki sjá sig framar.

Hann gerði það heldur ekki.

Mér fannst merkilegt að óvinsamleg orð töluð fyrir meira en fjórum áratugum gætu haft svo afgerandi áhrif. En það höfðu þau gert. Og afleiðingin var sú, að þessi maður hafði aldrei komið aftur í kirkju. Ekki heldur kona hans eða börn.

Ég bað hann afsökunar og lét í ljós sorg mína yfir að þannig hefði verið komið fram við hann. Ég benti honum á hversu hörmulegt það væri að eitt orð talað í ógáti, og fyrir svo löngu – gæti haft þau áhrif að útiloka fjölskyldu hans frá þeim blessunum sem fylgja kirkjustarfinu.

„Eftir fjörutíu ár,“ sagði ég við hann, „er tími til kominn að kirkjan komi hlutunum í lag.“

Ég gerði mitt besta til að gjöra það. Ég fullvissaði hann um að hann væri velkominn og við þörfnuðumst hans. Það gladdi mig þegar þessi maður og fjölskylda hans að lokum komu aftur í kirkjuna og urðu sterkir og trúfastir kirkjuþegnar. Sérstaklega varð þessi góði bróðir árangursríkur heimiliskennari vegna þess að honum var vel ljóst að eitthvað jafn smátt og eitt óvinsamlegt orð getur haft afleiðingar sem ná út yfir heilt æviskeið og jafnvel lengra.

Vinsemd er kjarni mikilleika og grundvallar persónueinkenni göfugustu manna og kvenna sem ég hef kynnst. Vinsemd er vegabréf sem opnar dyr og mótar vini. Hún mildar hjörtu og kemur á samböndum sem geta orðið ævilöng.

Vingjarnleg orð lyfta ekki aðeins andanum á þeirri stundu sem þau eru sögð, heldur geta þau dvalið með okkur árum saman. Dag einn. þegar ég var í menntaskóla, hrósaði mér maður sem var sjö árum eldri en ég fyrir framgang minn í fótboltaleik. Hann bar ekki aðeins lof á hve vel ég hefði staðið mig í leiknum, heldur hafði hann tekið eftir að ég hefði einnig komið drengilega fram. Þrátt fyrir að samtal þetta hafi átt sér stað fyrir yfir 60 árum, og jafnvel þótt mjög ósennilegt sé að sá sem hrósaði mér muni nokkuð eftir þessu samtali, eru vinsamleg orð sem þann dag voru töluð til mín af Gordon B. Hinckley, sem síðar varð forseti kirkjunnar, mér minnisstæð.

Eiginleikar hugulsemi og vinsemdar eru ófrávíkjanlega tengdir Hinckley forseta. Þegar faðir minn lést 1963, kom Hinckley forseti fyrstur á heimili okkar. Ég gleymi aldrei vinsemd hans. Hann veitti móður minni blessun og, ásamt með meiru, gaf henni loforð um að hún ætti góða framtíð og ævi sem yrði henni ljúf. Þessi orð veittu móður minni huggun og hvatningu og voru opinberun fyrir mig.

Vinsemd er kjarninn í himnesku lífi. Vinsemd er það hvernig kristilegt fólk kemur fram hvert við annað. Vinsemd ætti að einkenna öll okkar orð og athafnir í vinnunni, í kirkjunni og alveg sérstaklega á heimili okkar.

Jesús, frelsari okkar, var dæmi um fullkomna vinsemd og samúð. Hann læknaði sjúka. Hann eyddi miklum tíma lífs síns í að þjóna hverjum einum eða mörgum. Hann talaði af samúð til samversku konunnar sem margir litu niður á. Hann bauð að lærisveinarnir leyfðu litlum börnum að koma til sín. Hann var vinsamlegur við alla sem höfðu syndgað, fordæmdi aðeins syndina, ekki syndarann. Með vinsemd leyfði hann þúsundum Nefíta að ganga fram og þreifa á naglaförunum á höndum sínum og fótum. Samt er stærsta góðverk hans að finna í friðþægingarfórn hans, er hann þannig frelsaði alla undan áhrifum dauðans, og alla undan áhrifum syndar, með því skilyrði að þeir iðrist.

Spámaðurinn Joseph Smith var öllum, ungum sem öldnum, gott fordæmi um vinsemd. Eitt barn sem naut góðs af vinsemd spámannsins átti þessar minningar:

„Eldri bróðir minn og ég vorum á leið í skólann, nálægt byggingu þeirri sem var þekkt sem múrsteinsbúð Josephs. Rignt hafði daginn áður, svo jörðin var afar leðjukennd, einkum við þessa götu. Bróðir minn Wallace og ég komumst ekkert áfram í leðjunni, og auðvitað, eins og gerist um börn, tókum við að orga, því við héldum að við yrðum fastir þarna. En er ég leit upp, sá ég kærleiksríkan vin barnanna, spámanninn Joseph Smith, koma til okkar. Hann kom okkur skjótlega upp á þurrari stað. Síðan beygði hann sig niður og hreinsaði leðjuna af okkar litlu, þunghlöðnu skóm, dró klút úr vasa sínum, og þerraði tárvot andlit okkar. Hann talað vinsamleg og glaðleg orð til okkar og sendi okkur glaðbeitta áfram í skólann.“[1]

Ekkert getur komið í stað vinsemdar á heimilinu. Þá lexíu lærði ég af föður mínum. Hann hlustaði alltaf á ráð móður minnar. Árangurinn var sá, að hann var betri, vitrari og vinsamlegri maður fyrir vikið.

Ég hef reynt að fylgja fordæmi föður míns og hlusta á sjónarmið eiginkonu minnar. Ég met skoðanir hennar mikils. Þegar kona mín byrjar til dæmis setningu með orðunum: „Mér finnst að þú ættir ...,“ þá gef ég því strax gaum og tek að brjóta heilann um hvort ég hafi gert eitthvað rangt. Oft – stundum áður en kona mín hefur lokið setningunni, hef ég þegar mótað í huga mér glæsilega afsökunarbeiðni.

Sannleikurinn er sá, að kona mín er fyrirmynd að vinsemd, ljúfmennsku og samúð. Og innsæi hennar, ráðgjöf, og stuðningur hafa verið ómetanleg fyrir mig. Vegna hennar er ég líka, betri, vitrari, og vinsamlegri maður.

Það sem við segjum, tónninn í rödd okkar, reiðin eða rósemin í orðum okkar, því taka börn okkar og aðrir eftir. Þau sjá og læra af okkur bæði vinsamlega og ekki síður óvinsamlega hluti sem við segjum eða gerum. Ekkert sýnir hið sanna eðli okkar betur en það hvernig við komum fram við hvert annað á heimilinu.

Ég velti oft fyrir mér hvers vegna sumum finnst þeir verði að vera gagnrýnir á aðra. Það verður þeim eiginlegt, býst ég við, og það verður þeim svo eðlislægt, að þeir gera það jafnvel oft í hugsunarleysi. Þeir gagnrýna allt og alla – hvernig systir Jóna stjórnar söngnum, hvernig bróðir Smári kennir lexíuna eða hirðir garðinn sinn.

Jafnvel þegar við höldum að við gerum engum mein með gagnrýnum athugasemdum, koma oft afleiðingarnar í ljós. Ég minnist drengsins sem rétti biskupi sínum gjafaumslag og sagði honum að það væri handa honum. Biskupinn sá hér kennslutækifæri, og útskýrði fyrir piltinum að hann ætti að merkja á gjafaseðilinn hvort um væri að ræða tíund, föstufórn, eða eitthvað annað. Drengurinn stóð fastara en á fótunum á því að þetta væri handa biskupnum sjálfum. Þegar biskupinn spurði hvers vegna svaraði drengurinn: „Af því að faðir minn segir að þú sért einn sá aumasti biskup sem við höfum nokkru sinni haft.“

Kirkjan er ekki staður þar sem fullkomið fólk kemur saman til að segja fullkomna hluti, hugsa fullkomnar hugsanir, og finna fullkomnar tilfinningar. Kirkjan er staður þar sem ófullkomið fólk kemur saman til að veita hvert öðru hvatningu, stuðning, og þjónustu er við höldum áfram heim á leið til okkar himneska föður.

Sérhvert okkar mun ferðast sína sérstöku leið í þessu lífi. Hver fer á sínum hraða. Freistingar sem hrjáð hafa bróður kunna að reynast þér afar auðveldar. Styrkur sem þú býrð að kann að virðast öðrum ómögulegur.

Lítið aldrei niður á þá sem virðast minna fullkomnir en þið. Ekki komast í uppnám af því að einhver saumar ekki eins vel og þú, er ekki eins góður kastari og þú, getur ekki róið eða unnið eins hratt og þú eða er ekki eins glæsilegur og þú ert.

Við erum öll börn okkar himneska föður. Og við erum hér í sama tilgangi: Að læra að elska hann af öllu okkar hjarta, sál, huga og styrk, og elska náunga okkar eins og sjálfa okkur.[2]

Ein leiðin til að meta gildi þitt í ríki Guðs er að spyrja sjálfan þig: „Hversu vel gengur mér að hjálpa öðrum að vinna úr hæfileikum sínum? Styð ég aðra í kirkjunni, eða gagnrýni ég þá?“

Ef þú gagnrýnir aðra, ertu að gagnrýna kirkjuna. Ef þú byggir aðra upp, ert þú að byggja upp ríki Guðs. Himneskur faðir er ljúfur og því ættum við að vera ljúf við aðra.

Öldungur James E. Talmage, maður sem minnst er vegna kennslu hans varðandi kenningarnar, sýndi nágrannafjölskyldu mikla vinsemd, þótt hún væri algjörlega ókunn honum. Áður en hann varð postuli og sem ungur faðir, varð hann var við miklar þjáningar á heimili nágranna sinna þar sem stór fjölskylda veiktist af hræðilegum og mjög smitandi sjúkdómi. Hann lét sig engu skipta að þau voru ekki meðlimir kirkjunnar, það var vinsemd hans og kærleikur sem hvatti hann til dáða. Líknarfélagið var í örvæntingarfullri leit að reyna að fá fólk til hjálpar, en enginn fékkst til þess vegna smithættu. Þegar James kom fann hann eitt barn þegar dáið, og tvö önnur ung börn þegar sárþjáð af sjúkdómnum, og ungbarn fjölskyldunnar komið með sjúkdómseinkenni. Hann hófst þegar handa, við að hreinsa óhreint húsið, búa unga líkamann undir greftrun, hreinsa og annast um hin sjúku börnin, og eyddi í það öllum deginum. Hann kom aftur morguninn eftir og komst að því að annað barn í viðbót hafði dáið um nóttina. Hann ritaði í dagbók sína: „Litla stúlkan þjáðist enn hræðilega. Hún hélt fast um hálsinn á mér, og hóstaði oft [bakteríum] í andlit mitt og föt ... samt gat ég ekki lagt hana frá mér. Síðasta hálftímann – rétt fyrir dauða hennar, gekk ég um gólf með litla skinnið í fanginu. Hún dó kvalin kl. 10:10 um kvöldið. Þannig að börnin þrjú höfðu öll dáið á innan við sólarhring.“ Síðan hjálpaði hann fjölskyldunni við undirbúning jarðarfararinnar og talaði í kirkjugarðinum við útförina.[3] Allt þetta gerði hann fyrir ókunnuga fjölskyldu. Hvílíkt dæmi um kristilega vináttu!

Þegar vináttan ræður ríkjum erum við ekki dómhörð. Frelsarinn kenndi: „Dæmið ekki, og þér munuð eigi dæmdir verða. Sakfellið eigi, og þér munuð eigi sakfelldir verða. Sýknið, og þér munuð sýknaðir verða.“[4] Hann kenndi einnig að „með þeim dómi, sem þér dæmið, munuð þér dæmdir, og með þeim mæli, sem þér mælið, mun yður mælt verða.“[5]

„En,“ spyrjið þið, „hvað ef fólk er dónalegt?“

Elskið það.

„Og ef það er andstyggilegt?“

Elskið það.

„En ef það er móðgandi? Vissulega hlýt ég þá að gera eitthvað.“

Elskið það.

„Öfugsnúið?“

Svarið er það sama.

Verið vinsamleg.

Elskið það.

Hvers vegna? Júdas kennir í ritningunum: „Verið mildir við suma, þá sem eru efablandnir.“[6] Hver getur sagt hversu langvarandi áhrif við getum haft ef við aðeins erum vinsamleg?

Bræður mínir og systur, fagnaðarerindi Jesú Krists nær út yfir hið dauðlega líf. Verk okkar hér eru aðeins sem skuggi þeirra meiri og óhugsanlegu hluta sem koma munu.

Himnarnir lukust upp fyrir Joseph Smith. Hann sá lifandi Guð og son hans, Jesú Krist.

Á okkar dögum fer spámaður, Gordon B. Hinckley forseti, um jörðu og veitir leiðbeiningar fyrir okkar tíma.

Eins og himneskur faðir okkar elskar okkur, svo ættum við einnig að elska börn hans.

Megum við vera fyrirmynd að vináttu og samúð. Og megum við ætíð lifa verðug þessarar lýsingar frelsarans: „Á því munu allir þekkja, að þér eruð mínir lærisveinar, ef þér berið elsku hver til annars.“[7] Um þennan sannleik ber ég vitni í heilögu nafni Jesú Krists, amen.

HEIMILDIR:

1. Margarette McIntire Burgess, vitnað í *Best Loved Stories of the LDS People,* ritstýrt af Jack M. Lyon, Linda Rurie Gundry, og Jay A. Parry, Deseret Book, 1997, bls. 403.
2. Mark 12:30, 31.
3. *Talmage-Educator, Scientist, Apostle,* Bookcraft: 1972, bls. 112–114.
4. Lúk 6:37
5. Matt 7:1-2
6. Júd 1:22.
7. Jóh 13:35

## Krafturinn í trúboðsleiðarvísinum: *„Boða fagnaðarerindi mitt“*

**Öldungur Richard G. Scott**
**í Tólfpostulasveitinni**

Ég er mjög þakklátur fyrir að geta rætt við ykkur um spennandi þróun sem mun auðvelda okkur að deila með ástvinum og öðrum vinum hinum dýrðlega boðskap um endurreisn kirkju Jesú Krists. Hún hefur tendrað hug og hjarta trúboðanna okkar því hún fær þeim í hendur tæki til að kenna boðskap sinn með krafti og til að bera vitni um Drottin, Jesú Krist og spámann hans, Joseph Smith án þeirra fjötra sem felast í forskrifuðum texta. Þótt þetta efni sé þróað aðallega til nota fyrir fastatrúboða hafa aðrir uppgötvað að það hefur reynst mjög gagnlegt fyrir foreldra sem vilja hjálpa börnum að búa sig undir trúboð. Piltar og stúlkur og einnig nokkur hjón nota það til þess að fá ákveðið forskot áður en þau fara í trúboðsskólana. Sumir prestdæmisleiðtogar hafa staðfest gildi þess við að búa bræður í Aronsprestdæminu undir trúboð. Þetta verkfæri er ómetanlegt við að hjálpa prestdæminu og aðildarfélögunum að styrkja nýja kirkjuþegna hvað varðar vitnisburði og hlýðni. Ég tala um þennan nýja leiðarvísi, *Boða fagnaðarerindi mitt*, og meðfylgjandi skipulagsverkfæri svo sem Daglegt skipulagsrit trúboðans.

Má ég deila með ykkur hvers vegna ég er svo áhugasamur um ritið Boða fagnaðarerindi mitt? Það hefur hnitmiðað trúboðsverk okkar betur en nokkru sinni. Árum saman hef ég spurt hópa af trúboðum „hver er tilgangurinn með trúboði ykkar?“ Einstök svör þeirra voru mjög mismunandi. Fæstir þeirra höfðu nokkurn fastan eða ákveðinn tilgang við að koma skipulagi á verk sitt. Á fyrsti blaðsíðu þessa leiðarvísis er kraftmikil ábending til trúboðanna um sannan tilgang þeirra: „Bjóða öðrum að koma til Krists með því að hjálpa þeim að meðtaka hið endurreista fagnaðarerindi með trú á Jesú Krist og friðþægingu hans, iðrun, skírn, gjöf heilags anda og standa stöðug allt til enda.“ Efni ritsins bendir síðan á hvernig það skuli gert undir leiðsögn andans.

Eldra trúboðsefni var áhrifaríkt á sínum tíma en heimurinn hefur breyst verulega. Gildin sem mynda grundvöll samfélagsins verða stöðugt fyrir árásum Satans og samherja hans. Brýnt hefur verið að finna betri leið til að deila fyllingu sannleikans sem Guð hefur fært heiminum á ný. Í því felst skilningur á sæluáætlun Guðs og hvernig hún hefur verið færð til jarðar á ný með hinum einstæða spámanni hans, Joseph Smith. Einnig að kirkja Jesú Krists með prestdæmisvaldi til að starfa í hans nafni er enn á ný á jörðu í fyllingu sinni. Hinckley forseta mæltist vel: „Nú um margra ára skeið höfum við haft staðlað sett trúboðslexía. Mikið gagn hefur verið af þeim ... En því miður hefur þessi aðferð í allt of mörgum tilvikum leitt til utanbókarlærðrar framsetningar, þar sem á skorti andann og persónulega sannfæringu ... [Trúboðar] þurfa að ná tökum á kjarna lexíanna. En þeir þurfa að ... kenna kjarnann með eigin orðum undir leiðandi áhrifum heilags anda,“ Sú regla er uppistaðan í *Boða fagnaðarerindi mitt*. Trúboðar um allan heim fá nú í huga sinn og hjarta boðskapinn um endurreisn fagnaðarerindis Jesú Krists, sáluhjálparáætlunina, nauðsynleg boðorð, og lögmál og helgiathafnir fagnaðarerindisins. Þær lexíur eru síðan kenndar með þeirra eigin orðum eins og andinn leiðbeinir. Þessi aðferð hefur stórkostlega bætt árangur þeirra sem trúboða.

*Boða fagnaðarerindi mitt* hefur að geyma kafla sem veita framúrskarandi góðar upplýsingar um hvernig á að þekkja og skilja leiðsögn heilags anda. Þar eru ritningargreinar um árangursríkt nám og hvernig á að bæta eigin kennsluhæfni. Einn kafli útskýrir hvers vegna Mormónsbók er hyrningarsteinn trúar okkar; hvernig hún

getur svarað dýpstu spurningum sálarinnar; hvernig hún getur byggt upp trú og hjálpað öðrum að komast nær Guði. Frekari leiðbeiningar sýna að Mormónsbók er áþreifanleg uppspretta sem nota má til að staðfesta sannleiksgildi boðskapar okkar. Trúboðanum er kennt hvernig leita skal kristilegra eiginleika svo sem vonar og kærleika. Framúrskarandi ábendingar er að finna varðandi nám á tungumáli trúboðsins. Skýr, árangursrík skipulagsverkfæri fylgja til að hjálpa trúboðanum að nýta tíma sinn viturlega. Greint er frá aðferðum sem vel hafa reynst við að finna fólk og búa það undir kennslu. Hagnýtar leiðbeiningar eru veittar til að hjálpa trúarnemum að gera og halda skuldbindingar sem leiða til skírnar, staðfestingar, og stöðugrar virkni. Þessi leiðarvísir greinir frá leiðum til að samræma starf fastatrúboðanna, stiku- og deildarleiðtoga, og meðlimanna. Með þeirri hjálp geta nýir meðlimir gengið öruggari inn í kirkjufjölskylduna. Meiri trygging er fyrir því að þeir sem með skírn og staðfestingu taka á sig nafn Jesú Krists og skuldbinda sig til að halda boðorð hans hljóti lofaðar blessanir hans í lífi sínu.

Með notkun innblásins efnis í Boða fagnaðarerindi mitt hafa margir trúboðar bætt stórlega hæfni sína við að kenna af sannfæringu og við að bjóða heim staðfestandi vitni heilags anda. Nýlega bað ég tvo aðstoðarmenn trúboðsforseta að segja frá sýn Josephs Smith á meðan ég léki trúarnemann. Ég ætlaði að láta reyna mjög á þá til að sjá hvernig þeir brygðust við. En einlægnin í boðskap þeirra, hversu hreint þeir gengu til verks, hversu vel það var fram sett, jafnvel þótt um æfingu væri að ræða, var svo sannfærandi að ég gat ekki gert það. Þið getið kynnst þessum framförum sjálf. Bjóðið trúboðum að flytja fyrstu lexíuna fyrir fjölskyldu ykkar á heimili ykkar. Betra þó, bjóðið nágrönnum að koma heim til ykkar og fá kennslu hjá trúboðunum. Með leiðbeiningu andans og með eigin orðum munu þeir útskýra hvernig faðirinn á himnum hefur notað spámenn á liðnum öldum til að kynna börnum sínum sæluáætlun sína. Kynnist vitnisburði þeirra þegar þeir bera vitni um himnesku sýnina, þegar Guð faðirinn og sonur hans Jesús Kristur birtust Joseph Smith. Þeir munu einnig skilmerkilega greina frá áframhaldandi atburðum sem endurreistu fyllingu fagnaðarerindisins með valdsumboði til að starfa á ný í nafni Guðs á jörðu. Þið getið einnig farið með trúboðum þegar þeir kenna öðrum þennan innblásna sannleika. Nærvera ykkar mun verulega styrkja þá sem heyra þennan dýrmæta sannleika í fyrsta sinn.

Einbeitt starf af hendi Æðsta forsætisráðsins, Tólfpostulasveitarinnar, annarra aðalvaldhafa og framúrskarandi hæfra hópa hollra, reynsluríkra starfsmanna gerði *Boða fagnaðarerindið* og skipulagsverkfærin sem því fylgir að veruleika. Þeir sem tóku þátt í þróun þess eru vitni um innblásna leiðsögn Drottins við tilurð, mótun, og lokafrágang efnis í *Boða fagnaðarerindi mitt.*

Eftir ítarlega prófun 14 trúboðsstöva var ritið *Boða fagnaðarerindi* mitt aðlagað. Sú niðurstaða var endurskoðuð, og breytingar gerðar og ritið síðan samþykkt af Æðsta forsætisráðinu og Tólfpostulasveitinni. Í alheims gervihnattaútsendingu hinn 15. október 2004 var trúboðsforsetum og trúboðsleiðtogum kynnt *Boða fagnaðarerindi mitt.* Allir trúboðar um allan heim fengu eintak á enskri tungu. Þótt margir þeirra tali ekki ensku, fundu þeir að þeir eru hluti af endurnýjunarferli í trúboðsstarfi okkar. Áhugavert er að sumir trúboðar sem tala erlend tungumál fengu áhuga á að læra ensku. Snemma á þessu ári var dreift japanskri, kóreskri, spænskri og portúgalskri útgáfu af *Boða fagnaðarerindi mitt.* Við gerum ráð fyrir að leiðarvísir þessi verði nú í árslok fáanlegur á flestum tungumálum sem töluð eru af trúboðunum.

Það eru ekki trúboðarnir einir sem hafa hag af *Boða fagnaðarerindi mitt*:

- Eiginkona eins trúboðsforseta lærði og ígrundaði hvert orð í *Boða fagnaðarerindi mitt*, þar með talið allar tilvísanir í ritningarnar. Síðan gerði

hún nokkuð sem hana hafði skort hugrekki til að gera, hún bauð nánum ættingja að lesa og ígrunda Mormónsbók. Hann tók boði hennar og hefur notið mikils gagns þar af.

- Önnur fjölskylda notar *Boða fagnaðarerindi* mitt til hjálpar við að búa börn sín undir trúboð. Hún sagði: „Okkar 17 ára sonur fékk fyrstur verkefni. Sem vænta mátti leitaði hann að stysta kafla bókarinnar. Lexía hans varð samt sem áður 20 mínútna hjartnæm framsetning á reglunum, fullunnin með ritningargreinum og vitnisburði."
- Frá föður sem býr son undir trúboðsþjónustu: „*Boða fagnaðarerindi mitt* hefur ... veitt mér yfirsýn og gleggri skilning á tilgangi lífsins, skyldum mínum og ábyrgð sem þegn kirkjunnar, sem faðir og eiginmaður. ... Hún hefur einnig fært mér einstök verkfæri til að feta betur þá braut." Sonur hans hefur verið kallaður sem trúboði.

Við hvetjum ykkur til að nota þetta efni í forsætisráði ykkar, á prestdæmisframkvæmdafundum, og í deildarráðum til þess að tryggja að þeir sem taka á sig skírnarsáttmálann njóti í öllu lífi sínu til fulls ávaxtanna af kirkjuaðild. Með notkun nýrrar framfaraskýrslu fyrir þá sem búa sig undir skírn er hægt að samræma starf trúboða og kirkjuþegna með kraftmiklum hætti. Ég er sannfærður um að nýjum trúskiptingum mun reynast auðveldara að uppfylla þá þrá sína að haldast virkir þegar meðlimirnir og trúboðarnir vinna saman og nota reglurnar í *Boða fagnaðarerindi mitt.*

Boðskapur Æðsta forsætisráðsins í *Boða fagnaðarerindi mitt* veitir trúboðunum öfluga hvatningu, og ef til vill verður hann ykkur hvatning í ykkar eigin trúboðsverki. Þar segir: Ekkert annað verkefni er jafn krefjandi. ... *Boða fagnaðarerindi mitt* er ætlað að auðvelda þér allan undirbúning, stuðla að auknu andríki þínu sem trúboði og aukinni kennsluhæfni. ... Við hvetjum þig til að einsetja þér af öllu hjarta að aðstoða föður okkar á himnum við hans dýrðlega verk. ... Drottinn mun launa þér og blessa þig ríkulega þegar þú þjónar honum af auðmýkt í bænarhug."

Sjáið þið um hvað málið snýst? Þið munuð verða eins áköf og ég þegar þið byrjið að skilja og nota þetta trúboðsverkfæri. Ólíkt fyrri gögnum fastatrúboða, er *Boða fagnaðarerindi mitt* fáanlegt fyrir alla leiðtoga og kirkjuþegna á dreifingarstöðvum kirkjunnar.

Líklega verður mesta gagnið af *Boða fagnaðarerindi mitt* sjáanlegt í lífi heimkominna trúboða sem verða öflugri foreldrar, hæfari kirkjuleiðtogar og betri fagmenn á vinnustað vegna þess þroska sem fæst með skilningi og hagnýtingu á innblásnu efni bókarinnar.

Fyrir hönd trúboðanna okkar færum við öllum þeim dýpstu þakkir sem tekið hafa þátt í undirbúningi, prentun og dreifingu ritsins *Boða fagnaðarerindi mitt.* Við erum þakklátir fyrir hvern trúboðsforseta og trúboða sem eru að ná tökum á árangursríkri notkun bókarinnar. En fyrst og síðast erum við þakklátir Drottni fyrir innblástur hans. Ég hvet ykkur til að kynna ykkur hvernig þetta framúrskarandi tæki getur hjálpað ykkur í trúboðsverki ykkar, hvort heldur sem foreldrar við að búa barn sitt undir trúboð, kirkjuleiðtogi að hjálpa nýjum trúskiptingi, kirkjuþegn að deila fagnaðarerindinu, eða einstaklingur að búa sig undir þjónustu. Megið þið njóta innblásturs og blessunar í því verki. Í nafni Jesú Krists, amen.

# Verðmæti sálna

**Öldungur Harold G. Hillam**
**einn hinna sjötíu**

Ein af þeim ræðum sem hafa haft varanleg áhrif á mig var flutt fyrir mörgum árum á laugardagshluta stikuráðstefnu. Ræðuna flutti ung móðir. Þetta voru orð hennar:

„Ég hef leitað ættfræðiheimilda um langafa minn. Hann og allir í hinni fjölmennu fjölskylda hans, dætra og sona, voru þegnar kirkjunnar. Langafi minn," sagði hún, „yfirgaf kirkjuna einn sunnudaginn, ásamt fjölskyldu sinni og kom aldrei aftur; án sýnilegrar ástæðu." Hún sagði svo: „Í rannsókn minni komst ég að því að niðjar langafa míns voru yfir 1000 að tölu."

Og svo sagði hún, og þetta er það sem aldrei hefur horfið úr huga mínum: „Af þessum 1000 afkomendum, er ég sú eina sem nú er virk í kirkjunni."

Þegar hún sagði þetta, hugsaði ég með mér: „Eru þeir aðeins 1000 eða gætu þeir verið fleiri?"

Svarið liggur í augum uppi. Þau andlegu áhrif sem fjölskylda getur haft á samferðafólk sitt og vini skiluðu sér ekki. Enginn sona hans eða dætra þjónaði í trúboði og þeir sem þeir kynnu að hafa haft áhrif á með vitnisburði sínum voru ekki skírðir og þeir sem ekki voru skírðir fóru ekki í trúboð. Já, sennilega eru það mörg þúsund sem ekki eru í kirkjunni einmitt núna, og ekki á þessari samkomu nú í dag, vegna þessarar ákvörðunar langafans.

Þegar ég hlustaði á hana hugsaði ég með mér: „Hvílíkur harmleikur! Ef ég hefði verið þarna á þessum tíma, hefði ég getað sagt eitthvað við langafann eða fjölskyldu hans, við prestdæmisleiðtogana, sem hefði getað afstýrt þessum fjölskylduharmleik og sem svo margir er síðar fæddust hlutu skaða af.

Þetta er glatað tækifæri fortíðar. En nú getum við tekist á við nútíðina og horft til framtíðar. Ég myndi segja við þá sem hyggðust gera það sama og langafinn: Viltu ekki hugleiða hvaða skaða þú gerir fjölskyldu þinni og öllum afkomendum þínum? Viltu ekki hugleiða áhrif verka þinna og hugsana?

Ef við erum í vafa um einhverja kenningu kirkjunnar, ættum við að fara að þeirri leiðsögn sem Gordon B. Hinckley forseti veitti á fjölmennri samkomu á síðast liðnu ári í París, Frakklandi, þar sem yfir 2000 kirkjuþegnar voru saman komnir. Hann sagði: „Ég sárbið ykkur, bræður mínir og systur, að þið látið reyna á þá kenningu kirkjunnar sem þið hugsanlega gætuð verið í vafa um. Látið reyna á hana. Lifið samkvæmt reglunni. Krjúpið og biðjist fyrir um hana og Guð mun blessa ykkur með vitneskju um sannleika verks hans."

Ef ykkur finnst að brotið hafi verið á ykkur, skuluð þið vera fús til að fyrirgefa. Ef óþægilegar minningar af einhverjum toga ásækja ykkur, skuluð þið láta þær lönd og leið. Ef nauðsynlegt er, skuluð þið ræða við biskup ykkar eða stikuforseta.

Við ykkur öll vil ég segja, einkum þó við þá sem eiga eftir að verða langafar og langömmur, eilífar blessanir ykkar og afkomenda ykkar eru mun mikilvægari en einhver ástæða fyrir drambi sem rænt getur ykkur og svo mörgum öðrum svo mikilvægum blessunum. Benjamín konungur áminnir okkur í Mormónsbók: „Og enn fremur langar mig til, að þér hugleiðið blessun og hamingju þeirra, sem halda boðorð Guðs. Því að sjá. Þeir njóta blessunar í öllu, jafnt stundlegu sem andlegu. Og ef þeir haldast staðfastir allt til enda, er tekið á móti þeim á himni, og þeir fá dvalið með Guði í óendanlegri sælu." (Mósía 2:41.)

Við ykkur, sem eruð börn á heimili þess langafa sem ekki breytir rétt, vil ég hvetja til að halda áfram að vera staðföst. Þið getið sýnt gott fordæmi á heimili ykkar og þeim sem umhverfis ykkur eru. Þið getið gert ykkar hlut til að friður og sátt ríki á heimilinu og meðal samferðamanna. Þið getið leyst vandamálin í stað þess að stuðla að þeim. Hafið í huga í Mormónsbók, að þegar Lehí, faðirinn, tók að mögla, var það hinn réttláti sonur hans, Nefí, sem hughreysti og fann lausn á vandanum. Æði oft eru það hin réttlátu börn sem ná að sigla milli skerja á ólgandi hafsins öldum.

Við ykkur sem eruð biskupar og stikuforsetar vil ég segja að ég óska að þið hefðuð verið á fundi nokkrum með mér, þar sem viðstaddir voru nokkrir svæðisfulltrúar. Við hlýddum á öldung L. Tom Perry ræða um hitastig verðandi öldunga og þeirra sem eru óvirkir í kirkjunni – langafa framtíðar. Við vorum áminntir um að margir þeirra væru meira en aðeins volgir. Þeir kæmu til baka, ef einhver myndi aðeins hvetja þá og vísa þeim leið.

Ég ætla að greina ykkur frá stikuráðstefnu sem mér var falið að sækja. Stikuna átti að endurskipuleggja; leysa átti af stikuforsetann og ráðgjafa hans og kalla nýtt stikuforsætisráð. Stikuforsetinn var ungur og hafði skilað dásamlegri þjónustu í næstum tíu ár. Hann var andlegur risi og afar fær í stjórnsýslu. Hann greindi mér frá í einkaviðtali hvernig hann hefði falið ráðgjöfum sínum stóran hluta af ábyrgð stikunnar, svo og háráðinu, til að hann fengi svigrúm til viðtala við þá sem ekki höfðu prestdæmið og þá sem þurftu á hvatningu að halda. Einstaklingum og hjónum var boðið að koma á skrifstofu hans. Þar kynntist hann þeim, leiðbeindi þeim og bauð þeim að gera enn betur, að koma reglu á líf sitt, og öðlast þær blessanir sem standa þeim til boða sem fylgja Drottni. Hann hjálpaði þeim með því að fela þau í umsjá góðra leiðtoga, kennara sem gerði þeim grein fyrir fegurð kenningarinnar. Hann sagði mér svo að í viðtölum þessum hefði hann oft boðið þeim blessun. „Ég hef lagt hendur yfir höfuð margra í stikunni," sagði hann.

Daginn eftir, á aðalhluta stikuráðstefnunnar, efaðist ég um að hafa áður séð svo marga fella tár. Ástæðan var ekki sú að þeim fyndist ekki tímabært að leysa forseta sinn af, heldur vegna mikillar elsku þeirra til hins unga stikuforseta, sem blessað hafði líf þeirra. Ég fann mig knúinn til að spyrja: „Hversu mörg ykkar hafa fundið hendur forseta ykkar á höfði ykkar?" Ég var undrandi yfir þeim mikla fjölda sem rétti upp hönd. Ég hugsaði þá með sjálfum mér: „Hversu margt af þessu fólki mun lofa nafn þessa mikla manns, ekki aðeins nú heldur um alla eilífð? Já, slíkir verða miklir langafar, sem munu, vegna síns ástkæra leiðtoga, skilja eftir sig arfleifð þúsunda kynslóða, sem lofa munu nafn hans."

Þegar okkur verða ljós þau áhrif sem ein manneskja getur haft á líf margra, skiljum við kannski betur þessi viðvörunarorð Drottins: „Hafið hugfast að verðmæti sálna er mikið í augum Guðs." (K&S 18:1.)

Ég bið þess að við megum öll hugleiða hvað við getum gert sem einstaklingar til hjálpar þeim sem verða langalangafar og ömmur framtíðar, hvort sem það er lítið barn, unglingur eða fullorðinn, svo að hvert og eitt þeirra skilji eftir sig réttláta arfleifð til handa þeim sem þekkja og elska Drottin.

Þess bið ég í nafni Jesú Krists, amen.

# Tíund – boðorð, jafnvel fyrir hina blásnauðu

**Öldungur Lynn G. Robbins**
**einn hinna sjötíu**

Í hinni sígildu *Jólasögu* Charles Dickens, vonar Bob Cratchit að hann geti verið með fjölskyldu sinni á jólum. Hann sagði við vinnuveitanda sinn Skrögg: „Ef það kemur sér ekki illa fyrir þig." „Það er hvorki gott," sagði Skröggur, „né sanngjarnt. Ef ég héldi eftir nokkru af launum þínum, teldir þú illa með þig farið," ... sagði Skröggur „en samt finnst þér ekki illa með mig farið greiði ég þér dagslaun fyrir ekkert." Skrifarinn tautaði þá að þetta væri nú bara einu sinni á ári. „Aum afsökun fyrir að reyna að hafa af manni pening á hverjum degi tuttugusta og fimmta desember!" sagði Skrögur.[1] Skröggi fannst, líkt og sérhverjum sjálfselskum manni eða „náttúrlegum manni" fórnin aldrei *þægileg.*

Hinn náttúrlegi maður hneigist til að hugsa aðeins um sig sjálfan – ekki aðeins til þess að hann sjálfur sé í fyrsta sæti, heldur setur hann sjaldan eða aldrei einhvern í annað sæti, þar á meðal Guð. Fórnin er ekki eðlilegur þáttur lífsins hvað hinn náttúrlega mann varðar. Hann er haldinn óseðjandi ástríðu í að hljóta meira. Hinar svonefndu þarfir hans virðast alltaf kall á meiri tekjuöflun, svo að „nægjusemi" verður ávallt utan seilingar, líkt og átti við um Skrögg.

Hinn náttúrlegi maður virðist hafa tilhneigingu til að eigna sér allt og alla, og því bauð Drottinn hinum forna Ísrael að fórna frumburðinum, en ekki hinum rýrasta og meira veikburða – ekki hinu laka á akrinum, heldur frumgróðanum (sjá Mósía 2:3; HDP Móse 5:5; 5 Mós 26:2). Ósvikin fórn hefur frá upphafi verið aðalsmerki hinna trúföstu.

Þeir sem *ekki* vilja fórna skiptast í tvö öfgahópa. Þá ágjörnu og ríku sem ekki vilja fórna og þá blásnauðu sem halda að þeir geti ekki fórnað. En hvernig getum við beðið einhvern sem sveltur að eta minna? *Getur* fátækt verið *svo* algjör að fórnar ekki sé hægt að vænta eða getur fjölskylda verið svo blásnauð að ekki sé hægt að vænta tíundar af henni?

Drottinn notar oft öfgakenndar aðstæður til að kenna og útskýra reglur. Sagan um ekkjuna í Sarefta er dæmi um gríðarmikla fátækt og gegnir því hlutverki að varpa ljósi á þá kenningu að miskunn getur ekki komið í stað fórnar, fremur en í stað réttvísi. Hinn sanni mælikvarði fórnar er í raun ekki hvað menn gefa til að fórna, heldur hverju menn fórna til að gefa (sjá Mark 12:43). Sé gnægð matar á borðum, þá verður prófraun trúar ekki jafn ótvíræð og þegar ekkert er til. Á slíkum ögurstundum styrkir skorturinn ekki persónuleikann – heldur afhjúpar hann. Skorturinn er prófraunin.

Ekkjan í Sarefta var uppi á tíma spámannsins Elía, en fyrir orð hans lét Drottinn koma þurrkatíð yfir landið í þrjú og hálft ár (sjá Lúk 4:25). Hallærið varð svo mikið að margar fjölskyldur voru við dauðans dyr. Við þessar aðstæður bjó ekkjan.

Drottinn sagði við Elía: „Tak þig upp og far til Sarefta. ... Sjá, ég hefi boðið ekkju nokkurri þar að fæða þig." Athyglisvert er að Elía er ekki boðið að fara til Sarefta fyrr en ekkjan og sonur hennar eru við dauðans dyr. Við slíkar öfgakenndar aðstæður – er hún stendur frammi fyrir hungurdauða, er trú hennar reynd.

Þegar hann kemur í borgina, sér hann hana safna saman viðarkvistum.

*10. „... Hann kallaði til hennar og mælti: Sæk þú mér dálítið af vatni í ílátinu, að ég megi drekka.*

*11. Og hún fór að sækja það, en hann kallaði á eftir henni og mælti: Færðu mér líka brauðbita.*

*12. Hún svaraði: Svo sannarlega sem Drottinn, Guð þinn, lifir, á ég enga köku til, heldur aðeins hnefa mjöls í skjólu og lítið eitt af viðsmjöri í krús. Og sjá, ég er að tína saman fáeina viðarkvisti. Síðan ætla ég heim og matbúa þetta handa mér og syni mínum, að við megum eta það og deyja síðan"* (1 Kon 17:10–12).

*Hnefafylli matar* er afar smár skammtur, varla einn skammtur, sem gerir svar Elía athyglisvert: *„En Elía sagði við hana: Óttast ekki! Far þú heim og gjör sem þú sagðir.* ***Gjör þú mér samt fyrst litla köku ...*** *"* (1 Kon 17:13).

Hljómar þetta ekki sjálfselskt, að biðja ekki aðeins um fyrsta skammtinn, heldur hugsanleg þann eina? Hlutuð þið ekki þá kennslu hjá foreldrum ykkar að bjóða öðrum fyrst, og einkum að heiðursmenn bjóði dömunni fyrst, hvað þá einmana hungraðri ekkju? Valkostir hennar voru þessir – átti hún að seðja hungur sitt eða fórna síðustu máltíð sinni og flýta þannig dauða sínum? Hún gæti hugsanlega fórnað eigin máltíð, en gæti hún fórnað máltíð hungraðs sonar síns?

Elía skildi þá kenningu að blessanir kæmu eftir prófraun trúar (sjá Eter 12:6; K&S 132:5). Hann var því ekki sjálfselskur. Elía var þarna sem þjónn Drottins og var því að gefa en ekki þiggja. Áfram lesum við:

*" ... Gjör þú mér samt* ***fyrst*** *litla köku* [frumburður] *af því og fær mér út hingað, en matreið síðan handa þér og syni þínum.*

*14 Því að svo segir Drottinn, Guð Ísraels: Mjölskjólan skal eigi tóm verða og viðsmjörið í krúsinni ekki þrjóta, allt til þess dags, er Drottinn gefur regn á jörð.*

*15 Þá fór hún og gjörði eins og Elía hafði sagt, og hún hafði nóg að eta, bæði hún og hann og sonur hennar, um langa hríð.*

16 *Mjölskjólan varð ekki tóm og viðsmjörið í krúsinni þraut ekki, samkvæmt orði Drottins, því er hann hafði talað fyrir munn Elía"* (1 Kon 17:13–16).

Ein ástæða þess að Drottinn útskýrir kenningar með öfgakenndum aðstæðum, er sú að það útilokar undantekningar. Ef Drottinn væntir þess að jafnvel hin snauðasta ekkja greiði sitt lítilræði, þá á það vissulega við um þá sem ekki finnst *þægilegt* eða auðvelt að fórna?

Enginn biskup, enginn trúboði, ætti að hika við eða skorta trú til að kenna hinum fátæku tíundarlögmálið. Skipta ætti út þeirri staðhæfingu að „þau hafi ekki **ráð á því**," fyrir þá staðhæfingu að „þau hafa ekki **ráð á öðru**."

Eitt það fyrsta sem biskup verður að gera til að koma hinum þurfandi til hjálpar er að bjóða þeim að greiða tíund sína. Líkt og með ekkjuna, þá ætti sú blásnauða fjölskylda sem taka þarf ákvörðum um hvort hún eigi að greiða tíund eða að nærast, að greiða sína tíund. Biskupinn getur hjálpað henni með matvæli.

Í október árið 1998 olli fellibylurinn Mitch eyðileggingu á mörgum stöðum í Mið-Ameríku. Gordon B. Hinckley forseti hafði miklar áhyggjur af fórnarlömbum þessara hörmunga, en mörg þeirra misstu aleiguna – matvæli, fatnað og innbú. Hann vitjaði hinna heilögu í borgunum San Pedro og Tegucigalpa í Hondúras og Managua í Nikaragúa. Og boðskapur þessa nútíma spámanns var í hverri borg keimlíkur ljúfum boðskap spámannsins Elia – að fórna og hlíta tíundarlögmálinu.

En hvernig getum við beðið einhvern blásnauðan um að fórna? Hinckley forseta var ljóst að matvælin og fatnaðurinn sem fólkið fengi aðsent gerði því kleift að standast ástand þetta, en umhyggja hans og ástúð fyrir fólkinu var meiri en svo að hún takmarkaðist við þetta. Honum var ljóst að mikilvægasta hjálpin bærist frá Guði, ekki mönnum, þrátt fyrir mikilvægi hjálparstarfsins. Spámaðurinn var að hjálpa því að ljúka upp gáttum himins, líkt og fyrirheit er gefið um í Malakí (sjá Mal 3:10).

Hinckley forseti kenndi því að ef það greiddi tíund myndi það alltaf hafa nóg á borðum sínum, skjólgóðan fatnað og þak yfir höfuð sitt.

Þegar máltíð er framreidd er mun auðveldara að bæta við einum diski í upphafi hennar, heldur en að taka til mat fyrir síðbúna að máltíð lokinni, þegar gengið hefur verið frá öllu matarkyns. Er ekki einnig auðveldara að gefa Drottni frumburðinn eða frumgróðann, en að vonast til að „afgangurinn" nægi honum? Ætti *hann* ekki að vera heiðursgesturinn, sá sem fyrstur fær á diskinn fær?

Ástkær móðir mín, Evelyn Robbins, kenndi mér tíundarlögmálið þegar ég var fjögurra ára gamall. Hún rétti mér tómt plásturbox, með ásmelltu loki. Hún kenndi mér að setja smáaurana mína í það og færa þá biskupi sem tíund. Ég er henni eilíflega þakklátur fyrir plástursboxið og blessanir þess að greiða tíund.

Í *Jólasögunni,* breytti Skröggur háttum sínum – hann varð allt annar maður. Svo á einnig við um þetta „fagnaðarerindi iðrunar." Ef andinn hvetur okkur til að hlíta betur lögmáli fórnar, ættum við nú þegar að breyta háttum okkar.

Ég er afar þakklátur fyrir frelsarann, sem var fullkomin fyrirmynd um hlýðni með fórn – sem „færði sjálfan sig fram sem fórn fyrir syndina," og varð, líkt og Lehí orðar það, „frumgróði Guðs." (2 Ne 2:7, 9) Ég ber vitni um hann og þessar kenningar hans, í nafni Jesú Krists, amen.

HEIMILDIR


1. *The Annotated Christmas Carol by Charles Dickens,* Michael Patrick Hearn, Avon Books, sept. 1977, bls. 69

# Ávextir fyrstu sýnarinnar

**Öldungur Dieter F. Uchtdorf**
**í Tólfpostulasveitinni**

Fyrir aðeins sex mánuðum studduð þið, dyggir þegnar Kirkju Jesú Krists, mig sem meðlim Tólfpostulasveitarinnar. Sú köllun kom mörgum mjög á óvart, einkum þó barnabörnum mínum, sem sögðu: „En hann er afi okkar! Hann er bara venjulegur maður. Hann lék við okkur og hann var vanur að klippa hárið á okkur!"

Eftir októberráðstefnuna töluðum við hjónin við börn okkar í síma og þá sagði eitt barnabarnið: „Úr því að við vorum svona langt í burtu og gátum ekki verið með ykkur í Salt Lake City, hefðir þú átt að veifa til okkar þegar þú fluttir ræðuna þína." Við höfum ekki enn verið með börnum okkar og barnabörnum fyrr en nú á þessari ráðstefnu og því veifa ég nú í von um að gera barnabarn mitt ánægt. Ég veifa einnig til ykkar, dásamlegu kirkjuþegnar, með þakklæti okkar hjóna fyrir bænir ykkar og kærleik, sem eru okkur svo mikils virði.

Á uppvaxtarárum mínum í Þýskalandi sótti ég kirkju víða og við mismunandi aðstæður – í fábrotnum bakherbergjum, glæsivillum og í nútíma starfræktum kapellum. Allar áttu þessar byggingar einn mikilvægan þátt sameiginlegan: Andi Guðs var þar og finna mátti ást frelsarans þegar við söfnuðumst saman sem grein eða deildarfjölskylda.

Í kapellunni í Zwickau var gamalt fótstigið orgel. Á hverjum sunnudegi var pilti falið að stíga fótstigið og fylla þannig belgina til að orgelið virkaði. Jafnvel áður en ég varð Aronsprestdæmishafi naut ég stundum þeirra forréttinda að vinna þetta mikilvæga verk.

Meðan söfnuðurinn söng hina kæru sálma endurreisnarinnar, pumpaði ég af öllum mætti svo að orgelið yrði ekki loftlaust. Augnaráð organistans sýndi svo ekki varð um villst hvort ég gerði vel eða þyrfti að gera betur. Mér fannst alltaf mikið koma til þessa mikilvæga skylduverks og þess trausts sem organistinn sýndi mér. Það var dásamleg tilfinning að hafa þetta ábyrgðarstarf og vera hluti af þessu mikla verki.

Annar kostur fylgdi einnig þessu starfi. Sá sem sté fótstigin sat á sérstöku sæti gegnt tilkomumiklum steindum glugga sem fegraði framhlið kapellunnar. Þessi steindi gluggi sýndi fyrstu sýnina, þar sem Joseph Smith kraup í Lundinum helga og horfði til himins og á ljósstólpann.

Meðan sálmar voru sungnir og jafnvel meðan ræður voru fluttar og vitnisburðir gefnir horfði ég oft á þessa mynd af einni helgustu stund veraldarsögunnar. Í huga mér sá ég Joseph taka á móti þekkingu, vitnisburði og guðlegri leiðsögn og verða blessað verkfæri í hendi föður okkar á himnum.

Ég skynjaði sérstakan anda meðan ég horfði á þessa fögru gluggamynd af trúuðum pilti í helgum lundi sem tók þá djörfu ákvörðun að biðja í einlægni til elskandi föður á himnum, sem hlustaði og svaraði honum af ástúð.

Hér var ég, ungur piltur í Þýskalandi eftir síðari heimsstyrjöldina, í borg sem var í rústum, í þúsunda mílna fjarlægð frá Palmyra í Norður-Ameríku og meira en heilli öld eftir að hinn raunverulegi atburður gerðist. Með alheimskrafti heilags anda fann ég í hjarta mér og huga að þetta var sannleikur, að Joseph Smith sá í raun Guð og Jesú Krist og heyrði raddir þeirra. Andi Guðs hughreysti sál mína á þessum unga aldri með fullvissu um raunveruleika þessarar helgu stundar, sem var upphaf að heimshreyfingu sem átti og mun „áfram velta, uns [hún] hefur fyllt alla jörðina" (K&S

65:2). Ég trúði vitnisburði Josephs Smith um þennan dýrðlega atburð og helgu reynslu í Lundinum helga, og nú á ég fullvissu. Guð hefur enn á ný talað til manna!

Þegar ég lít til baka er ég þakklátur svo mörgum vinum sem hjálpuðu mér á æskuárum mínum að öðlast vitnisburð um hina endurreistu kirkju Jesú Krists. Fyrst trúði ég einfaldlega vitnisburðum þeirra, en síðan hlaut ég guðlegan vitnisburð andans í huga mér og hjarta. Ég tel Joseph Smith meðal hverra vitnisburður um Krist hjálpaði mér að rækta minn eigin vitnisburð um frelsarann. Áður en ég gerði mér grein fyrir kennslu andans sem bar mér vitni um að Joseph Smith væri spámaður Guðs, fann hið unga hjarta mitt að hann var vinur Guðs og væri því eðlilega einnig vinur minn. Ég vissi að ég gæti treyst Joseph Smith.

Ritningarnar kenna okkur að andlegar gjafir eru gefnar þeim sem spyrja Guð, sem elska hann og halda boðorð hans (sjá K&S 46:9). Tilvitnun: „Því að allir hljóta ekki sérhverja gjöf, því að gjafirnar eru margar og andi Guðs gefur hverjum manni gjöf. Sumum er gefin ein og öðrum er gefin önnur, svo að allir njóti góðs af því“ tilvitnun lýkur (K&S 46:11–12).

Í dag er mér ljóst að hinn ungi vitnisburður minn naut stórlega góðs af vitnisburði spámannsins Josephs Smith og margra vina minna í kirkjunni sem vissu „fyrir heilagan anda ..., að Jesús Kristur er sonur Guðs og að hann var krossfestur vegna synda heimsins“ (K&S 46:136:13). Gott fordæmi þeirra, umhyggja og hjálpandi hendur veittu mér þá blessun að hljóta aðra sérstaka gjöf andans þegar ég þráði meira ljós og sannleika: Tilvitnun: „Öðrum er gefið að trúa orðum þeirra, svo að þeir megi einnig eiga eilíft líf, séu þeir áfram staðfastir“ tilvitnun lýkur (K&S 46:14). Hve dásamleg og dýrmæt gjöf þetta er!

Þegar við sannlega erum auðmjúk munum við blessuð með þessari gjöf, að eiga trú og von um það, sem eigi er auðið að sjá, en er sannleikur (sjá Alma 32:21). Þegar við gerum tilraun með orð ritninganna og lifandi spámanna – jafnvel þótt ekki sé nema löngun til að trúa – og stöndum ekki gegn anda Drottins, mun sálarsvið okkar víkka og skilningur okkar upplýsast (sjá Alma 32:26–28).

Frelsarinn sjálfur útskýrði þessa miskunnsömu reglu greinilega fyrir öllum heiminum í sinni miklu fyrirbæn, ekki aðeins fyrir postulum sínum heldur og öllum heilögum, jafnvel okkur í dag, hvar sem við búum. Hann sagði:

„Ég bið ekki einungis fyrir þessum, heldur og fyrir þeim, sem á mig trúa fyrir orð þeirra,

að allir séu þeir eitt, eins og þú, faðir, ert í mér og ég í þér, svo séu þeir einnig í okkur, til þess að heimurinn trúi, að þú hefur sent mig“ (Jóh 17:20–21; leturbr. hér).

Þannig blessar fyrsta sýn Josephs Smith líf okkar sjálfra, líf fjölskyldna okkar, og að lokum líf allra manna–við förum að trúa á Jesú Krist fyrir vitnisburð spámannsins Josephs Smith. Spámenn og postular í allri mannkynssögunni hafa fengið guðlegar opinberanir svipaðar Josephs. Móse sá Guð augliti til auglitis og lærði að hann var sonur Guðs, „í líkingu [hans] eingetna“ (sjá HDP Móse 1:1–6). Páll postuli bar vitni um hinn upprisna Jesú Krist sem birtist honum á veginum til Damaskus og gerði hann að einum af sínum miklu trúboðum (sjá Post 26:9–23). Hinn voldugi Agrippa konungur hlýddi á vitnisburð Páls um himneska sýn hans við réttarhöldin í Sesareu og sagði: „Þú þykist ekki vera lengi að gjöra mig kristinn“ (Post 26:28).

Og margir aðrir fornir spámenn hafa einnig borið máttugan vitnisburð um Krist. Allar þessar opinberanir, fornar og nýjar, leiða þá sem trúa til hinnar einu guðlegu uppsprettu alls réttlætis og allrar vonar–til Guðs, föður okkar á himnum, og til sonar hans, Jesú Krists.

Guð hefur talað til Josephs Smith í þeim tilgangi að blessa öll börn Guðs með miskunn sinni og elsku, jafnvel á tímum óvissu og öryggisleysis, styrjalda og

hernaðartíðinda, náttúruhamfara og eigin hörmunga. Frelsarinn sagði: „Sjá! armur miskunnar minnar er útréttur til yðar, og ég mun taka á móti hverjum þeim, sem koma vill“ (3 Nefí 9:14). Og allir sem taka þessu boði munu „umkringdir óviðjafnanlegri gnægð elsku hans“ (Alma 26:15).

Með trú okkar á persónulegan vitnisburð spámannsins Josephs og raunveruleika fyrstu sýnarinnar, með námi og bæn, heitri og einlægri, munum við blessuð með fullvissu um frelsara heimsins, sem talaði til Josephs „að morgunlagi, fagran og heiðskíran dag, snemma vors árið átján hundruð og tuttugu“ (Joseph Smith – Saga 1:14).

Trú á Jesú Krist og vitnisburður um hann og alheims friðþægingu hans er ekki aðeins kenning með mikið guðfræðilegt gildi. Slík trú er alheimsgjöf, dýrðleg fyrir öll menningarsvæði þessa heims, óháð tungumáli, kynþætti, hörundslit, þjóðerni, eða félags- og hagfræðilegum aðstæðum. Rökfærslur má nota til að reyna að skilja þessa gjöf, en þeir sem mest finna áhrif hennar eru þeir sem fúsir eru til að taka á móti blessunum hennar, með því að lifa því hreina lífi sem fylgir vegi sannrar iðrunar og að halda boðorð Guðs.

Þegar við minnumst og heiðrum spámanninn Joseph Smith fyllist hjarta mitt af þakklæti til hans. Hann var góður, heiðarlegur, auðmjúkur, skynsamur og hugrakkur piltur með gullhjarta og óhagganlega trú á Guð. Hann var ráðvandur. Sem svar við auðmjúkri bæn hans lukust himnarnir upp á ný. Joseph Smith hafði í raun séð sýn. Hann vissi það, og hann vissi að Guð vissi það, og hann gat ekki neitað því (sjá Joseph Smith – Saga 1:25).

Fyrir starf hans og fórn hef ég nú sannan skilning á föður okkar á himnum, og syni hans, lausnara okkar og frelsara, Jesú Kristi, og ég get fundið kraft heilags anda og vitað um áætlun himnesks föður varðandi okkur, börn hans. Fyrir mér eru þetta vissulega ávextir fyrstu sýnarinnar.

Ég er þakklátur fyrir að hafa snemma í lífi mínu verið blessaður með einfaldri trú á að Joseph Smith hafi verið spámaður Guðs, að hann sá Guð föðurinn og son hans Jesú Krist í sýn. Hann þýddi Mormónsbók fyrir gjöf og kraft Guðs. Hvað eftir annað hef ég fengið staðfestingu á þeim vitnisburði.

Sem einn hinna sístu meðal ykkar, en í köllun minni sem einn af postulum Jesú Krists, ber ég því vitni að hann sannlega lifir, að hann er Messías. Ég á vitnisburð um Jesú Krist, frelsara og lausnara alls mannkyns. Þá vitneskju hlaut ég fyrir ólýsanlegan frið og kraft anda Guðs. Mín hjartans þrá og ósk er að ég þjóni honum hreinn og trúr nú og alla tíð.

Um það vitna ég í nafni Jesú Krists, amen.

# Trúboðshjón: Blessanir fórnar og þjónustu

**Öldungur Robert D. Hales**
**í Tólfpostulasveitinni**

Fyrir fjórum árum ræddi ég hér um hjón sem gegndu fullri trúboðsþjónustu. Bæn mín var að „heilagur andi [myndi] snerta hjörtu og einhvers staðar [myndi]einhver hnippa blíðlega í maka sinn, og stund sannleikans [ – stund ákvörðunar – myndi] renna upp. Systir ein skrifaði mér síðar um þá reynslu. Hún sagði: „Við sátum í makindum í fjölskylduherberginu og horfðum á ráðstefnuna í sjónvarpinu ... Orð þín snertu hjarta mitt djúpt. Ég leit á eiginmann min og hann leit á mig. Þessi stund gjörbreytti lífi mínu."

Ef þið eruð komin eða munuð senn komast á eftirlaunaaldur, ber ég ykkur í dag vitni um blessanir sem gjörbreyta munu lífi ykkar. Himneskur faðir þarfnast ykkar. Verk hans, undir stjórn frelsara okkar Jesú Krists, þarfnast þess sem þið ein getið gefið. Allt trúboðsstarf krefst trúar, fórnar og þjónustu og því fylgir ætíð úthelling blessana.

Þegar við ræðum þær blessanir munuð þið hugleiða með mér fjóra þætti: Kvíða, áhyggjur af fjölskyldunni, rétt trúboðstækifæri og fjárhagsvanda. Ég vil bæta enn öðrum við, mikilvægari og máttugri: Trú. Aðeins með trú getum við fylgt þessum ráðum Guðs: „Kjósið í dag, hverjum þér viljið þjóna" – „að þjóna Drottni Guði, sem gjörði yður."[2] Og aðeins með því að reynt verði á trú okkar getum við hlotið þær undursamlegu blessanir sem við þráum fyrir okkur sjálf og fjölskyldu okkar: „Því að ef engin trú er meðal mannanna barna, getur Guð engin kraftaverk gjört meðal þeirra. Þess vegna sýndi hann sig ekki fyrr en menn trúðu."[3]

Ég vil deila með ykkur sumum þessara undursamlegu blessana úr bréfum og frásögnum sem ég hef fengið á síðustu fjórum árum. Auðmjúk hjón frá Idaho mættu óttanum með trú þegar Drottinn kallaði þau til Rússlands. Þau skrifuðu svohljóðandi þakkarbréf: „Enginn hefði getað ímyndað sér að við yrðum kölluð til þessara starfa. Við höfum ekki hugmynd um hvernig við munum læra tungumálið eða geta orðið að gagni, og þó við þiggjum þetta óttaslegin, treystum við algerlega á trúna, því við vitum að Drottinn og spámenn hans vita betur en við hvar við eigum að þjóna." Tíu mánuðum síðar tók Stokkhólms-musterið á móti 30 heilögum frá lítilli grein í Rússlandi. Þeir voru undir handleiðslu þessara hjóna frá Idaho, sem rétt voru byrjuð að læra eitthvað í rússnesku. Ritningarnar segja: „Þannig hefur Guð gjört manninum mögulegt að gjöra máttug kraftaverk fyrir trú."[4] Þannig vinna börn Guðs verk hans: „Að trú megi einnig eflast á jörðu ... Að hinir veiku og einföldu fái boðað fyllingu fagnaðarerindisins til endimarka heims."[5]

Önnur hjón mættu áhyggjum af fjölskyldunni með trú. Trúföst systir skrifaði: „Ákvörðunin um að þjóna í trúboði var ekki erfið. En níræð móðir mín var mjög kvíðafull yfir að við færum. Hún róaðist þó mikið þegar hún heyrði að fjölskylda okkar hlyti blessanir af þjónustu okkar." Trúfastur bróðir lét í ljós svipaðar áhyggjur af því að yfirgefa aldraða foreldra, en faðir hans sagði: „Notaðu ekki móður þína og mig sem afsökun fyrir að fara ekki í trúboð með konu þinni. Biðstu fyrir varðandi þetta og fylgdu leiðsögn andans." Drottinn gaf fyrri kynslóð trúboða sem kallaðir voru til að yfirgefa fjölskyldu sína þessa fullvissu: „Og gjöri þeir það af hjartans lítillæti, ... gef ég, Drottinn, þeim loforð um, að ég mun annast fjölskyldur þeirra."[6] Vissulega eru áhyggjur af fjölskyldunni raunverulegar og ætti ekki að telja þær léttvægar. En við getum ekki mætt fjölskylduvanda okkar án blessunar Drottins, og þegar hjón fórna til að þjóna sem fastatrúboðar, munu blessanirnar flæða. Sem dæmi má nefna hjón ein

sem höfðu áhyggjur af því að yfirgefa yngstu dóttur sína sem ekki var lengur virk í kirkjunni. Faðir hennar skrifaði: „Við báðum stöðugt fyrir henni og föstuðum reglulega. Þá gerðist það á aðalráðstefnu að andinn hvíslaði að mér: 'Ef þú vilt þjóna, þarft þú ekki að hafa áhyggjur af dóttur þinni lengur.' Við áttum því fund með biskupi okkar. Viku eftir að við fengum köllunina tilkynnti hún og vinur hennar okkur að þau væru trúlofuð. Þegar við höfðum þjónað í um eitt ár tók hjarta hans að mildast gagnvart kirkjunni. Rétt áður en við lukum trúboðinu heimsóttu þau okkur. Í ferðatösku hans voru fyrstu sunnudagafötin sem hann hafði nokkru sinni átt. Þau komu með okkur í kirkju og eftir að við komum heim lét hann skírast. Ári síðar voru þau innsigluð í musterinu.“[7]

Þótt atriði í þessari sögu kunni að vera sérstæð, er reglan sönn fyrir alla þá sem segja við Drottin: „Ég fer hvert sem þú vilt ég fari.“[8] Ég ber vitni um að þegar við setum traust okkar á Drottin, mun hann finna rétt trúboðstækifæri fyrir okkur. Líkt og hann sagði: „Þann sem þjónar mér, mun faðirinn heiðra.“[9]

Varðandi trúboðstækifæri, þá eru mörgu hjón um heim allan sem hafa sterka þrá til að þjóna en hafa ekki fjárhagsgetu til þess. Ef þið eruð í þessum aðstæðum, munið þá að rétt trúboðsköllun þarf ekki að vera að fara til fjarlægs lands, þar sem nöfn hljóma undarlega. Rétt köllun getur verið í stiku ykkar eða á svæði ykkar. „Yðar himneski faðir veit, að þér þarfnist alls þessa.“[10] Aflið ykkur leiðsagnar hjá stórfjölskyldu ykkar og biskupi eða greinarforseta. Þegar þjónar Drottins skilja stundlegar aðstæður ykkar, getið þið hlotið eilífar blessanir þess að þjóna í fastatrúboði.

Ef þið getið ekki þjónað vegna alvarlegra aðstæðna, gætuð þið þá hugleitt að láta fé af hendi rakna til hjálpar þeim sem það geta? Hæfileg fórn af eigum ykkar mun ekki aðeins blessa aðra trúboða og þá sem þeir þjóna, heldur einnig ykkur og fjölskyldu ykkar.

Ég ætla nú að tala hreinskilningslega við þá sem ekki gátu þjónað í trúboði á yngri árum: Kannski hefur það lagst þungt á ykkur yfir árin eða þið finnið til vanmáttar yfir að hafa ekki fengið tækifæri til að þjóna og þroskast. Lítið fram á við, ekki aftur á við. Hefjið nú þegar að búa ykkur undir trúboð sem eldri hjón! Leggið ölítið til hliðar í hverjum mánuði. Lærið ritningarnar. Takið að ykkur kirkjukallanir. Biðjist fyrir til að skynja elsku Drottins til annarra og takið á móti elsku hans og fullvissu fyrir ykkur. Einn daginn getið þið vænst *allra* blessana trúboðsþjónustu!

Og hve undursamlegar blessanir það eru! Ég var eitt sinn spurður, eftir 51 ára hjónaband: „Hvaða hluta lífs þíns hefðir þú viljað upplifa að nýju“? Ég hikaði ekki við að svara: „Sameiginlega þjónustu mína og eiginkonu minnar í hinu mikla trúboðsverki Drottins.“ Viðhorf annarra trúboðshjóna endurspeglar mitt: „Ákvörðun okkar um að fara í trúboð færði okkur nýjan kraft, nýjar tilfinningar, nýja vini, nýja staði, nýjar áskoranir. Hún færði okkur hjónin nær hvort öðru, við áttum sameiginleg markmið og sannan félagsanda. Og það besta, hún færði okkur andlegan þroska í staðinn fyrir andlega hvíld frá störfum.“ Bræður og systur, tökum okkur ekki andlega hvíld frá störfum.

Má ég nú gefa biskupum og greinarforsetum um allan heim áskorun? Gætuð þið á næstu sex mánuðum mælt með einum eða fleiri trúboðshjónum, fyrir utan þau sem þegar hafa áform um að þjóna? Besta auðlindin sem þið eigið til að uppfylla þessa áskorun eru fullorðnir kirkjuþegnar sem þegar hafa þjónað í trúboði. Í deild minni kallaði innblásinn biskup til sérstaks fundar verðandi og heimkominna trúboðshjóna. Þegar við gáfum vitnisburði okkar um fórn og þjónustu bar andinn okkur öllum vitni um að köllun til að þjóna sé vissulega köllun til að „öðlast æðstu blessun.“[11] Ég hef heyrt um stikuforseta sem kom á fót námsbekk fyrir fullorðna

trúboða til þess að veita verðandi trúboðshjónum innblástur og hjálpa þeim að búa sig undir þjónustu. Prestdæmisleiðtogar – þegar þið með bæn reynið að hvetja til fastatrúboðsþjónustu, hafið þá í huga að þegar hjón eru kölluð þá aðstoða þau ekki aðeins við verk Drottins víða um heim, heldur sá þau þjónustufræjum í hjörtu fjölskyldu sinnar, fræjum sem blómstra munu með komandi kynslóðum. Ég er enn þakklátur fyrir áhrif foreldra minna sem þjónuðu saman sem trúboðshjón í Englandi og sýndu niðjum sínum gott fordæmi.

Nú beini ég orðum mínum til ykkar trúboðshjóna, bíðið ekki eftir viðtali við biskup ykkur varðandi trúboðsþjónustu. Farið til hans. Deilið með honum tilfinningum ykkar. Þegar um trúboðsþjónustu er að ræða ætlast Drottinn til að við látum í ljós óskir okkar. Þegar við gerum það getum við treyst því að sami andinn sem hvatti okkur til trúboðsstarfa muni blása spámanni í brjóst að kalla okkur á réttan stað.

Og kallanirnar eru svo margar! Það eru kallanir til að kenna fagnaðarerindið þeim sem þrá að taka á móti því, þar á meðal unglingum í Fræðslustarfi kirkjunnar; köllun til að vinna að velferðar- og mannúðarþjónustu, veita musterisþjónustu, ættfræðiþjónustu, vinna á trúboðsskrifstofum, sögustöðum; kallanir til að „þjóna meðbræðrum þínum á bestan veg og auka dýrð hans sem er Drottinn þinn.“[12]

Hugleiðið þessi dæmi: Hjón á Hawaii önnuðust 20 manna grein og gerðu hana 200 manna og bjuggu 70 kirkjuþegna undir að fara saman til musterisins. Hjón í Rússlandi hjálpuðu bændum á staðnum að gera kartöfluuppskeru sína 11 sinnum meiri en á ríkisreknum búum. Hjón í Pennsylvaníu aðstoðuðu 60 manns við ættarskýrslur sínar. Hjón í Ghana hjálpuðu við gröft og gerð brunna sem færðu 190.000 manns vatn, bæði í þorpum og flóttamannabúðum.

Hvort heldur árangurinn af hverju trúboðsstarfi er þetta augljós jarðneskum augum eða ekki, veita allir þeir sem þjóna dýrmætt framlag í augum Drottins, því að „verið mildir við suma ... suma skuluð þér frelsa.“[13] Trúboðshjón eru kjörnar fyrirmyndir og styrkur fyrir fastatrúboða og leiðtoga prestdæmis og hjálpardeilda. Ég er þakklátur þeim öllum og þúsundum annarra sem þjóna á svo mörgum sviðum, leggja fram milljónir stunda í þjónustu við meðbræður sína og systur.

Bræður mínir og systur, ef þið hafið fundið hvöt til að vinna að þessu verki, hversu veik sem sú tilfinning kann að vera, skuluð þið ekki fresta þjónustu ykkar. Nú er tíminn til undirbúnings, tími til köllunar, tími til fórnar, tími til að miðla af gjöfum ykkar og hæfileikum, og nú er tíminn til að hljóta blessanir Guðs fyrir ykkur og fjölskyldu ykkar. „Það er stöðug þörf fyrir fleiri trúboðshjón,“ hefur Hinckley forseti sagt. Og þörfin í þessu verki eykst. Við skulum því, á reynsluríkustu árum okkar, í þroska okkar, visku og því sem mestu skiptir, í trú okkar, mæta þeirri þörf eins og við ein getum.

Við höfum, umfram allt, sérstaka ástæðu til að gera svo. Af reynslu okkar getum við horft til baka og séð góðvild föður okkar á himnum og sonar hans Jesú Krists í okkar garð og fjölskyldu okkar. Eins og einn dyggur bróðir sagði: „Við hjónin vildum gjarnan þjóna fimm sinnum í trúboði – einu sinni fyrir hvert barn sem Guð hefur blessað okkur með!“ Hverjar sem blessanirnar eru sem við hvert um sig höfum hlotið, ber ég því vitni að við höfum öll hlotið stærstu blessun allra: „Því svo elskaði Guð heiminn, að hann gaf son sinn eingetinn,“[14] og sonur hans, Jesús Kristur, „elskar [svo] heiminn, að hann gefur sitt eigið líf.“[15] Ég ber um það sérstakt vitni að friðþægingarfórn hans er æðsta kærleikstjáningin.

Það eru stærstu forréttindi okkar, sem þegna Kirkju Jesú Krists hinna Síðari daga heilögu, að endurgjalda kærleik hans með fórn og þjónustu, og hljóta heilagt loforð hans: „Og hver sá, sem fórnar lífi sínu mín vegna, vegna nafns mins, mun finna

það aftur, já, eilíft líf."[16] Að við megum gera svo er hjartans bæn mín í nafni Jesú Krists, amen.

HEIMILDIR


1. Alma 30:8.
2. HDP Móse 6:33.
3. Eter 12:12, leturbr. hér.
4. Mósía 8:18.
5. K&S 1:21, 23.
6. K&S 118:3.
7. K&S 31:1–2, 5.
8. *Hymns* 270.
9. Jóh 12:26.
10. Matt 6:32; 3 Ne 13:32.
11. *Hymns*, 249.
12. K&S 81:4.
13. Júd 1:22.
14. Jóh 3:16.
15. 2 Nefí 26:24.
16. K&S 98:13.

# Prestdæmisfundur

## Okkar sérstæðasti eiginleiki

**Öldungur Jeffrey R. Holland**
**í Tólfpostulasveitinni**

Fyrir næstum 70 árum lagði David O. McKay forseti, sem þjónaði sem ráðgjafi í Æðsta forsætisráði kirkjunnar, þessa spurninu fyrir söfnuðinn, sem saman var kominn á aðalráðstefnu: „Ef sérhvert ykkar væri á þessari stundu beðið um að segja í einni setningu ... hver væri sérstæðasti eiginleiki Kirkju Jesú Krists hinna Síðari daga heilögu, hvert væri þá svar ykkar? ... Svar mitt," bætti hann við, „yrði ... guðlegt vald með beinni opinberun."[1] Það guðlega vald er, auðvitað, hið heilaga prestdæmi.

Hinckley forseti bætti við sínum vitnisburði þegar hann sagði, „[Prestdæmið] er útdeiling á guðlegu valdi, ólíkt öllum öðrum krafti og valdi á jörðinni ... Það er eini krafturinn á jörðu sem nær út yfir hulu dauðans. ... Án þess væri kirkjan nafnið tómt, [kirkja] sem skorti vald til að starfa að málefnum Guðs."[2] Aðeins fyrir fjórum vikum sagði Faust forseti við BYU stúdenta á helgistund þeirra: „[Prestdæmið] er virkjandi ráðandi allra athafna kirkjunnar. Án prestdæmislykla og valds, væri engin kirkja."[3]

Ég hef ræðu mína hér í kvöld með þessum þremur stuttu tilvitnunum (sem hægt væri að bæta tugum annarra við) til þess að leggja þunga áherslu á aðeins eitt atriði: Að prestdæmi Guðs, með lyklum þess, helgiathöfnum, guðlegum uppruna og getu til að „binda á himni það sem bundið er á jörðu" er jafn ómissandi fyrir sanna kirkju Guðs og það er einstætt fyrir hana, og að án þess mundi ekki vera nein Kirkja Jesú Krists hinna Síðari daga heilögu.

Á þessu minningarári þegar við erum að minnast þess að 200 ár eru liðin frá fæðingu spámannsins Josephs Smith og 175 ár frá stofnun kirkjunnar, vil ég einnig bæta við mínum vitnisburði um – og láta í ljós eilíft þakklæti mitt fyrir – endurreisn þessa helga prestdæmis, þessa helgu forréttinda, þessa fullveldisgjöf, og hlutverk þess í lífi okkar beggja vegna hulunnar.

Frelsarinn gerði hinu nauðsynlega hlutverki prestdæmisins við að tengja saman tíma og eilífð góð skil þegar hann mótaði kirkju sína í jarðneskri þjónustu sinni. Við reyndasta postula sinn, Pétur, sagði hann: „Ég mun fá þér lykla himnaríkis, og hvað sem þú bindur á jörðu, mun bundið á himnum, og hvað sem þú leysir á jörðu, mun leyst á himnum."[4] Sex dögum síðar tók hann Pétur, Jakob, og Jóhannes með sér upp á fjall eitt þar sem hann ummyndaðist í dýrð frammi fyrir þeim. Þá birtust einnig spámenn frá fyrri ráðstöfunartímum, þar á meðal að minnsta kosti Móse og Elía[5] í dýrð afhentu þá ýmsu lykla og kraft sem hver um sig hafði.

Því miður voru þessir postular innan skamms drepnir eða á annan hátt teknir af jörðu og hurfu prestdæmislyklar þeirra með þeim, og af því leiddi að prestdæmið og guðlegt valdsumboð var ekki fyrir hendi meðal manna í yfir 1400 ár. En hluti af nútíma kraftaverki og undursamlegri sögu sem við fögnum í dag er endurkoma þessara sömu fyrri himnesku sendiboða á *okkar* tíma og endurreisn þess sama krafts sem þeir héldu til blessunar öllu mannkyni. Í maí 1829 þegar spámaðurinn Joseph Smith var að þýða Mormónsbók, rakst hann á tilvísun í skírn. Hann ræddi málið við ritara sinn, Oliver Cowdery, og þeir tveir spurðu Drottin einlæglega um málið. Hann skrifaði: „Sálir okkar lögðu sig allar fram í máttugri bæn – til þess að vita hvernig við

gætum notið blessunar skírnar og heilags anda ... *Við leituðum af kostgæfni að ... valdi hins heilaga prestdæmis, og kraftinum til að starfa í hinu sama.*"[6]

Sem svar við þeirri „máttugu bæn" kom Jóhannes skírari, og endurreisti lykla og kraft Aronsprestdæmisins, sem piltunum okkar hér meðal hlustenda í kvöld hefur verið veitt. Fáeinum vikum síðar komu Pétur, Jakob og Jóhannes til þess að endurreisa lykla og kraft Melkísedeksprestdæmisins, þar með talið lykla postuladómsins. Síðan, þegar musteri hafði verið reist þar sem aðrir himneskir sendiboðar gátu komið, gerðist hinn 3. apríl 1836 það sem jafngilti fyrri tíma ummyndun á fjallinu, og var hluti af því sem Hinckley forseti kallaði eitt sinn „Kirtland-streymi" opinberana, þar sem frelsarinn sjálfur, ásamt Móse á nýjan leik, Elía, og Elíasi birtust í dýrð spámanninum Joseph Smith og Oliver Cowdery, og afhentu þeim lykla og kraft frá ráðstöfunartímum sínum. Þeirri heimsókn lauk síðan með þrumandi yfirlýsingu: „Þess vegna eru lyklar þessara ráðstafana seldir yður í hendur."[7]

Ekki er að undra að spámaðurinn Joseph skyldi fella inn í hin gagnorðu og hrífandi trúaratriði okkar: „Vér trúum, að maður verði að vera kallaður af Guði með spádómi og *með handayfirlagningu þeirra sem vald hafa,* til að prédika fagnaðarerindið og framkvæma helgiathafnir þess."[8] Að starfa með guðlegu valdi krefst meira en bara félagssamnings. Það fæst ekki með guðfræðilegri þjálfun eða samningi við söfnuðinn. Nei, í verki sem Guð heimilar verður að vera kraftur meiri en sá sem fólkið á kirkjubekkjunum þegar hefur, eða fólkið á götunni, eða í trúarskólunum – þetta er staðreynd sem margir einlægir trúarleitendur höfðu þekkt og viðurkennt opinskátt mann fram af manni allt til endurreisnarinnar.

Satt er það að fáeinir á þessum tíma vildu ekki að prestar þeirra gerðu kröfu til sérstakrar helgunar með sakramentisvaldi, en flestir þráðu samt viðurkennt prestdæmi Guðs og voru vonsviknir yfir að finna það hvergi."[9] Í þeim anda ætti byltingarkennd endurkoma prestdæmisvalds með Joseph Smith að hafa linað aldagamlan söknuð hjá þeim sem *tóku undir* það sem hinn nafnkunni Charles Wesley hafði hugrekki til að *segja.* Charles gerðist gagnrýninn á sinn þekkta bróður John vegna ákvörðunar hins síðarnefnda um að vígja án þess að hafa til þess valdsumboð, og orti Charles þá brosandi:

„Hversu auðveldlega eru biskupar gerðir
eftir manna eða kvenna hugdettum:
Wesley yfir Coke hendur lagði,
en hver lagði hendur yfir hann?"[10]

Við í hinni endurreistu kirkju Jesú Krists getum, sem svar við þessari mikilvægu spurningu, rakið það prestdæmisvald sem okkar nýjasti djákni notar í deild sinni eða biskupinn hefur sem yfir honum er, eða spámaðurinn hefur sem er í forsæti okkar allra. Sú lína er óslitin allt til þeirrar engla er komu til að þjóna í nafni sonar Guðs sjálfs, með þessa óviðjafnanlegu gjöf frá himni. Og hve við þörfnumst blessana hennar---sem kirkja og sem einstaklingar og fjölskyldur í kirkjunni. Aðeins eitt skýringardæmi.

Ég talaði áðan um Kirtland tímabilið í sögu kirkjunnar. Árin 1836 og 37 voru með því erfiðasta sem þessi unga kirkja hafði gengið í gegnum – fjárhagslega, pólitískt og vegna innra ástands. Mitt í öllum þessum erfiðleikum fékk Joseph Smith þá furðulegu spámannlegu hvatningu að senda suma af sínum færustu mönnum (að lokum alla sveit postulanna tólf) til trúboðsstarfa erlendis. Þetta var djarfur, innblásinn leikur, sem að lokum mundi bjarga kirkjunni frá vanda líðandi stundar, en til skemmri

tíma litið var það mikil byrði fyrir hina heilögu – sársaukafull fyrir þá sem fóru brott og líklega ennþá þjáningarfyllri fyrir þá sem voru eftir heima.

Ég vitna í öldung Robert B. Thompson.

„Þegar dagurinn sem tilnefndur hafði verið sem brottfarardagur öldunganna til Englands var upp runninn, [kom ég við] heima hjá bróður [Heber C.] Kimball til að komast að hvenær hann legði af stað [í ferð sína],því ég gerði ráð fyrir að verða honum samferða þrjú til fjögur hundruð kílómetra, með það fyrir augum að starfa í Kanada þessa árstíð.

Dyrnar voru hálfopnar, ég fór inn og það sem blasti við mér kom mér á óvart. Ég hefði átt að hverfa frá, þar sem mér fannst ég vera óboðinn, en ég var sem negldur niður. Faðirinn var að úthella sál sinni frammi fyrir ... Guði, [bað þess], að ... hann sem 'annast um spörvana, og gefur hrafnsungunum þegar þeir orga' mundi annast þarfir konu hans og barnanna litlu í fjarveru hans. *Síðan, eins og patríarkarnir, og í krafti embættis síns, lagði hann hendur á höfuð hvers þeirra, veitti þeim föðurblessun, ...fól þau í umsjá og vernd Guðs, á* meðan hann yrði önnum kafinn við að prédika fagnaðarerindið í ókunnu landi. Á meðan á þessu stóð [hann veitti þessar blessanir] heyrðist varla til hans fyrir kjökri þeirra sem í kring um [hann] voru, sem reyndu á sinn barnalega hátt að harka af sér, en áttu erfitt með það.] Hann hélt áfram, en honum var of þungt um hjartað til að geta gert það viðstöðulaust. ... Hann varð að stansa öðru hvoru, á meðan ... stór tár runnu niður kinnar hans, er sýndu þær tilfinningar sem innra með honum bærðust. Hjarta mitt stóðst ekki þessa raun," segir bróðir Thompson. „Ég réð ekki við mig heldur grét, og tár mín blönduðust þeirra. Jafnframt var ég þakklátur fyrir þau forréttindi að hafa orðið vitni að slíkum atburði."[11]

Þessir atburðir hafa endurtekið sig með einum eða öðrum hætti þúsund sinnum, hundrað þúsund sinnum, í Kirkju Jesú Krists hinna Síðari daga heilögu – ótti, nauðsyn, köllun, hætta, veikindi, slys, dauði. Ég hef tekið þátt í slíkum stundum. Ég hef fundið kraft Guðs birtast á mínu heimili og í minni þjónustu. Ég hef séð hið illa hrakið frá og náttúruöflum stýrt. Ég veit hvað felst í því að fjöll erfiðleika séu flutt og ógnvænleg Rauðahöf aðskilin. Ég veit kvað felst í því að engill tortímingarinnar „leiði þá hjá sér."[12] Að hafa meðtekið vald og notað kraft hins heilaga prestdæmis, eftir reglu Guðssonarins,[13] er eins mikil blessun fyrir mig og fjölskyldu mína og ég get vonast eftir í þessum heimi. Og að lokum, prestdæmið er, svo notuð séu hversdagsleg orð – óviðjafnanlegt, óendanlegt, stöðug uppspretta blessunar.

Með þakklæti fyrir slíkar blessanir sameinast ég ykkur og kór lifandi og látinna og syng á þessu ári minninganna: „Lof syngið honum sem litið fékk Jahve!"[14] og hafði samskipti við Móse og Moróní, Elía, Elías, Pétur, Jakob og Jóhannes, Jóhannes skírara og fjölda annarra.[15] Sannarlega „leiddur af Jesú hann spámaður er."[16] Megum við, ungir og aldnir, piltar og menn, feður og synir, gleðjast í því prestdæmi sem með honum var endurreist, prestdæmislyklum þess og helgiathöfnum, þar sem kraftur guðleikans *er* opinberaður, og án þess *getur hann ekki* opinberast.[17] Ég ber vitni um endurreisn prestdæmisins og hinn ómissandi „sérstæða eiginleika" hinnar sönnu kirkju Guðs, sem hún hefur alltaf verið, í nafni hans, hvers prestdæmið er, sjálfs Drottins Jesú Krists, amen.

HEIMILDIR


1. Minnispunktar í Conference Report, apríl 1937, 121.
2. "Priesthood Restoration," *Ensign*, október 1988, 71.
3. BYU Devotional, 1. mars, 2005.
4. Matt 16:19.

5. Í þýðingu Josephs Smith á Biblíunni er þessi „Elías" skilgreindur sem Jóhannes skírari. Heitið „Elías" á bæði við sérstakan fornan spámann með því nafni og einnig er það notað yfir hvern þann sem þjónar sem „fyrirrennari" á sama hátt og hinn upphaflegi Elías var. Jóhannes skírari var einn slíkur Elías.
6. Patriarchal Blessing Book 1, 18. des. 1833, 8–9; leturbreyting hér.
7. Sjá K&S 110.
8. Trúaratriðin 1:5; leturbreyting hér.
9. Sjá David F. Holland, "Priest, Pastor, Power," *Insight*, BYU, haustið, 1997, bls. 17 og áfram til gaumgæfilegrar rannsóknar á prestdæmismálefnum sem uppi voru í Ameríku á tíma endurreisnarinnar.
10. Vitnað til í Rev. C. Beaufort Moss, *The Divisions of Christendom: A Retrospect,* (London), 22.
11. Orson F. Whitney, *The Life of Heber C. Kimball,* [1945]108–109.
12. K&S 89:21.
13. Sjá K&S 107:1-3.
14. *Sálmar,* nr. 11.
15. Joseph Smith átti samskipti við marga spámenn og sendiboða handan hulunnar. Sjá K&S 128:20-21 varðandi þá fáu þeirra sem nefndir eru í ritningunum.
16. *Sálmar,* nr. 11.
17. Sjá K&S 84:19-21.

# Varastu það illa að baki brosandi augnaráðs

**Öldungur Neil L. Andersen**
**í fyrstu sveit hinna sjötíu**

Ég tala nú til ykkar, ungu menn, sem Gordon B. Hinckeley forseti hefur lýst sem „úrvals kynslóð."[1] Við verðum varir við góðleika ykkar. Ég bið þess að þið megið finna að orð mín eru ætluð ykkur persónulega, ykkur sonum Guðs, sem leggið hart að ykkur við að gera það sem rétt er.

Ég ætla að segja ykkur frá nokkru sem trúfastur Síðari daga heilagur upplifði, en hann er góður vinur minn. Ég nefni hann aðeins sem „vin minn" af gildum ástæðum sem þið skiljið.

Þessi vinur minn starfaði sem fulltrúi FBI og rannsakaði skipulagða glæpastarfsemi þeirra sem smygla eiturlyfjum til Bandaríkjanna.

Eitt sinn voru hann og annar fulltrúi á leið í íbúð sem þeir töldu kunnan eiturlyfjasala nýta til að dreifa kókaíni. Vinur minn lýsti atburðarásinni þannig:

„Við börðum á dyr eiturlyfjasalans. Hinn grunaði opnaði dyrnar og þegar hann sá okkur reyndi hann að koma í veg fyrir að við sæjum inn. En það var of seint; við höfðum þegar séð kókaínið á borði fyrir innan.

Karl og kona, sem sátu við borðið, tóku þegar að reyna að koma kókaíninu undan. Við urðum að koma í veg fyrir að þau kæmu sönnunargögnunum fyrir kattarnef, svo ég ýtti hinum grunaða sem stóð í dyrunum til hliðar. Um leið og ég ýtti honum horfðist ég í augu við hann. Undarlegt var að hann leit ekki út fyrir að vera reiður eða hræddur. Hann brosti til mín.

Augnaráð hans og aðlaðandi bros hafði þau áhrif að mér fannst hann meinlaus, svo ég dró mig fljótt í hlé frá honum og hugðist ganga í átt að borðinu. Ég sneri nú baki í hinn grunaða. Á því andartaki fékk ég þetta skýra og sterka hugboð: „Varastu það illa að baki brosandi augnaráðs."

Ég sneri mér strax við, að hinum grunaða. Hönd hans var í stórum framvasa. Ég greip snöggt um hönd hans og kippti henni upp úr vasanum. Þegar hér var komið sá ég að hann hélt þéttingsfast um sjálfvirka skammbyssu, reiðubúinn að hleypa af. Riskingar fylgdu í kjölfarið og mér tókst að afvopna manninn."[2]

Síðar, í öðru glæpamáli, þar sem eiturlyfjasali þessi var sakfelldur fyrir morð, sagði hann kokhraustur að hann hefði hiklaust drepið þennan vin minn, hefði hann ekki snúið sér við í sömu andrá.

Mér verður oft hugsað um orð þessi sem komu í huga hans: „Varastu það illa að baki brosandi augnaráðs." Orð þessi verða umræðuefni mitt nú í kvöld.

Við skulum byrja á því sem við vitum. Gott kemur frá Guði; illt kemur frá djöflinum.[3] Jafnræði er þó ekki með öflum þessum sem takast á í alheimi. Æðstur alls hins góða er Kristur – hann sem er hinn eingetni föðurins, sem skapað hefur heim okkar og fjölda annarra. Lausnari okkar er upprisin og fullkomin vera.[4] Ég veit að hann lifir.

Djöfullinn hins vegar „fær menn til að gjöra illt."[5] „Hann [hefur] fallið af himni ... [hefur] orðið vansæll að eilífu,"[6] og sækist því eftir „að allir menn verði jafn vansælir og hann er sjálfur."[7] Hann er lygari og sá sem býður ósigur.[8]

Mætti frelsarans og mætti djöfullsins er ekki hægt að jafna saman. Það væri líkt og að bera saman öflugasta her á jörðu við óvita vopnaða vatnsbyssum.[9]

Hinu illa hefur hins vegar verið leyft á þessari jörðu að hafa áhrif á okkur til að við eigum þess kost að velja á milli góðs og ills. Ritningin segir: „Guð [gaf]

manninum rétt til að breyta samkvæmt sjálfstæðum vilja, og sjálfstæð gat breytni mannsins aðeins orðið, ef hann léti laðast að annarri hvorri andstæðunni.“[10]

Valið á milli góðs og ills er kjarni þeirrar reynslu sem við öðlumst á jörðu. Þegar líf okkar er skoðað að lokum, skiptir í raun ekki máli hvort við höfum verið rík eða fátæk, hvort við erum íþróttafólk eða ekki, hvort við áttum vini eða vorum afskipt.

Við getum starfað, lært, hlegið og skemmt okkur, dansað, sungið og notið margskonar upplifunar. Þetta er dásamlegur þáttur lífsins, en hann er ekki kjarni tilveru okkar hér.[11] Tækifæri okkar til að velja gott en ekki illt er einmitt tilgangur tilveru okkar hér.[12]

Ekkert okkar myndi segja: „Ég vil velja illt.“ Við viljum öll velja rétt.

Ekki er samt alltaf auðvelt að velja gott fram yfir illt, vegna þess að hið illa dylst oft bak við brosandi augnaráð. Hlustið á þessi aðvörunarorð: „Þér verðið að halda vöku yðar og biðja án afláts, svo að þér fallið ekki í freistni. Því að Satan þráir að eignast yður.“[13] „Satan hefur einnig leitast við að véla yður, svo að hann geti yfirbugað yður.“[14]

Boðskapurinn er þessi: „Varist það illa að baki brosandi augnaráðs!“

Ég hef kynnst nokkrum ungum mönnum sem höfðu þann góða ásetning að vera staðfastir og trúir frelsaranum, en hrösuðu svo síðar á lífsins vegi, því þeir sáu ekki hið illa að baki þess augnaráðs sem virtist meinlaust. Þeir sáu skemmtunina, ánægjuna, viðurkenninguna, en þeir sáu ekki afleiðingarnar.

Hvernig getum við greint hið illa að baki þess sem ekki virðist illt?

Þið vitið svarið nú þegar, en hér er nokkuð til hugleiðingar:

Í fyrsta lagi: Ræðið við foreldra ykkar. Hljómar það byltingarkennt? Við feðurnir vitum að við erum langt frá því að vera fullkomnir, en við elskum ykkur, og höfum, ásamt mæðrum ykkar, mikinn áhuga á að þið veljið rétt.

Næst: Fylgið spámanninum. Þessum 15 mönnum, sem við studdum sem spámenn, sjáendur og opinberara, er veittur guðlegur kraftur til að sjá það sem við sjálf sjáum stundum ekki. Hinckley forseti hefur veitt okkur skýra og skorinorða leiðsögn um „það illa að baki brosandi augnaráðs.“[15] Og svo hafið þið hina innblásnu leiðsögn í bæklingnum „Til styrktar æskunni.“[16] Drottinn hefur lofað, ef þið tileinkið ykkur leiðsögn Hinckleys forseta, að hann muni „dreifa valdi myrkursins frá yður.“[17] Þið munuð sjá „það illa að baki brosandi augnaráðs“ og skírskotun þess mun frá ykkur hverfa.

Afar mikilvægt er að láta heilagan anda leiða ykkur. Drottinn hefur gefið það fyrirheit, að ef við lifum réttlátlega, muni hin kyrrláta og hljóða rödd koma í huga okkar og hjarta.[18] Þið hafið skynjað slík áhrif. Þið þekkið þá rödd.[19]

Gjöf heilags anda er andleg gjöf. Hún er viðkvæm. Þið getið ekki misboðið henni eða leitt hana hjá ykkur einn daginn og vænst þess að hún efli ykkur þann næsta. En eftir því sem þið gefið gaum að hvatningu hennar og eruð réttlátir, mun hún eflast í ykkur. Heilagur andi varaði vin minn við líkamlegri hættu; heilagur andi mun einnig vara ykkur við andlegri hættu.

Að lokum: Öðlist ykkar eigin vitnisburð um frelsarann. Biðjist heitt fyrir. Lesið Mormónsbók í einrúmi. Gefið ykkur tíma í einrúmi til að hugsa um hver Jesús í raun er og á hvaða hátt líf hans og fórn eru ykkur mikilvæg.

Munið eftir fordæmi hins unga Josephs Smith. Þegar hann kveikti á kerti er kvölda tók til að lesa Biblíuna, var það vegna þess að hann þráði það. Þegar hann fór í lundinn til að biðjast fyrir, fór hann einsamall.[20]

Þegar við aukum skilning okkar á frelsaranum og elsku okkar til hans, mun ljós hans lýsa upp allt umhverfi okkar. Við munum þá sjá hið illa eins og það í raun er.[21]

Ég veit að Jesús Kristur er frelsari okkar. Mikilleika hans og dýrð, hátign hans og glæsileika er ekki hægt að lýsa með orðum. Hann birtist spámanninum Joseph Smith ásamt föður sínum. Gordon B. Hinckley forseti er spámaður Guðs á þessum tíma. Bræður, við höfum hans heilaga prestdæmi. Þegar við erum verðugir, munum við blessaðir og „sjá það illa að baki brosandi augnaráðs." Um það vitna ég í nafni Jesú Krists, amen.

HEIMILDIR


1. Gordon B. Hinckley, "A Chosen Generation," *Ensign*, maí 1992.
2. Persónulegt bréf, dagsett 7. mars 2005.
3. Sjá Moró 7:12.
4. Sjá Jóh 1:14, K&S 76:23–24, Lúk 24:36–39, 3 Ne 12:48.
5. Moró 7:17.
6. 2 Nefí 2:18.
7. 2 Nefí 2:27.
8. K&S 93:25, sjá einnig Bible Dictionary, "Devil."
9. Sjá HDP Móse 1:1–22.
10. 2 Nefí 2:16.
11. Gordon B. Hinckley, "The First Presidency Message: A Prophet's Counsel and Prayer for Youth," *Ensign*, janúar 2001; "Converts and Young Men," *Ensign*, maí 1997; "Living Worthy of the Girl You Will Someday Marry," *Ensign*, maí 1998.
12. Sjá 2 Ne 2:27.
13. 3 Nefí 18:18.
14. K&S 50:3.
15. Gordon B. Hinckley, "The First Presidency Message: A Prophet's Counsel and Prayer for Youth," Ensign, janúar 2001.
16. Sjá lds.org/serving in the Church/Aaronic Priesthood Young Men/For the Strength of Youth.
17. K&S 21:6.
18. Sjá K&S 6:2.
19. Sjá K&S 18:36.
20. Sjá Joseph Smith – Saga 1:11–20.
21. Sjá HDP Móse 1:1–22.

# Hver er Drottins megin?

**Öldungur Robert C. Oaks**
**í forsætisráði hinna sjötíu**

Nú í kvöld ætla ég tengja mál mitt kærum líflegum sálmi sem er kall til þjónustu: „Hver er Drottins megin? Nú mun á það reynt.“ (Hymns, nr. 260)

Á þessari ráðstöfun í fyllingu tímans, er við búum okkur undir síðustu orrustuna við óvininn og væntum þess að Kristur komi að nýju til jarðar, er afar mikilvægt að vita hver er Drottins megin. Drottinn þarf að vita á hvern hann getur reitt sig.

Við væntum þess að allir prestdæmshafar fylki liði og verði með í þjónustu Drottins. Í kirkjunni eru nú um þrár milljónir prestdæmishafa, sem deilast jafnt niður á Aronsprestdæmið og Melkísedeksprestdæmið.

Því miður er alltof margra meðal þessara ungu og eldri manna saknað, fjarverandi án leyfis.

Einu sinni sátu þeir auðmjúkir meðan menn sem til þess höfðu vald lögðu hendur yfir höfuð þeirra og veittu þeim prestdæmið. Þann dag gerðu þeir allir sáttmála við Drottin um að hlýða og þjóna honum.

Til að skilja mikilvægi þessara sáttmála þurfum við að spyrja sjálfa okkar: „Hvað er prestdæmið?“ Hver árvakur djákni veit svarið við spurningu þessari: Prestdæmið er valdið til að starfa í nafni Guðs.

Hver er merking þessa í augum ykkar djákna, kennara og presta? Í fyrsta lagi merkir það að þið hafið valdsumboð til að undirbúa og blessa sakramentið og útdeila því. Er þetta mikilvægt? Vissulega!

Hver þjónustaði fyrsta sakramentið samkvæmt okkar heimildum? Svarið er auðvitað Drottinn Jesús Kristur. Kvöldið fyrir þjáningar hans í Getsemanegarðinum tilreiddi Kristur sakramentið fyrir lærisveina sína, blessaði það og útdeildi til þeirra. Þegar við því framkvæmum þessa helgiathöfn erum við í raun fulltrúar sjálfs frelsarans. Það er sérstakt!

Jóhannes skírari lagði hendur sínar á höfuð Josephs Smith og Olivers Cowdery og veitti þeim Aronsprestdæmið með þessum orðum: „ ... [Ég] ... veiti ... Aronsprestdæmið, sem hefur lykla að þjónustu engla og fagnaðarerindi iðrunar og niðurdýfingarskírn til fyrirgefningar syndanna ... “ (K&S 13:1) Þetta er þýðingarmikil ábyrgð fyrir menn á öllum aldri. Ábyrgð þessi vísar til þess að við séum örugglega Drottins megin.

Hvað með Melkísedeksprestdæmið? Í 84. kafla í Kenningu og sáttmálum segir: „Og þetta æðra prestdæmi framkvæmir fagnaðarerindið og heldur lyklinum að leyndardómum ríkisins, já, lyklinum að þekkingu Guðs.“ (K&S 84:19) Prestdæmi þetta hefur valdið til að stjórna og leiða, til að blessa og lækna, kenna og innsigla. Slík prestdæmisþjónusta setur þá bræður sem hana inna af höndum örugglega Drottins megin.

Eitt besta dæmið um innsiglunarvald prestdæmisins er það sem veittist Nefí, syni Helamans. Hann var kosgæfinn við að boða orð Guðs og því veitti Drottinn honum innsiglunarvaldið og sagði: „ ... Hvað, sem þú bindur á jörðu, skal bundið vera á himni, og hvað, sem þú leysir á jörðu, skal leyst á himni ...“ (Helaman 10:7). Nefí hefði verið máttugur leiðtogi í sveit Drottins á öllum ráðstöfunartímum.

Hve mikið traust himneskur faðir sýnir okkur með því að deila með okkur hluta af valdi sínu, svo við getum aðstoðað hann í hans mikla verki, er því miðar áfram við að fylla jörðina.

Veitið athygli hversu vandlega við höfum verið fræddir um hvernig veita á prestdæmisvald. Þegar ég varð 12 ára lögðu faðir minn, Charles Oaks, og biskupinn minn, George Collard, hendur á höfuð mitt, veittu mér Aronsprestdæmið og vígðu mig sem djákna.

Mörgum árum síðar vígði öldungur Gordon B. Hinckley mig sem einn hinna sjötíu á þennan sama máta. Hver vígsla endurspeglar aukið guðlegt traust og nýtt tækifæri til að þjóna Drottins megin.

Orrustur í skipulögðum hersveitum fara yfirleitt fram á stórum opnum svæðum. En baráttan um sálirnar er nokkuð frábrugðin. Sú barátta er háð á degi hverjum í lífi hins einstaka og sveitir Drottins standa gegn afli Satans, sem er ágirnd, eigingirni og losti.

Hér getum við séð fyrir okkur hina 2060 ungu hraustu stríðsmenn Helamans, snúa bökum saman, og endurspegla hinn mikla líkamsstyrk sem þarf til að ganga í sveit þeirra. En þörf er fyrir hvern þolgóðan í þessari baráttu.

Við hjónin eigum 11 ára gamlan sonarson sem heitir Andrew. Hann verður líklega bundinn hjólastól það sem hann á eftir lifað. Hann verður vígður sem djákni í haust og gengur til liðs við prestdæmishersveit Drottins. Líkamleg fötlun hans mun ekki há honum í þeirri baráttu, því bestu vopnin sem völ er á eru ekki spjót eða sverð sem beitt er á tryllingslegum orrustuvelli.

Vopnin eru öllu heldur eilífs eðlis og samanstanda af alvæpni Guðs, sem er *sannleikur, réttlæti, trú, bæn* og *orð Guðs*. (Ef 6:13–18) Vopnum þessum er beitt á huga okkar, tungu og málstað. Allar réttlátar hugsanir, orð og verk, eru vopn í höndum Drottins.

Þetta er ástæða þess að Andrew á ekki við fötlun að stríða í þessari baráttu. Foreldrar hans hafa veitt honum góða kennslu. Hann er reiðubúinn að ganga til liðs við prestdæmissveitir bræðranna.

Gríðarlega mikið er í húfi. Gjaldið sem um ræðir er sálir sona og dætra Guðs, eilíf sáluhjálp þeirra. Og þessar sálir eru hólpnar eða glataðar á grundvelli dyggðar og hreinleika, á grundvelli kærleika og þjónustu og á grundvelli trúar og vonar.

Andrew mun ganga til liðs við djáknasveit í heimadeild sinni. Þar verður honum kennt að útdeila sakramentinu og safna saman föstufórnum. Þar verður borin umhyggja fyrir honum, því um það snúast prestdæmissveitir – að láta sér annt hver um annan. Prestdæmisherflokkur Drottins eru í raun skipulagður í sveitir.

Stóran hluta ævinnar var ég flugmaður í lofther Bandaríkjanna. Hér getið þið séð eina minna flugsveita á leið í orrustu. Þessir menn eru samheldnir og hafa haldið hópinn í 40 ár, allt til þessa tíma.

Í þjálfun okkar sem orrustuflugmanna, var fyrsta og mikilvægasta reglan sú að „hugsa um hliðarflugmanninn. Að ganga stöðugt úr skugga um að enginn óvinur væri að læðast aftan að honum."

Sé það góður siður að vernda samferðaflugmann orrustusveitar, er enn betra að vernda meðlimi prestdæmissveitar og vera nærri þeim í þeirri viðleitni að vera stöðugir Drottins megin. Við ættum að hafa áhuga á að leita þeirra þegar þeir leiðast afvega.

Nú á tímum er sérstaklega mikilsvert að vera stöðugur Drottins megin. Spámaður okkar bendir reglubundið á að nú séu efstu dagar. Okkur er ljóst af tímanna táknum að endirinn er nærri. Satan veit það líka. Hann og sveitir hans virðast aldrei una sér hvíldar.

Gordon B. Hinckley forseti ræddi á alheimsþjálfunarfundi leiðtoga um það siðleysi sem veður uppi í heiminum: „Ég veit ekki hvort ástandið hefur verið verra á tíma Sódómu og Gómorru."

Og hann sagði einnig: „Borgunum og ranglátum íbúum þeirra var gereytt. Við verðum vör við líkt ástand nú á tímum. Það er hvarvetna útbreitt um heiminn. Ég tel að faðir okkar hljóti að tárfella er honum verður litið á hve þrjóskufull synir hans og dætur eru.“

Ég veit ekki hve mikið meira spámaður okkar þarf að segja okkur til aðvörunar.

Öldungur Dallin H. Oaks sagði nýlega í aðalráðstefnuræðu: „Þessi tákn síðari komunnar eru allt í kringum okkur og virðast verða tíðari og kröftugri. ... Þótt við getum á engan hátt breytt staðreyndinni um síðari komuna og getum ekki vitað nákvæman tíma hennar, getum við aukið okkar eigin undirbúning og reynt að hvetja til undirbúnings þeirra sem með okkur eru.“ Hann sagði einnig: „Við þurfum að búa okkur bæði stundlega og andlega undir þá atburði sem spáð hefur verið að verði við síðari komuna.“ (Aðalráðstefna, apríl 2004)

Og aðvörunarorð þessi bárust vel fyrir hina fordæmislausu eyðileggingu fellibylja á Karíbaeyja svæðinu og Tsunami hörmungarnar í Austur-Asíu.

Í sálmi okkar „Hver er Drottins megin,“ eru einnig þessi aðvörunarorð til okkar: „Nú mun á það reynt.“ Nú er sá tími er við þurfum að standa fastir fyrir í trú okkar og grundvallarreglum, líkt og Moróní hershöfðingi gerði. Djáknar, kennarar, prestar, biskupar, öldungar, háprestar og patríarkar, *núna* er þörf fyrir okkur. Núna er tími til að sýna þakklæti okkar fyrir friðþægingu Drottins Jesú Krists. Nú er tími til að sýna í verki trú okkar með því að hlýða grundvallarboðorðum líkt og skírlífislögmálinu og tíundarlögmálinu, Vísdómsorðinu og að halda hvíldardaginn heilagan.

Nú er tími til að aðvara náunga okkar með því að miðla þeim boðskap fagnaðarerindisins. Nú er tíminn til að sýna heiminum fordæmi velsæmis og hógværðar, fordæmi dyggðar og hreinleika. Við megum aldrei sóa prestdæmiskrafti okkar í þann eyðandi óþverra og viðbjóð sem klámið er.

Nú er tími til að endurskoða þá sáttmála sem við höfum gert við Drottin í skírnarvatninu, þá sáttmála sem við gerðum er við tókum á okkur eið og sáttmála prestdæmisins og þá sáttmála sem við höfum gert í hans heilaga musteri.

Nú er vissulega tími til að sýna að við séum Drottins megin.

Bræður, þetta er verk hans. Fagnaðarerindi Jesú Krists hefur verið endurreist í fyllingu sinni á þessum efstu dögum, fyrir tilstilli spámannsins Josephs Smith. Kristur er höfuð þessarar kirkju og leiðir hana áfram með lifandi spámanni sínum, Gordon B. Hinckley. Kristur mun koma til að ríkja á jörðu og einn daginn munum við hver og einn standa frammi fyrir honum til að hljóta dóm byggðan á hugsunum okkar, verkum og hjartans þrám. Hann er frelsari okkar og lausnari, um það ber ég vitni í hans heilaga nafni, amen.

# Þolgæði

**James E. Faust forseti**
**annar ráðgjafi í Æðsta forsætisráðinu**

Kæru bræður í hinu mikla alheimsbræðralagi prestdæmisins, við lofum trúfestu ykkar og hollustu við verk Drottins. Við þökkum skyldurækni ykkar og dygga þjónustu. Þið eruð kirkjunni mikill styrkur.

Það er dásamlegt að vera á þessum fundi með ykkur öllum Aronsprestdæmisbræðrum. Þegar ég var á ykkar aldri hugleiddi ég oft: „Hver verður staður minn í þessum heimi, og hvernig finn ég hann?“ Á þeim tíma var næstum eina ákveðna markmið mitt að þjóna í trúboði. Þegar trúboðsköllun mín kom þjónaði ég, og trúboð mitt varð mér sem Pólstjarna er vísaði mér leið til annarra verkefna í lífi mínu. Eitt af því mikilvæga sem ég lærði var, að ef ég sýndi þolgæði í kirkjuköllunum, myndi Drottinn opna mér leið og leiða mig til annarra tækifæra og blessana, jafnvel ofar draumum mínum.

Ungu menn, trúboðsþjónusta getur gert þetta fyrir ykkur alla. Piltur einn sagði mér nýlega frá því hve mikið hann hefði lært um þolgæði í trúboðstarfi sínu. Af reynslu hans tók ég saman nokkuð af því sem þið getið lært og fært gæti ykkur tækifæri og blessanir:

1. Hvernig skipuleggja á tíma sinn skynsamlega.
2. Mikilvægi þess að leggja hart að sér – að þið uppskerið eins og þið sáið.
3. Leiðtogahæfni.
4. Almenn hæfni.
5. Gildi trúarnáms.
6. Virðing fyrir valdhöfum.
7. Mikilvægi bænarinnar.
8. Auðmýkt og traust á Drottni.[1]

Þegar ég var í Granite menntaskólanum í Salt Lake City á fjórða áratug síðustu aldar átti ég nokkra vini sem sköruðu fram úr í íþróttum, leiklist, tónlist og ræðumennsku. Sumum þeirra vegnaði vel í lífinu, en margir af þessum vel gefnu og færu ungu mönnum sýndu ekki þolgæði og náðu ekki mögulegu marki sínu. En minna áberandi piltar og stúlkur í sama skóla unnu aftur á móti kappsamlega, af þolgæði, héldu áfram námi sínu og urðu framúrskarandi læknar, verkfræðingar, kennarar, lögfræðingar, vísindamenn, viðskiptamenn, listamenn, rafvirkjar eða aðrir iðnaðarmenn og forstjórar.

Velgengni næst yfirleitt með þolgæði, að gefast ekki upp þótt á móti blási. Paul Harvey, frægur fréttamaður og rithöfundur sagði eitt sinn: „Einhvern tíma vona ég að ég nái því sem heimurinn kallar velgengni, og einhver spyrji mig: 'Hver er leyndardómurinn?' Ég mun einfaldlega svara: 'Ég rís á fætur þegar ég hrasa.'“[2]

Ágætt dæmi um þolgæði er frú Marie Curie sem vann með manni sínum, franska eðlisfræðingnum Pierre Curie, „í gömlum og hriplekum skúr, peningalaus, án nokkurrar hvatningar eða hjálpar, og reyndi að einangra radíum úr lélegu úran sem nefnist bikblendi. Og eftir að 487. tilraunin hafði mistekist fórnaði Pierre höndum í örvæntingu og sagði: 'Það tekst aldrei. Kannski eftir heila öld, en ekki á minni ævi.' María horfði á hann ákveðin á svip og sagði: 'Ef það tekur heila öld, þá er það slæmt, en ég hætti ekki meðan ég lifi.'“[3] Henni lánaðist þetta að lokum og krabbameinssjúklingar hafa stórlega notið góðs af þolgæði hennar.

Menn sýna þolgæði er þeir halda áfram þegar erfiðlega gengur, gefast ekki upp þegar aðrir segja: „Þetta er ekki hægt.“ Árið 1864 sendi Æðsta forsætisráðið postuluna Ezra T. Benson og Lorrenzo Snow, ásamt öldungi Alma Smith og William W. Cluff, til trúboðsstarfa á Hawaii-eyjum. Frá Honolulu fóru þeir á smábát til litlu hafnarinnar í Lahaina. Þegar þau nálguðust rifið, var brimið mikið og mikil alda lenti á bátnum, bar hann tæpa 50 metra og skyldi hann eftir milli tveggja hárra alda. Þegar seinni aldan skall á bátnum hvolfdi honum í ólgandi sjónum.

Áhöfnin kom á flot björgunarbát og náði þremur bræðranna sem voru á sundi nálægt sökkvandi bátnum. En ekkert sást til bróður Snows. Hawaiibúarnir sem vanir voru briminu syntu í allar áttir í leit að honum. Að lokum fann einn þeirra eitthvað í vatninu og dró bróður Snow upp á yfirborðið. Líkami hans var allur stífur og hann virtist látinn þegar þeir drógu hann upp í bátinn.

Öldungur Smith og öldungur Cluff lögðu líkama bróður Snows á hné sér og þjónustuðu hann, báðu Drottin að bjarga lífi hans svo að hann gæti snúið aftur heim til fjölskyldu sinnar. Þegar þeir komu að landi báru þeir bróður Snow að nokkrum tómum tunnum sem lágu á ströndinni. Þeir lögðu hann á grúfu, veltu honum fram og aftur, til að ná upp vatni sem hann hafði gleypt.

Eftir að hafa haldið þessu áfram nokkra hríð, án nokkurs lífsmarks, sögðu viðstaddir að ekkert meira væri hægt að gera fyrir hann. En ákveðnir öldungarnir vildu ekki gefast upp. Þeir báðust því fyrir aftur, í hljóðlátri fullvissu um að Drottinn myndi heyra bænir þeirra og svara þeim.

Þeir fundu sig knúna til að gera nokkuð sem óvenjulegt var á þeim tíma. Annar þeirra lagði munn sinn yfir munn bróður Snows og reyndi að blása í lungu hans, blása og draga inn andann til skiptis, líkja eftir aðlilegum andardrætti. Með þolgæði skiptust þeir á þar til þeim tókst að blása lofti í lungu hans. Skömmu síðar fundu þeir örlítið lífsmark. „Smátitringur á auga, sem fram að þessu hafði verið opið og starandi, og dauft hljóð úr hálsi voru fyrsti votturinn um líf. Þetta varð smátt og smátt greinilegra þar til full meðvitund náðist.“ Með þolgæði sínu og hjálp forsjónarinnar, gátu allir þessir fjórir þjónar Drottins lokið trúboðsstarfi sínu.[4] Öldungur Snow varð síðar forseti kirkjunnar. Meðan hann sat í því embætti rétti hann við fjárhag kirkjunni með því að hvetja kirkjuþegna til greiðslu tíundar og fórnargjafa.

Ykkur bræðrum þætti kannski gaman að vita að Alma Smith sem um getur í sögunni var drengurinn sem fékk skot í mjöðm við Haun's Mill, sem skaddaði mjaðmalið og skál. Móðir hans bar áburð á sárið og henni var blásið í brjóst að láta hann liggja á grúfu í fimm vikur. Sveigjanlegt brjósk óx í stað liðar og skálar svo að hann gat ekki aðeins lifað eðlilegu lífi, heldur einnig gegnt trúboðsstarfi á Hawaii og þjónað kirkjunni ævilangt.

Síðari daga spámenn okkar eru allir gott dæmi um festu í prestdæminu, bænir og vinnu. Þolgæði Josephs Smith gerði endurreisn allra hluta mögulega. Alla ævi var hann hæddur og fyrirlitinn – allt frá því að hann í fyrsta sinn sagði prédikara virtrar kirkju frá fyrstu sýn sinni. En hann gafst aldrei upp og lét okkur eftir óhagganlegan vitnisburð:

„Ég hafði raunverulega séð ljós og í ljósinu miðju hafði ég séð tvær verur, og þær höfðu raunverulega ávarpað mig. Og þótt ég væri hataður og ofsóttur fyrir að segja, að ég hefði séð sýn, þá var það samt satt. ... Ég hafði séð sýn. Ég vissi það, og ég vissi að Guð vissi það, og ég hvorki gat neitað því né þorði að gera það.“[5]

Líf Brighams Young var dæmigert um þolgæði. Hann var alltaf staðfastur og ákveðinn. Eftir lát Josephs Smith, hafði hann kjark og dug til að flytja 60.000 manns frá notalegum heimilum sínum og frjósömum löndum til óbyggða þar sem enginn hafði áður sáð eða hlotið nokkurs konar uppskeru. Þessi mikla brottför á engan sinn

líka í nútíma sögu. Þau koma á vögnum, gangandi og dragandi handvagna. Hann og fylgjendur hans létu eyðumörkina blómstra sem rós.

Á fyrsta blaðamannafundinum þegar Gordon B. Hinckley forseti var kynntur sem forseti kirkjunnar árið 1995, var hann spurður að því hver yrði helsta áhersla hans. Hann svaraði: „Að halda áfram. Já. Við leggjum áherslu á að halda áfram því mikla verki sem fyrirrennarar okkar hafa unnið.“[6] Það er aðalverkefni okkar allra. Við þurfum að halda áfram og standa stöðug allt til enda.

Einn aðalárangurinn undir stjórn Hinckleys forseta hefur verið einstakt þolgæði hans við byggingu mustera. Síðan hann varð forseti kirkjunnar hafa 87 musteri verið vígð. Þessi undursamlegi árangur við musterisbyggingar er einstæður í allri veraldarsögunni. Musterin hafa mikil áhrif til góðs og eru heiminum til blessunar í síauknum mæli. George Q. Cannon sagði: „Hver hornsteinn sem að musteri er lagður, og hvert musteri sem fulllokið er samkvæmt þeirri reglu sem Drottinn hefur opinberað sínu heilaga prestdæmi, dregur úr krafti Satans á jörðu og eykur kraft Guðs og guðleikans, bifar himnunum af máttugu afli í okkar þágu, vekur og kallar yfir okkur blessanir eilífra Guða og þeirra sem lifa í návist þeirra.“[7]

Allir ættum við að þjóna staðfastir og dyggir í prestdæmisköllunum okkar til æviloka. Sumir kunna að spyrja: „Hve lengi þarf ég að vera heimiliskennari?“ Svar mitt er að heimiliskennsla er prestdæmisköllun. Að þjóna í köllun heimiliskennara er forréttindi á meðan biskup okkar og prestdæmisleiðtogar telja að við getum gert það. Sumir þekktum við bróður George L. Nelson, kunnan lögfræðing í Salt Lake City, en hann þjónaði sem biskup, stikuforseti og patríarki. Hann sýndi kirkjunni fullkomna skyldurækni. Hann var heimiliskennari 100 ára gamall. Hann sagði eitt sinn: „Mér finnst gott að vera heimiliskennari. Ég vona að ég geti alltaf verið heimiliskennari.“[8] Hann dó 101 árs og var trúr allt til enda.

Drottinn biður þá sem þrá að láta skírast inn í kirkjuna að vera „ákveðnir í að þjóna honum allt til enda.“[9] Joseph Fielding Smith, 94ra ára, sagði: „Ég hef reynt alla mína ævi að efla köllun mína í því prestdæmi og vonast til að standast allt til loka þessa lífs og njóta samfélags trúfastra heilagra í komanda lífi.“[10] Eða eins og Drottinn sagði, ef við ætlum að vera lærisveinar hans verðum við að halda áfram að fylgja orði hans.[11] Drottinn hefur blessað kirkjuna og þegna hennar á undursamlegan hátt vegna staðfestu þeirra og þolgæðis. Ég ber vitni um heilagleika prestdæmisverksins, í nafni Jesú Krists, amen.

HEIMILDIR


1. Dan Kartchner.
2. Tilvitnun í Marvin J. Ashton, “Give with Wisdom That They May Receive with Dignity,” *Ensign*, nóv. 1981, 89.
3. Sterling W. Sill, í Conference Report, okt. 1974, 86; eða “Transfusion,” *Ensign*, nóv. 1974, 62.
4. Tekið úr “Thou Shalt Have Long Life” by Le Roi C. Snow, Improvement Era, 1941,, Xliv. bindi okt. 1941, nr. 10.
5. JS – S 1:25.
6. Jeffrey R. Holland, “Stalwart and Brave He Stands,” *Ensign*, júní 1995, 2–3.
7. „The Logan Temple,“ *Millennial Star*, 12. nóv. 1877, 743.
8. Eftir Elinor G. Hyde, Church News Contributor, “At 100 Years Old, He's Faithful Home Teacher, *Church News*, 1998, 06/06/98.
9. K&S 20:37.
10. Joseph Fielding Smith, í Conference Report, okt. 1970, 92; eða Improvement Era, des. 1970, 27.
11. Sjá Jóh 8:31.

# Hið helga kall til þjónustu

**Thomas S. Monson forseti**
**fyrsti ráðgjafi í Æðsta forsætisráðinu**

Bræður mínir, ég hef þann heiður og forréttindi að tala til ykkar í kvöld. Hvílík gleði að sjá stórkostlega Ráðstefnuhöllina troðfulla af ungum og öldnum, sem hafa prestdæmi Guðs. Þegar ég geri mér ljóst að samskonar hópar eru samankomnir vítt um heim finn ég yfirþyrmandi ábyrgðartilfinningu. Ég bið þess að innblástur frá Drottni stjórni huga mínum og orðum.

Joseph F. Smith forseti gaf eftirfarandi yfirlýsingu varðandi prestdæmið. Hann sagði: „Hið heilaga prestdæmi er það vald sem Guð hefur útdeilt til manna, og með því geta þeir sagt til um vilja Guðs. ... Það er heilagt, og fólkið verður að virða það sem heilagt. Það á að heiðra það og virða hver svo sem hefur það.“ 1

Eiður og sáttmáli prestdæmisins varðar okkur alla. Fyrir okkur sem höfum Melkísedeksprestdæmið, er það yfirlýsing og krafa um að vera trúfastir og hlýðnir lögmálum Guðs og að efla þær kallanir sem okkur falla í skaut. Fyrir þá sem hafa Aronsprestdæmið, er það yfirlýsing um verðandi skyldur og ábyrgð, svo að þeir geti undirbúið sig hér og nú.

Marion G. Romney forseti, fyrrum ráðgjafi í Æðsta forsætisráðinu, sagði: „Sérhver Melkísedeksprestdæmishafi ætti af kostgæfni og alvöru að fara eftir þessum eiði og sáttmála sem hann hefur tekið á móti. Mistakist manni að uppfylla skyldurnar sem honum fylgja mun það leiða til vonbrigða, sorgar og þjáningar.“[2]

Spencer W. Kimball forseti bætti við: „Maður rýfur prestdæmissáttmálann með því að brjóta boðorðin – en einnig með því að sinna ekki skyldum sínum. Til að rjúfa þann sáttmála þarf maður þar af leiðandi aðeins að gera ekkert.“[3]

Þekktur prestur komst svo að orði: „Menn munu leggja hart að sér fyrir peninga. Menn munu leggja enn harðara að sér fyrir aðra menn. En allra harðast munu menn leggja að sér þegar þeir hafa helgað sig málstað. ... Skylda er aldrei réttilega leyst af hendi nema hana framkvæmi sá sem glaður mundi gera meira, ef hann bara gæti.“[4]

Að gera skyldu sína færir hamingju og frið. Skáldið orti:

> Ég svaf og mig dreymdi að lífið væri gleði.
> Ég vaknaði og sá að lífið var skylda.
> Ég framkvæmdi, og sjá –
> skyldan var gleði.“[5]

Skyldukallið getur komið kyrrlátlega þegar við sem höfum prestdæmið sinnum þeim verkefnum sem okkur eru falin. George Albert Smith forseti, sá hógværi og jafnframt árangursríki leiðtogi, sagði: „Það er frumskylda þín að komast að hvað Drottinn vill og síðan með krafti og styrk þíns heilaga prestdæmis að efla svo köllun þína frammi fyrir meðbræðrum þínum að fólkið fylgi þér fúslega.“

Hvað táknar það að efla köllun? Það táknar að auka virðingu hennar og mikilvægi, að gera hana heiðvirða og lofsverða í augum allra manna, að stækka hana og styrkja, að láta ljósið frá himnum skína í gegnum hana í augsýn annarra manna.

Og hvernig eflir maður köllun sína? Einfaldlega með því að framkvæma þá þjónustu sem tilheyrir henni. Öldungur eflir hina vígðu köllun öldungs með því að læra hverjar skyldur hans sem öldungs eru og síðan framkvæma þær. Eins og með

öldunginn, svo er og um djáknann, prestinn, biskupinn, og hvern þann sem hefur embætti í prestdæminu.

Skáldið og rithöfundurinn Robert Louis Stevenson segir okkur: „Ég veit hvað ánægja er, því ég hef unnið gott verk.“

Bræður, minnumst ráðgjafar Benjamíns konungs: „Þegar þér eruð í þjónustu meðbræðra yðar, eruð þér aðeins í þjónustu Guðs yðar.“[6]

Reynum að ná til þeirra sem svo mjög þarfnast hjálpar okkar og lyftum þeim á æðri leið og betri veg. Einbeitum okkur að þörfum prestdæmishafa og eiginkonum þeirra og börnum sem vikið hafa af leið. Mættum við hlusta á hin þöglu boð frá hjarta þeirra. Þið munuð kannast við hann: „Leið mig, viltu vísa mér á veg sem treysta má. Kenn mér allt sem get ég gert, svo Guði verði ég hjá.“[7]

Endurvirkjunarstarfið er ekki fyrir iðjuleysingja eða draumóramenn. Börnin vaxa, foreldrar eldast, og tíminn stendur ekki í stað. Frestið ekki að fara eftir hugboðum; fylgið þeim heldur strax og Drottinn mun opna ykkur leið.

Oft er þörf fyrir hina himnesku dyggð, þolinmæðina. Sem biskup fékk ég hugboð um að ég ætti að heimsækja mann sem átti konu og börn er voru nokkuð virk í kirkjunni. Maðurinn hafði á hinn bóginn aldrei komið. Það var á heitum sumardegi að ég barði að dyrum hjá Harold G. Gallacher. Ég sá bróður Gallacher fyrir innan sitja í stól sínum niðursokkinn í dagblaðið. „Hver er þar?“ spurði hann, án þess að líta upp.

„Biskupinn þinn,“ svaraði ég. „Ég er kominn til að kynnast þér og hvetja til að þú mætir með fjölskyldu þinni á samkomur okkar.“

„Nei, ég hef of mikið að gera,“ sagði hann háðslega. Hann leit aldrei upp. Ég þakkaði honum fyrir að hlusta á mig og hvarf frá dyrunum.

Gallacher-fjölskyldan flutti skömmu síðar til Kaliforníu. Árin liðu. Ég var þá í Tólfpostulasveitinni og sat á skrifstofu minni dag nokkurn þegar ritari minn hringdi, og sagði: „Bróðir Gallacher sem einu sinni var í þinni deild óskar eftir að tala við þig.

Ég svaraði: „Spurðu hann hvort nafn hans sé Harold G. Gallacher, sem ásamt fjölskyldu sinni, bjó í Vissing Place á West Temple og Fifth South.“

Hún sagði: „Sá er maðurinn.“

Ég bað hana að vísa honum inn. Við áttum ánægjulegt samtal um fjölskyldu hans. Hann sagði við mig: „Ég er kominn til að biðjast afsökunar á að hafa ekki staðið upp úr stólnum mínum og boðið þér inn þennan sumardag fyrir svo mörgum árum.“ Ég spurði hann hvort hann væri virkur í kirkjunni. Brosandi svaraði hann: „Ég er annar ráðgjafi í biskupsráði deildar minnar. Boð þitt um að ég mætti í kirkju, og neikvæð viðbrögð mín, leituðu svo mjög á mig að ég ákvað að gera eitthvað í málinu.“

Harold og ég hittumst nokkrum sinnum áður en hann lést. Gallaghers-fjölskyldan og börn þeirra sinntu mörgum köllunum í kirkjunni.

Stephen L. Richards forseti, sem þjónaði sem ráðgjafi Davids O. McKay forseta, lýsti yfir: „Prestdæmið er yfirleitt einfaldlega skilgreint sem ‘kraftur Guðs veittur manninum.’“ Hann heldur áfram: „Ég álít þessa skilgreiningu vera rétta. En af praktískum ástæðum vil ég skilgreina prestdæmið út frá þjónustu þess, og oft kalla ég það ‘hina fullkomnu áætlun um þjónustu.’ Það er þjónustuverkfæri, og maðurinn sem lætur hjá líða að nota það er líklegur til að glata því, þar sem okkur er skilmerkilega sagt með opinberun að sá sem vanrækir það ‘muni ekki talinn verðugur þess að standast.’“[8]

Nú í janúar átti ég þess kost að verða vitni að merkilegu þjónustuverki í lífi konu sem búið hafði í deildinni minni þegar ég þjónaði sem biskup fyrir mörgum árum. Nafn hennar er Adele, og hún og tvær uppkomnar dætur hennar – en önnur þeirra er fötluð – hafa búið árum saman á Rose Park-svæðinu í Saltvatnsdalnum.

Adele, sem er ekkja, hefur átt við fjárhagserfiðleika að stríða, og líf hennar oft verið erfitt.

Ég hafði fengið upphringingu frá einstaklingi sem tekur þátt í starfi Gingerbread House Project, og mér boðið að vera við afhjúpun á húsi Adele, en að endurbyggingu þess höfðu margir vinsamlegir og örlátir einstaklingar unnið í sjálfboðavinnu og lokið á innan við þremur sólarhringum og var unnið með efni sem mörg fyrirtæki á staðnum gáfu. Meðan endurnýjun hússins stóð yfir, höfðu Adele og dætur hennar tvær verið gestir í borg í nokkurri fjarlægð og þar verið dekrað við þær.

Ég var viðstaddur þegar límósínan sem flutti Adele og dæturnar kom á staðinn. Hópurinn sem beið eftir þeim samanstóð ekki bara af fjölskyldu og vinum heldur einnig mörgum af þeim iðnaðarmönnum sem unnið höfðu dag og nótt við verkefnið. Greinilegt var að þeir voru ánægðir með árangurinn og spenntir að sjá viðbrögð Adele og dætra hennar.

Konurnar stigu út úr bílnum, með bundið fyrir augu. Hversu skemmtileg stund það var þegar bindin voru tekin frá augum þeirra og Adele og dæturnar sneru sér við og sáu sitt nýja heimili. Þær voru yfir sig hrifnar af því stórkostlega verki sem unnið hafði verið, þar á meðal endurhönnun framhliðarinnar, stækkun á sjálfu húsinu og nýju þaki. Að utan var það sem nýtt og óaðfinnanlegt. Þær brustu í grát.

Ég fylgdi Adele og öðrum inn í húsið og við dáðumst að endurbótum og fegrun hússins að innan. Veggir höfðu verið málaðir, skipt um gólfefni. Nýr húsbúnaður, ný gluggatjöld, ný veggtjöld. Skipt hafði verið um eldhúsinnréttingu; nýtt eldhúsborð og ný tæki. Allt húsið hafði verið yfirfarið ofan frá og niður úr, hvert herbergi hreint og fagurt. Adele og dætur hennar voru bókstaflega yfirbugaðar. Þó var ekki síður áhrifaríkt að sjá svipinn á andlitum þeirra sem unnið höfðu af svo miklu kappi við að endurnýja húsið. Þeir táruðust þegar þeir urðu vitni að þeirri gleði sem þeir höfðu veitt Adele og dætrum hennar. Ekki aðeins hafði byrði ekkju verið gerð léttari, heldur hafði það samtímis snert líf fjölmargra annarra. Allir urðu betra fólk fyrir að hafa tekið þátt í verkinu.

Harold B. Lee forseti, einn af hinum miklu kennurum kirkjunnar, veitti okkur auðskiljanlega ráðgjöf varðandi prestdæmið: „Sjáið þið til, þegar einhver gerist prestdæmishafi, verður hann fulltrúi Drottins. Hann ætti að hugsa um köllun sína eins og hann gangi erinda Drottins.“[9]

Nú kunna sumir ykkar að vera feimnir að eðlisfari og líta svo á að þið séuð ekki hæfir til að taka á móti köllun. Minnist þá þess að þetta verk er ekki bara ykkar og mitt verk. Það er verk Drottins, og þegar við erum erindrekar Drottins, eigum við rétt á hjálp Drottins. Minnist þess að Drottinn mótar bakið sem byrðina ber.

Þar sem formleg kennslustofa kann stundum að sýnast uggvænleg, fer sum árangursríkasta kennslan fram á öðrum stöðum en í kapellunni eða skólastofunni. Vel minnist ég þess þegar að vori fyrir nokkrum árum þeir meðlimir deildar minnar og nærliggjandi deildar sem höfðu Aronsprestdæmið, hlökkuðu mjög til árlegrar útilegu til að minnast endurreisnar Aronsprestdæmisins. Við þetta sérstaka tækifæri ferðuðumst við í langferðabíl um 150 kílómetra leið norður til Clarkston, Utah kirkjugarðsins. Þar, í kyrrð þessa fagra umhverfis, söfnuðum við unglingunum saman við gröf Martins Harris, eins af þremur vitnum Mormónsbókar. Á meðan við umkringdum fallegu granítsúluna sem er á gröfinni, greindi öldungur Glen L. Rudd, þá biskup hinnar deildarinnar, frá bakgrunninum að lífi Martins Harris og las upp úr Mormónsbók vitnisburð hans og Olivers Cowdery og Davids Whitmer. Piltarnir hlustuðu af mikilli athygli, gerandi sér grein fyrir að þeir stóðu við gröf manns sem hafði séð engil og hafði raunverulega séð eigin augum gulltöflurnar. Lotningarfullir

snertu þeir granítsteininn sem prýðir gröfina og ígrunduðu orðin sem þeir höfðu heyrt og tilfinningar sínar í sambandi við þau.

Síðan gengum við stuttan spöl að gröf frumherja. Legsteinninn ber nafnið John P. Malmberg og þar er þetta vers:

Á heimili okkar hefur ljós eitt slokknað.
Kær rödd hefur þagnað.
Tómleiki ríkir í hjarta,
sem aldrei mun þaðan hverfa.

Við töluðum við drengina um fórnina, um helgun að sannleikanum. Skyldu, heiður, þjónustu og kærleik mátti læra af þeim legsteini. Í huga mér sé ég enn drengina taka fram vasaklúta sína og þerra tárin. Enn heyri ég snökt sem vitnaði um að hjörtu höfðu orðið snortin og skuldbindingar gerðar. Ég álít að sérhver unglinganna hafi ákveðið að gerast frumherji – verða sá sem gengur á undan og vísar veginn.

Við fórum sem hópur í garð í grenndinni, þar sem allir fengu sér að borða undir berum himni. Áður en við héldum heim, stönsuðum við á lóð hins fagra Logan-musteris. Þetta var á hlýviðrisdegi. Ég bauð drengjunum að teygja úr sér á rúmgóðri flötinni og horfa upp í bláan himininn, þar sem hvít skýin hröðuðu ferð sinni fyrir stöðugum vindinum. Við dáðumst að fegurð þessa stórfenglega frumherjamusteris. Við töluðum um heilagar helgiathafnir og eilífa sáttmála. Lexíur voru lærðar. Hjörtu snortin. Sáttmálar og loforð urðu meira en orðin tóm. Þráin eftir að vera verðugur þess að ganga inn um musterisdyrnar festi rætur í þessum ungu hjörtum. Hugsanir beindust að meistaranum; nærveru hans mátti finna. Ljúft boð hans „Fylgið mér," heyrðist einhvern veginn og fannst.

Til allra sem fúsir bregðast við hinu helga kalli um þjónustu kemur loforðið: „Ég, Drottinn, er miskunnsamur og náðugur þeim, sem óttast mig, og hef unun af að heiðra þá, sem þjóna mér í réttlæti og sannleika allt til enda. Mikil verða laun þeirra og eilíf verður dýrð þeirra."[10]

Einlæg bæn mín er að við megum allir vinna til þessa guðlega loforðs, í nafni Jesú Krists, frelsara okkar. Amen.

HEIMILDIR

1. *Gospel Doctrine: Selections from the Sermons and Writings of Joseph F. Smith*, í samantekt John A. Widtsoe [Salt Lake City: Deseret Book Co, 1939].
2. Marion G. Romney, Report of the Mexico and Central America Area Conference 1972, bls. 73.
3. *The Teachings of Spencer W. Kimball*, Edward L. Kimball ritst. (Salt Lake City: Bookcraft, 1982), bls. 497.
4. Harry Emerson Fosdick.
5. Rabindranath Tagore, 1861–1941.
6. Mósía 2:17.
7. Randall, Naomi W.; ©1957 LDS.
8. *Conference Report*, apríl 1937, bls. 46.
9. *Stand Ye in Holy Places* (Salt Lake City: Deseret Book Co., 1974), bls. 255.
10. Kenning og sáttmálar 76:5, 6.

# Fjárhættuspil

**Gordon B. Hinckley forseti**

Ég vil bregðast við fjölda beiðna um að segja eitthvað um stöðu kirkjunnar varðandi iðkun sem orðin er almennari meðal okkar og einkum unga fólksins okkar. Þarna er um að ræða fjárhættuspil í ýmsu formi.

Sú saga er sögð að Calvin Coolidge, sem eitt sinn var forseti Bandaríkjanna og þekktur fyrir hve stuttorður hann var, hafi sunnudag einn komið heim úr kirkju. Kona hans spurði hvað prédikarinn hefði talað um. Hann svaraði: „Synd.“ „Hvað sagði hann“ spurði hún. „Hann var á móti henni,“ var stutt svar hans.

Ég held ég gæti svarað spurningunni um alls konar fjárhættuspil jafn stutt. Við erum á móti því.

Fjárhættuspil má finna næstum alls staðar. Fólk spilar póker. Það veðjar á hesta og hunda. Það spilar á rúllettur og spilakassa. Það safnast saman til að spila á börum, veitingastöðum, spilavítum, og alltof oft á sínum eigin heimilum. Margir geta ekki hætt þessu. Þetta er jafn ánetjandi og ólögleg eiturlyf. Í mörgum tilvikum leiðir það til skaðlegrar venju og iðkunar.

Og margir sem taka þátt í þessu hafa ekki efni á því. Iðulega sviptir það eiginkonur og börn fjárhagslegu öryggi.

Pókerspil, eins og það er kallað, er farið að herja á gagnfræða- og menntaskólanema.

Ég les fyrir ykkur úr grein í New York Times:

„Hjá Michael Sandberg hófst það fyrir nokkrum árum með spili um smáaura meðal vina.

En síðastliðið haust varð það sex-talna tekjulind og valkostur við lagaskóla.

Sandberg, 22ja ára, skiptir að mestu tíma sínum milli Princeton-skólans, þar sem hann er við meistaranám í stjórnmálafræði, og Atlantic City, þar sem hann spilar stóráhættusaman póker.

Sandberg er gróft dæmi um fjárhættuspilabyltingu á háskólasvæðum þjóðarinnar. Sandberg kallar það sprengingu, sem tendrast hefur frá pókerkeppnum í sjónvarpi og útbreiðslu á vefsíðum sem bjóða pókerspil.

Sérfræðingar segja að erfitt sé að líta fram hjá vinsældum fjárhættuspils á háskólasvæðum. Sem dæmi má nefna, að í desember hélt systrafélag í Columbia-háskólanum fyrsta 80 manna pókermótið, með 10 dollara lágmarksgjaldi, og Háskóli Norður-Karólínu hélt fyrsta mótið með 175 spilurum í október. Fullbókað var í bæði mótin og biðlistar. Í Háskóla Pennsylvaníu eru einkaspil auglýst á hverju kvöldi á vefsíðu háskólans.“ (Jonathan Cheng, New York Times News Service, *Deseret Morning News*, 14. mars 2005).

Það sama er að gerast einmitt hér í Utah.

Móðir ein skrifaði mér eftirfarandi:

„Sonur minn, 19 ára, spilar póker á netinu og fólki á netinu [virðist] sama þótt hann sé ekki 21 árs. Allt sem þarf er að eiga bankainnstæðu. Hann hefur nú spilað að staðaldri í tæpt ár. Hann hafði vinnu en hætti henni vegna þess að hann er nú algerlega ánetjaður netinu og peningapóker. Hann tekur öllum stundum þátt í pókermótum og ef hann vinnur notar hann peningana til að kaupa það sem hann þarfnast. Það eina sem hann gerir er að sitja og spila á netinu.“

Mér er sagt að Utah og Hawaii séu einu fylkin í Bandaríkjunum þar sem veðmál og fjárhættuspil eru ekki lögleg. Af bréfum sem ég hef fengið frá meðlimum kirkjunnar virðist augljóst að sumt unga fólkið okkar er byrjað að spila póker. Þau

komast á bragðið, að fá eitthvað fyrir ekkert, og fara síðan burt úr fylkinu til að vera þar sem fjárhættuspil er löglegt.

Einn bréfritari skrifaði mér: „Ég hef séð þessa illsku læðast undanfarið inn í líf svo margra. Hún er alls staðar í sjónvarpinu. ESPN-stöðin hefur eitthvað sem nefnist heldri manna póker og Þjóðar-pókermót.“

Hún heldur áfram: „Einn vinur okkar bauð manninum mínum að skrá sig á pókermót hér á staðnum og greiða þátttökugjald. Vinur hans sagði: 'Þetta er ekki fjárhættuspil. Peningarnir renna í stóran pott og sá sem vinnur fær það sem er í pottinum.'“

Er þetta fjárhættuspil? Að sjálfsögðu. Fjárhættuspil er einfaldlega það sem krefst peninga og býður ekki endurgreiðslu þeirra í vörum eða þjónustu.

Við höfum nú ríkishappdrætti í stórum mæli. Einu sinni bönnuðu lögin slíkt. Nú eru þau rekin til tekjuöflunar.

Fyrir tuttugu árum sagði ég á ráðstefnu: „Happdrættissýkin náði nýlega hámarki sínu þegar New York-fylki tilkynnti að þrír vinningshafar myndu skipta með sér 41 milljón dollara. Fólk stóð í biðröðum eftir að fá miða. Einn vinningsmiðann áttu 21 verksmiðjustarfsmaður, 778 fengu annan vinning og 113.000 fengu umtalsverða upphæð. Þetta kann að virðast nokkuð gott.

En þar voru einnig 35.998.956 sem töpuðu, og hver þeirra hafði greitt fyrir möguleikann á vinningi og fékk ekkert.“ (Gordon B. Hinckley í Conference Report, okt. 1985, 67; eða *Ensign*, nóv. 1985, 52).

Sum amerísk fylki hafa lagt háa skatta á miklar tekjur spilavíta. Starfandi fyrirtæki verða að hafa sinn hagnað. Síðan kemur vinningshafinn. Allir hinir sem keyptu miða standa eftir tómhentir.

Ég er svo þakklátur fyrir að þegar Drottinn stofnaði kirkju sína gaf hann okkur tíundarlögmálið. Ég ræddi einu sinni við liðsforingja í kirkju sem, eftir því sem mér skildist, treysti á Bingó sem megintekjulind sína. Ég spurði hann: „Hafið þið nokkuð hugleitt tíund til að fjármagna kirkju ykkar?“ Hann svaraði: „Já, og hvað ég vildi að við fylgdum þeirri reglu í stað þess að spila Bingó. En ég býst ekki við þeirri breytingu meðan ég lifi.“

Spilavíti hafa verið opnuð á verndarsvæðum Indíána sem tekjulind þeirra er þau eiga. Nokkrir vinna, en flestir tapa. Þeir verða að tapa ef sumir eiga að vinna og húsin að verða rekin með hagnaði.

Einn ungu mannanna okkar sagði nýlega: „Ég borga 5 dollara til að sjá kvikmynd og borga 5 dollara til að spila póker, þetta er það sama.“

Þetta er ekki það sama. Í öðru tilvikinu fæst eitthvað fyrir það sem greitt er, en í hinu fær aðeins einn vinning en hinir fara tómhentir.

Reynslan hefur sýnt að pókerspil getur leitt til fíknar í fjárhættuspil.

Frá fyrstu dögum kirkjunnar hefur fjárhættuspil verið fordæmt.

Árið 1842 lýsti Joseph Smith aðstæðum þegar hinir heilögu bjuggu í Missouri. Hann sagði: „Við keyptum mikið land, býli okkar gáfu vel af sér, og við nutum friðar og hamingju á heimilum okkar og nágrenni.

En þegar við vildum ekki sameinast nágrönnum okkar ... í miðnætursvalli þeirra, vanhelgun hvíldardagsins, veðreiðum og fjárhættuspilum, fóru þeir í fyrstu að hæðast að okkur, síðan ofsækja og að lokum með skipulagðri múgæsingu brenndu þeir heimili okkar, veltu okkur upp úr tjöru og fiðri, hýddu marga bræðra okkar og að lokum, andstætt lögum, réttvísi og mannúð, ráku þeir okkur frá heimilum okkar.“ (*Messages of the First Presidency*, bls. 139).

Í október 1844 sagði Brigham Young um Nauvoo: „Við viljum loka öllum áfengisverslunum, fjárhættuspilahúsum, og öllum öðrum ósiðlegum húsum og

iðkunum meðal okkar, og umberum enga óreglu eða siðleysi okkar á meðal." (*Message of the First Presidency*, bls. 242).

Forsetar kirkjunnar, og ráðgjafar í Forsætisráðinu, hafa hvað eftir annað tjáð sig um þessa spillingu. George Q. Cannon, ráðgjafi þriggja forseta kirkjunnar sagði: „Það er margt illt í þessum heimi sem unga fólkið þarf að varast. Eitt af því er fjárhættuspil. Það er til í margskonar formi, sem allt er illt, og enginn ætti að taka þátt í. Svona áhættuspil sem virðast saklaus eru líkleg til að fá aðra til að taka meiri áhættu, og því ætti að forðast þau. Þegar menn taka þátt í áhættuspili verður mjög freistandi að halda því áfram. Á þann hátt hafa margir misst allt ..." (*Gospel Truth,* 15. ág. 1898, bls. 453).

Joseph F. Smith forseti sagði: „Kirkjan samþykkir ekki fjárhættuspil heldur fordæmir það sterklega sem siðferðislega rangt og flokkar einnig á sama hátt hvers konar áhættuspil og happdrætti, og er af alhug á móti því að nokkur þegn hennar taki þátt í því" (*Improvement Era*, sept. 1926, bls. 1100.

Heber J. Grant forseti ráðlagði: „Kirkjan hefur verið, er nú og mun verða andvíg fjárhættuspili í hvaða mynd sem er. Hún er andvíg öllu áhættuspili, starfi eða svonefndum viðskiptum, sem taka við fé af fólki og endurgjalda það ekki á einhvern hátt í jafnvirði þess. Hún er andvíg öllu sem hefur tilhneigingu til að ... lækka eða veikja þær háu siðferðisreglur sem meðlimir kirkjunnar, og samfélag okkar að mestu, hafa alltaf virt."

Spencer W. Kimball forseti sagði: „Frá upphafi höfum við verið vöruð við hvers konar fjárhættuspili. Hnignun og skaði eru hlutskipti þeirrar manneskju, hvort sem hún vinnur eða tapar, sem reynir að fá eitthvað fyrir ekkert, eitthvað áreynslulaust, eitthvað án þess að greiða fullt gjald fyrir". („Why Call Me Lord, Lord, and Do Not the Things Which I Say" *Ensign,* maí 1975, 4).

Árið 1987 flutti öldungur Dallin H. Oaks meistaralegan fyrirlestur um þetta efni við Ricks-háskólann sem svo nefndist þá. Hann bar yfirskriftina „Gambling – Morally Wrong and Politically Unwise" (sjá *Ensign,* júní 1987, 69).

Við þessar yfirlýsingar um stöðu kirkjunnar bæti ég við minni eigin. Áhættuspil kann að virðast saklaus skemmtun. En því fylgir tilfinningahiti sem í raun sést á svip þeirra sem spila. Og alltof oft getur þessi leikur, sem virðist saklaus, leitt til raunverulegrar ánetjunar. „Kirkjan hefur verið og er nú á móti þessu. Ef þið hafið aldrei tekið þátt í pókerspili eða annarri tegund fjárhættuspils, byrjið þá ekki. Ef þið takið þátt í því, hættið þá meðan þið getið.

Verja má tíma sínum á betri hátt. Beina má áhuga sínum og orku á betri veg. Svo mikið af dásamlegu lesefni er til. Við fáum sennilega aldrei of mikið af því. Til er tónlist sem læra má og njóta. Svo má bara skemmta sér saman, dansa, ganga, hjóla eða á annan hátt, piltar og stúlkur að njóta félagsskapar hvers annars.

Ég hef verið að lesa nýja bók, sem Oxford University Press gaf nýlega út og vakið hefur töluverða athygli meðal okkar. Hún segir frá könnun sem kennarar við Háskóla Norður-Karólínu í Chapel Hill gerðu. Hún fjallar um trúar- og andlegt líf amerískra unglinga. Þeir sem könnunina gerðu spurðu ungt fólk af ýmsum trúarbrögðum og siðum. (*Soul Searching: The Religious and Spiritual Lives of American Teenagers*, Oxford University Press).

Þeir komust að þeirri niðurstöðu að æskufólk SDH vissi meira um trú sína, sýndi henni meiri skyldurækni og fylgdi betur kenningum hennar varðandi félagslega hegðun, en jafnaldrar þeirra.

Einn þeirra sem að könnuninni stóðu sagði: „Kirkja SDH krefst mikils af unglingum sínum, og ... oftar en ekki ber það árangur."

Unga fólkið okkar var talið líklegra til að hafa sömu trú og foreldrar þess, að sækja kirkju einu sinni í viku, að deila trú sinni með öðrum, að taka þátt í föstu eða annarri tegund sjálfsafneitunar, og að efast minna um trú sína.

Skýrendur könnunarinnar sögðu frá því að æskufólk okkar færi eldsnemma á fætur á morgnana til að taka þátt í trúarskóla. „Það er erfitt að vakna svo snemma," sagði einn trúarskólaneminn. „En því fylgja blessanir. Það er dásamlegt að byrja daginn þannig."

Þeir sem að könnuninni stóðu bentu á að ekki væri allt æskufólkið fullkomið, veikleikar fundust meðal þess, en í heildina skaraði það fram úr á undursamlegan hátt. Ég vil bæta við að enginn tími er fyrir pókerspil hjá þessum nemendum.

Kæru ungu vinir, sem ég tala til í kvöld, þið eruð okkur svo mikils virði. Þið eruð svo mikilvæg. Sem þegnar þessarar kirkju, og sem prestdæmishafar, berið þið svo mikla ábyrgð. Ég bið ykkur að sóa ekki tíma ykkar eða hæfileikum í tilgangsleysi. Ef þið gerið það dregur það úr möguleikum ykkar til að gera verðuga hluti. Ég tel að það muni slæva tilfinningar ykkar fyrir skólanáminu. Það mun valda foreldrum ykkar vonbrigðum, og er árin líða og þið horfið til baka, munuð þið verða óánægð með ykkur sjálf.

Prestdæminu sem þið ungu menn hafið fylgir blessun englaþjónustu. Hún samrýmist ekki þátttöku í áhættuspili.

„Veldu rétt, þegar val er fyrir hendi" („Veldu rétt," *Sálmar*, nr. 98).

Megi blessanir himins hvíla yfir ykkur, þess bið ég auðmjúklega um leið og ég læt ykkur eftir vitnisburð minn um þetta verk og kærleik minn til ykkar allra sem taka þátt í því, í hinu helga nafni Jesú Krists, amen.

# Sunnudagsmorgunn

## Standa á helgum stöðum

**James E. Faust forseti**
**annar ráðgjafi í Æðsta forsætisráðinu**

Mínir kæru bræður, systur, og vinir um allan heim, það er gleði og mikil ábyrgð að ávarpa ykkur. Ég læt í ljós kærleik minn, virðingu, og þakklæti fyrir ykkur öll.

Á okkur dynur úr öllum áttum gríðarlegur fjöldi skilaboða sem við hvorki viljum fá né þörfnumst. Meiri upplýsingar verða til á einni sekúndu en við getum tekið við á heilli ævi.[1] Til þess að njóta lífsins til fulls, þurfum við öll að finna okkar eigið svigrúm og hugarró.[2] Hvernig förum við að því? Við verðum að rísa ofar því illa sem þrengir að okkur. Við verðum að fylgja ráðum Drottins sem sagði: „Sjá, það er vilji minn að allir þeir, sem ákalla nafn mitt og tilbiðja mig samkvæmt hinu ævarandi fagnaðarerindi mínu, skuli safnast saman og standa á helgum stöðum.“[3]

Óhjákvæmilega stöndum við á svo mörgum vanhelgum stöðum og verðum fyrir svo miklu sem er gróft, veraldlegt, og eyðileggjandi fyrir anda Drottins að ég hvet okkar heilaga hvarvetna í heiminum, alls staðar sem hægt er, að leitast við að standa oftar á helgum stöðum. Helgustu staðir okkar eru okkar heilögu musteri. Innan þeirra er tilfinningin um heilaga huggun. Við ættum að leitast við að vera verðug þess að fara með fjölskyldur okkar í musterið til þess að vera innsigluð saman til eilífðar. Við ættum einnig að leita að heimildum um látna ættingja okkar svo að einnig þeir geti verið innsiglaðir okkur í einhverju musterinu. Við verðum að keppa að heilagleika með því að vera „fyrirmynd trúaðra, í orði, í hegðun, í kærleika, í trú, í hreinleika.“[4]

Með þeim hætti getum við viðhaldið og styrkt persónulegt samband okkar við Guð.

Heilagleiki er styrkur sálarinnar. Hann fæst með trú og með hlýðni við lögmál Guðs og helgiathafnir. Síðan hreinsar Guð hjartað með trú, og hjartað verður hreint af því sem er veraldlegt og óverðugt. Þegar heilagleiki næst með því að fara að vilja Guðs, veit viðkomandi með innsæi hvað er rangt og hvað er rétt frammi fyrir Drottni. Heilagleiki talar í þögninni, hvetur til þess sem er gott og átelur það sem er rangt.

Heilagleiki er einnig réttlætisstaðall. Í nokkrum orðum Brighams Young forseta, sem hann flutti í Salt Lake Laufskálanum hinn 16. febrúar 1862, notaði hann hugtakið „helgaður Drottni.“ Síðan útskýrði hann nánar skilning sinn á orðunum „helgaður Drottni.“ Ég vitna í orð hans: „Þrjátíu ára reynsla hefur kennt mér að hvert augnablik lífs míns verður að vera helgað Drottni, en það hefur sanngirni, réttvísi, miskunn, og ráðvendni í öllum gerðum mínum kennt mér, en það er eina leiðin sem ég hef til þess að halda anda almættisins hjá mér.“[5]

Á liðnu ári fór einn dóttursonur minn ásamt konu sinni í hið fagra Manhattan-musteri í New York. Ys og þys og hávaði þúsunda manna úti fyrir var ærandi. Þegar leigubíllinn stöðvaðist framan við musterið, tók Katherine, eiginkona dóttursonar míns að tárast. Jafnvel fyrir utan musterið fann hún fyrir heilagleika þess. Þau fóru inn, yfirgáfu hávaðasaman heiminn, og tilbáðu í húsi Drottins. Það var þeim heilög og ógleymanleg reynsla. Eins og Gordon B. Hinckley kenndi okkur: „Öðru hverju er þörf fyrir það að yfirgefa hávaða og skarkala heimsins og stíga inn fyrir veggi heilags húss

Guðs, og finna þar fyrir anda hans í umhverfi heilagleika og friðar."[6] Vissulega hefur bæn Josephs Smith við vígslu Kirtland-musterisins verið svarað: „Og að allir þeir, sem ganga inn fyrir þröskuld húss Drottins, megi finna kraft þinn og finna sig knúna til að viðurkenna, að þú hefur helgað það og að það sé þitt hús, staður heilagleika þíns."[7]

Við jarðarför patríarkans Josephs Smith eldri, var tilfinningum hans til musterisins lýst þannig:

„Að dvelja í húsi Drottins, og að leita svara í musteri hans, var dagleg gleði hans; og þar naut hann margra blessana, og eyddi mörgum stundum í ljúfu samneyti við himneskan föður sinn. Hann gekk um helga ganga þess, einn og út af fyrir sig, löngu áður en konungur dagsins gyllti sjóndeildarhringinn í austri; og hann bar upp óskir sínar innan veggja þess, á meðan náttúran svaf. Í helgu rými þess lukust sýnir himins upp í huga hans, og sál hans mettaðist af auðæfum eilífðarinnar."[8]

Ég er þakklátur fyrir að musterin okkar bera öll yfirskriftina: „Hús Drottins, Helgað Drottni." Þessi áminning um helga staði á sér rætur aftur í Gamla testamentinu. Sakaría minnir okkur á að sá dagur muni koma þegar „standa [skal] á bjöllum hestanna: HELGAÐUR DROTTNI, ... sérhver ketill í Jerúsalem og í Júda mun helgaður vera Drottni allsherjar."[9] Ég dáist mjög að hurðarhúnunum í Salt Lake musterinu. Þeir eru svo listilega hannaðir, hver þeirra ber áminninguna: „Helgað Drottni."

Ég man að sem drengur í Suður-Utah fyrir meira en 65 árum fylltist ég hrifningu þegar orðin „Helgað Drottni" birtust á einhverri byggingu í litlu bæjunum. Þessi gullnu orð voru oft aðal skreytingin á mikilvægustu byggingunum, svo sem kaupfélaginu og forðabúri biskups. Ég á í fórum mínum hlutabréf í ZCMI, verslunarkeðju brautryðjendanna. Á þeim eru undirskriftir Johns Taylor, Brighams Young, Wilfords Woodruff, Josephs F. Smith, Lorenzo Snow, Heber J. Grant, George Albert Smith, og David O. McKay. Á hvert hlutabréf eru prentuð orðin „Helgað Drottni." Ég velti fyrir mér hvað orðið hefur af þessum kjörorðum um heilagleika. Hafa þau horfið ásamt svo mörgu öðru sem minnir á trú og hollustu?

Við munum njóta ríkulegra blessana þegar við förum oft í musterin til að læra um yfirnáttúrulegt og andlegt samband okkar við Guðdóminn. Við þurfum að leggja harðar að okkur til að vera stödd á helgum stöðum. Hátíðlegir sáttmálar musterisins og trúarathafnir hjálpa okkur að tryggja heilagleika persónuleikans. Þegar við þráum að fólk okkar sýni heilögu verki musteranna meiri skyldurækni, hljótum við að hvetja það til að leita betur að hinni djúpu andlegu merkingu sem þar er að finna. Eins og Páll minnir okkur á: „Því að bókstafurinn deyðir, en andinn lífgar."[10]

Á okkar dögum hefur Gordon B. Hinckley forseti sagt okkur:

„Ef hver maður í þessari kirkju, sem vígður hefur verið til Melkísedeksprestdæmisins, mundi gera sig hæfan musterismeðmæla, og færi síðan í hús Drottins og endurnýjaði sáttmála sína hátíðlega frammi fyrir Guði og vitnum, værum við betra fólk. Það væru lítil sem engin hjúskaparbrot meðal okkar. Hjónaskilnaðir mundu nánast alveg vera úr sögunni. Forðast mætti svo mikið hugarangur og harm. Friður og kærleikur og hamingja yrði í ríkari mæli á heimilum okkar. Það yrðu færri tárfellandi eiginkonur og tárfellandi börn. Þakklæti og gagnkvæm virðing yrði í ríkara mæli meðal okkar. Og ég er sannfærður um að Drottinn mundi brosa enn mildilegar til okkar."[11]

Hinir heilögu ættu að vinna sín ættfræðiverk og sækja musterið vegna þess að heilagur andi fær þá til þess. Við ættum meðal annars að fara í musterið til þess að tryggja persónulegan heilagleika okkar og fjölskyldu okkar.

Auk musteranna ætti vissulega annar helgur staður á jörðu að vera heimili okkar. Tilfinningin um heilagleika á heimili mínu bjó mig undir að finna heilagleikann í musterinu. Áður en ég fór í mitt fyrsta trúboð í Brasilíu, handsaumaði móðir mín ástúðleg musterisfatnað handa mér til að vera í þegar ég færi í musterið. Hann er nú gamall og trosnaður, en hann er sérstakur, heilagt tákn um ást móðurinnar á því sem er heilagt.

Svo er minni kæru eiginkonu, Ruth, fyrir að þakka, að heimili okkar hefur verið staður sem við höfum leitast við að helga Drottni. Okkur tókst það ekki alltaf. Auðvitað ekki. En við reyndum. Þegar yfir mig þyrmdi sem ungan föður vegna þeirrar ábyrgðar að sjá fyrir stundlegum þörfum fjölskyldu minnar, annast kirkjukallanir mínar, og margar aðrar samfélagsskyldur, minnti Ruth mig ástúðlega og ljúflega á foreldraskyldur mínar á heimilinu.

Hún minnti mig til dæmis á hvenær komið var að fjölskyldukvöldi og stakk ljúflega upp á að við hæfi væri að við lærðum eitthvað á fjölskyldukvöldum okkar. Hún hjálpaði mér einnig að muna eftir mikilvægum fjölskylduatburðum svo sem afmælisdögum og athöfnum barnanna þegar þau þörfnuðust tíma míns og stuðnings. Hún sér enn um þá mikilvægu og vel metnu þjónustu. Ef við raunverulega viljum að heimili okkar séu staðir heilagleika, munum við reyna enn frekar að gera það sem samrýmist anda Drottins.

Kapellur okkar eru vígðar Drottni sem heilagir staðir. Okkur er sagt að við eigum að fara í hús bænarinnar og færa sakramenti okkar á helgum degi hans.[12] Að meðtaka sakramentið eru hátíðleg og heilög forréttindi. Í kapellum okkar eru okkur kenndar reglur fagnaðarerindisins, börn eru blessuð, þegnar staðfestir og þeim veitt gjöf heilags anda, og vitnisburðir um sannleika fagnaðarerindisins eru fluttir. Nýskírð kona í Texas sagði að þegar hún gengi inn um dyr kapellunnar, fyndi hún heilagleika sem hún hefði aldrei fyrr á ævinni fundið.

Við verðum að leggja meira á okkur til að verða heilagt fólk. Við lifum í fyllingu tímanna. Svo mikið hefur verið endurreist með spámanninum Joseph Smith. Það setur okkur í sérstöðu gagnvart Drottni. Við njótum góðs af, stöndum vörð um, og önnumst þessa ábyrgð undir verkstjórn, með valdsumboði og leiðbeiningum Hinckleys forseta, sem hefur alla lyklana. Sem börn Drottins ættum við að keppast við að ná hærra stigi persónulegs réttlætis í öllum okkar athöfnum. Við þurfum að vera stöðugt á verði gegn öllum áhrifum Satans.

Eins og Brigham Young forseti kenndi: „Hver stund í lífi [okkar] verður að vera helguð Drottni, ... því það er eina leiðin til þess að halda anda almættisins hjá [okkur].“ Megi Drottinn blessa hvert og eitt okkar í þeirri sérstöku ábyrgð okkar að finna helgun Drottins með því að standa á heilögum stöðum. Það er þar sem við finnum þá andlegu vernd sem við þörfnumst fyrir okkur sjálf og fjölskyldur okkar. Þar er hjálparlindin við að útbreiða orð Drottins á okkar tíma. Að standa á heilögum stöðum mun hjálpa okkur að rísa ofar illum áhrifum okkar tíma og færa okkur nær frelsara okkar. Ég ber vitni um að ef við gerum það mun Drottinn blessa okkur eilíflega og við munum gjörð máttug „í trú og í dáðum,“[13] í nafni Jesú Krists, amen.

HEIMILDIR


1. „'Ofþjakaðir ameríkanar,' eða yfirþyrmdir ameríkanar? Að læra að slappa af og velja hvaða ákvarðanir eru teknar og við hverju er brugðist er lykillinn að því að losna við þessa yfirþyrmandi tilfinningu,“ Jeff Davidson, *Business Horizons,* jan.–febr. 1994.
2. Sama rit.
3. K&S 101:22.
4. 1 Tim 4:12.
5. Brigham Young, Journal of Discourses, 9:220 [16. febrúar 1862].

6. “Of Missions, Temples, and Stewardship,” *Ensign*, nóv. 1995, 53.
7. K&S 109:13.
8. History of the Church, 4, 193–94.
9. Sak 14:20–21.
10. 2 Kor 3:6.
11. “Of Missions, Temples, and Stewardship,” *Ensign* nóv. 1995, 53.
12. K&S 59:9.
13. He 10:5.

# Einn í viðbót

## Öldungur M. Russell Ballard
## í Tólfpostulasveitinni

Fyrir fáeinum vikum nutum við, systir Ballard og ég, þess að tala til trúboðanna í Trúboðsskólanum í Provo. Það gladdi okkur að sjá geislandi áhugann á andliti þeirra og finna nærveru anda Drottins. Þessir góðu trúboðar eru vel á veg komnir við að bera boðskap endurreisnar fagnaðarerindis Jesú Krists til heimsins. Við þökkum foreldrum, biskupum, stikuforsetum, og sérstaklega unga fólkinu okkar fyrir að bregðast við kalli spámannsins eftir ítarlegri andlegum undirbúningi fyrir þjónustu við Drottin.

Þegar við jukum kröfurnar fyrir trúboðsþjónustu, sagði Gordon B. Hinckley: „Verkið er erfitt. Það krefst styrks og úthalds. Það krefst andlegrar atorku og hæfni. Það krefst trúar, þráar og helgunar. Það krefst óflekkaðra handa og hreins hjarta“ (alheimsþjálfun leiðtoga, 11. jan. 2003).

Hann hélt áfram og sagði: „Sú stund er runnin upp ... er við verðum að auka hæfniskröfur til þeirra sem ... þjóna sem opinberir fulltrúar Drottins Jesú Krists ... (alheimsþjálfun leiðtoga, 11. jan. 2003) Við einfaldlega getum ekki leyft þeim sem ekki hafa reynst hæfir og verðugir þess að fara út í heiminn til að kunngera gleðitíðindi fagnaðarerindisins.“

Í dag leitum við eftir hæfari trúboðum, ungum mönnum sem hafa búið sig undir að þjóna með því að taka á móti þeirri áskorun spámanns okkar að, „auka enn við sjálfsaga sinn, að lifa ofar lágum stöðlum heimsins, forðast lögmálsbrot og velja æðri leiðina í öllu sem þeir taka sér fyrir hendur“ (alheimsþjálfun leiðtoga, 11. jan. 2003).

Verk Drottins á 339 trúboðssvæðum okkar er að þenjast út og því verðum við að taka okkur á og sjá til þess að hver 12 ára piltur sé verðuglega vígður djákni; hver 14 ára gamall kennari; hver 16 ára gamall prestur, og að hver 18 til 19 ára verðuglega meðtaki Melkísedeksprestdæmið. Þetta getum við gert með því að fylla hjarta hvers ungs manns af kærleik til Drottins, skilningi og þakklæti fyrir friðþægingu hans, og glöggri sýn á dásemd endurreisnarinnar.

Þegar unglingarnir okkar skilja mikilvægi endurreisnar fagnaðarerindisins og vita sjálfir að Guð er himneskur faðir okkar og að hann elskar öll börn sín, að Jesús er Kristur og að saman vitjuðu þeir Josephs Smith í eigin persónum til þess að hefja þennan lokaráðstöfunartíma, munu þeir vilja hjálpa til við að bera heiminum þennan boðskap. Þegar unglingarnir okkar líta á Mormónsbók sem áþreifanlegt vitni um að boðskapur endurreisnarinnar er sannur, munu þeir fyllast þrá eftir að framkvæma sinn hluta af kennslu þessa sannleiks til barna himnesks föður okkar.

Við kynntumst því hjá trúboðunum í Trúboðsskólanum hvað hefði best getað hjálpað þeim að búa sig undir trúboð sitt. Framar öllu öðru óskuðu þeir að þeir hefðu:

- Lært kenninguna betur með einbeittum ritningarlestri
- Lært hvernig á að læra og biðja einlæglega
- Verið agaðri og unnið betur
- Skilið betur hvers er vænst
- Fengið fleiri kennslutækifæri, og
- átt fleiri hreinskilin og einlæg viðtöl við biskupa og foreldra

Bræður og systur, saman getum við kennt öllum unglingum okkar í kirkjunni fagnaðarerindi Jesú Krists, í einfaldleika þess og krafti. Í samvinnu við foreldra getum

við hjálpað þeim að búa sig undir trúboð og ævilanga þjónustu. Leitum að hverjum og einum okkar dýrmætu unglinga, hvort sem þeir eru virkir eða ekki, og glæðum ljós Krists sem í þeim býr. Boyd K. Packer forseti sagði: „Ljós Krists er eins útbreitt og sjálft sólarljósið. Hvar sem mannlegt líf er að finna, þar er andi Krists. Hver lifandi sál býr að því ... það blæs í brjóst öllu því sem mun blessa og auðga mannkynið og nærir sjálfan góðleikann.“ (“The Light of Christ,” þjáfun fyrir nýja trúboðsforseta, 22. júní 2004).

Við vitum því að allir hafa innra með sér ljós Krists. Ábyrgð okkar sem foreldra, kennara,og leiðtoga er að hlú að því ljósi í unglingunum okkar þar til eldur vitnisburðar logar djúpt í hjarta þeirra og sál, og síðan að hvetja hvern og einn þeirra til að taka þann eld og nota hann til að tendra ljós Krists í öðrum.

Auðvitað veit andstæðingurinn þetta og reynir kappsamlega að hafa áhrif á suma unglingana okkar til að þeir hafni kenningum kirkjunnar. Þess vegna þurfa foreldrar, leiðtogar, og kennarar að bera saman bækur sínar og þekkja hvern pilt og hverja stúlku – hvert einasta þeirra. Við verðum að þekkja þau, hvort sem þau eru virk eða ekki.

Rétt er það að kröfurnar til trúboða okkar hafa aukist. Það merkir að kröfurnar til foreldra og leiðtoga hafa einnig aukist. Við munum þurfa að efla trú okkar og verk til að hver ungur maður fái tækifæri til að þjóna.

Hinckley forseti minntist einnig á þetta: „Við þurfum fleiri trúboða. Skilaboðin með hertum trúboðsreglum voru ekki þau að senda ætti færri til trúboðsstarfa, heldur að fá eigi foreldra og leiðtoga til að búa pilta fyrr og betur undir trúboðsþjónustu, og stuðla að því að þeir séu ávallt verðugir slíkrar þjónustu. Allir piltar sem eru verðugir og líkamlega og tilfinningalega hæfir ættu að búa sig undir að þjóna við þetta mjög svo mikilvæga verk“ (alheimsþjálfun leiðtoga, 19. júní 2004).

Með tilvísun til stúlknanna sagði Hinckley forseti svipað: „Ákveðins misskilnings [hefur] gætt, samfara áðurgefnum leiðbeiningum, varðandi trúboðsþjónustu þeirra. Við þurfum fleiri stúlkur. Þær inna af höndum dásamlegt verk. Þær geta farið inn á þau heimili sem öldungarnir geta ekki farið á. En hafa ætti í huga að ungum systrum ber ekki skylda til að fara í trúboð. Þeim ætti ekki að finnast þær skyldugar til slíkrar þjónustu líkt og piltunum, en sumar þeirra óska að inna hana af hendi“ (alheimsþjálfun leiðtoga, 19. júní 2004).

Bræður og systur, það er ótrúlega mikið verk sem vinna þarf. Andi Drottins breiðir sig nú yfir margar þjóðir heimsins. Dyr sem áður voru læstar opnast nú okkur. Við þörfnumst fleiri vinnusamra trúboða auðugra að vitnisburði til þess að ná til fleiri barna himnesks föður sem nú eru þar sem við getum náð til þeirra. Þetta eru bræður okkar og systur, og við berum þá ábyrgð að kenna þeim boðskap endurreisnarinnar.

Við vitum að miklir atburðir gerast í lífi þeirra sem af trúmennsku þjóna í fastatrúboði. Trúboðsþjónusta er ekki auðveld, en hún er óendanlega þess virði. Þeir sem þjóna og snúa heim með sóma hafa tamið sér lífsmáta og þjónustulund sem blessa mun þá og komandi kynslóðir. Þeir koma heim betur undir það búnir að verða sterkir leiðtogar og kennarar í kirkjunni. Þeir koma heim betur undir það búnir að verða réttlátir feður eða mæður, fær um að kenna börnum sínum fagnaðarerindið. Þjónusta fastatrúboða er blessun fyrir þá sem trúboðarnir finna og kenna engu síður en trúboðana sjálfa.

Nú höfum við sérstaka beiðni fram að færa við ykkur biskupa og greinarforseta. Okkur er ljóst að þið þekkið nú þegar þá sem uppfylla skilyrðin og eru að búa sig undir að taka trúboðskalli á þessu ári. Það sem við biðjum leiðtoga hverrar einingar að gera er að ráðfæra sig við foreldra, og biðjast fyrir til að finna að minnsta kosti EINN Í VIÐBÓT meðal piltanna, auk þeirra sem þegar hafa skuldbundið sig, og sem kalla má til þjónustu. Ef þær yfir 26.000 deildir og greinar kirkjunnar munu senda

alla þá sem þær hafa þegar ráðgert að senda út á trúboðsakurinn – plús EINN Í VIÐBÓT – mun fylking fastatrúboðanna okkar breikka; og við munum færast þeim mun nær því guðlega markmiði okkar að færa fagnaðarerindið hverri þjóð, kynkvísl, tungu og lýð. Auðvitað þurfa þessir trúboðar að vera verðugir, trúfastir, heilbrigðir, og fullkomlega skuldbundnir. Má vera að þessi EINN Í VIÐBÓT sé ekki tilbúinn einmitt nú. Því biðjum við foreldra og stiku- og deildarráðsmenn að treysta á greiningarmátt heilags anda til að vita hverjum þið getið hjálpað til að búa sig undir köllun á þessu ári.

Þegar þið reynið að ná til þeirra, minnist þá reynslu eins vinar míns. Hann hafði aldrei á ævi sinni átt hest fyrr en hann giftist dásamlegri konu sem ann hestum. Hann vildi vaxa í augum brúðar sinnar, og því tilkynnti hann kvöld nokkurt að nú færi hann út í haga til þess að kenna ungum fola hlýðni. Sjálfur var hann þyngri en folinn. Hann vissi líka meira en folinn. Hann gerði ráð fyrir að allt og sumt sem hann þyrfti að gera væri að toga í tauminn og fyrr eða síðar mundi folinn fylgja á eftir. Hann var sannfærður um að þetta gengi fljótt fyrir sig.

Hann festi tauminn við beyslið, gekk fram fyrir folann og togaði. Folinn þráaðist við. Vinur minn togaði fastar, og folinn stóð þeim mun fastara í fæturna. Þá togaði hann eins fast og hann gat og folinn féll um koll. Þannig gekk það nokkrum sinnum þar til vinur minn mat stöðuna: Á aðeins fjórum eða fimm mínútum hafði honum tekist að kenna folanum að detta. Allt og sumt var að koma sér fram fyrir folann, taka í tauminn, og niður fór hann.

Kona hans, sem fylgdist með öllu saman, stakk að lokum upp á að í stað þess að fara fram fyrir folann og toga, gæti hann reynt að vefja taumnum um háls folans og einfaldlega ganga við hliðina á honum. Vini mínum til skapraunar dugði þetta.

Okkur virðist öllum meðfæddur mótþrói við því að vera sagt fyrir verkum eða á okkur sé ýtt eða í okkur togað. En ef einhver leggur hadlegginn um herðar ungs manns og gengur honum við hlið, eru meiri líkur á að hann komi með og þrái að þjóna. Vinsamlega minnist þessa þegar þið styrkið vitnisburð þessa EINS Í VIÐBÓT sem getur þjónað.

Má ég koma með þrjár tillögur ykkur til umhugsunar sem gætu hjálpað ykkur að koma á ríkulegri hefð trúboðsþjónustu í fjölskyldu ykkar, stikum, deildum, eða greinum?

Í fyrsta lagi, fullvissið ykkur um að allir unglingarnir ykkar skilji hverjir þeir eru. Allt frá fyrstu dögum í Barnafélaginu syngja börnin okkar „Guðs barnið eitt ég er.“ Hjálpið þeim að vita hvað það raunverulega merkir að vera barn Guðs. Minnið þau á að þau eru hér á þessum tiltekna tíma í sögu heimsins, með fyllingu fagnaðarerindisins í höndunum, vegna þess að þau tóku hugprúða ákvörðun í fortilverunni. Unglingarnir okkar þurfa að standa fast við réttlæti og sannleika. Þeir þurfa að sjá fyrir sér þær blessanir sem geta orðið þeirra þegar þeir sýna í verki ást sína á himneskum föður og á Drottni Jesú Kristi með vilja sínum til að þjóna.

Í öðru lagi, kennið kenninguna. Þótt athafnir og félagslegir atburðir eigi sinn rétta stað í heildarstarfi unglinganna, þá er það samt kenningin sem snýr til trúar og skuldbindingar. Unglingarnir okkar eiga rétt á að vænta þess að foreldrar þeirra, kirkjuleiðtogar og kennarar sjái um að þeir þekki og skilji fagnaðarerindi Jesú Krists. Heilagur andi mun staðfesta sannleikann í hjarta þeirra og tendra ljós Krists í sálum þeirra. Og þá munuð þið hafa EINN Í VIÐBÓT, að fullu undirbúinn trúboða. Í gær benti öldungur Scott á að *Boða fagnaðarerindi mitt,* nýi leiðarvísirinn sem trúboðarnir okkar nota nú til að kenna fagnaðarerindið, geti verið gott hjálpartæki fyrir ykkur.

Að lokum viðurkennum við, að vera má að ekki sé viturlegt fyrir suma af piltum okkar eða stúlkum að mæta erfiðleikum og áskorunum fastatrúboðs. Ef

prestdæmisleiðtogar ráða einhverjum ykkar frá fastatrúboðsþjónustu, biðjum við ykkur og fjölskyldur ykkar að taka þeirri ákvörðun og halda fram á við. Þið getið búið ykkur undir að taka þátt í frelsandi helgiathöfnum musterisins og fundið aðrar leiðir til að þjóna. Og við biðjum alla okkar þegna að veita stuðning og sýna mikinn kærleik og skilning til hjálpar öllu okkar trúfasta unga fólki í þeirra mismunandi kirkjuköllunum.

Bræður og systur, ég bæti við vitnisburði mínum um hið guðlega hlutverk Drottins Jesú Krists og það er bæn mín að hann blessi okkur öll í því verki okkar að kenna, innblása, hvetja, og undirbúa fleiri ungmenni okkar og hjón til að þjóna í fastatrúboði. Í nafni Jesú Krists, amen.

# Trúin er svarið

**Öldungur David E. Sorensen**
**í forsætisráði hinna sjötíu**

Á fyrri hluta sjötta áratugar síðustu aldar áttu Bandaríkin í stríði á Kóreuskaga. Vegna herskylduregIna stjórnvalda á þeim tíma máttu ungir menn ekki sinna trúboðsþjónustu, heldur urðu þeir að gegna herþjónustu. Þetta vissi ég og því skráði ég mig í heimavarnarliðsþjálfun þegar ég fór í menntaskóla. Takmark mitt var að verða liðsforingi eins og elsti bróðir minn. En meðan ég var heima um jólahátíðina bauð biskup minn, Vern Freeman, mér inn á skrifstofu sína. Hann sagði mér að ungur kirkjuleiðtogi að nafni bróðir Gordon B. Hinckley hefði náð samkomulagi við bandarísk yfirvöld um að hver kirkjudeild í Bandaríkjunum mætti kalla einn ungan mann til trúboðsstarfa. Sá ungi maður fengi sjálfkrafa frestun á herkvaðningu meðan hann væri í trúboði.

Freeman biskup sagðist hafa beðist fyrir varðandi þetta og honum fyndist hann eiga að mæla með mér sem fastatrúboða frá deild okkar. Ég sagðist hafa önnur áform – ég hefði skráð mig í heimavarnarliðið og vonaðist eftir að verða liðsforingi. Biskupinn minnti mig blíðlega á hve sterkt honum fyndist hann eiga að mæla með mér til trúboðsstarfa einmitt nú. Hann sagði: „Farðu heim og ræddu við foreldra þína, komdu svo aftur í kvöld og gefðu mér svar.“

Ég fór heim og sagði foreldrum mínum hvað gerst hafði. Þau sögðu biskupinn hafa fengið innblástur og ég ætti glaður að þiggja boð Drottins um þjónustu. Móðir mín skildi hve vonsvikinn ég var yfir því að verða ekki strax liðsforingi í hernum. Hún sagði: „Treystu Drottni af öllu hjarta, en reiddu þig ekki á eigið hyggjuvit. Mundu til hans á öllum þínum vegum, þá mun hann gjöra stigu þína slétta.[1]

Um kvöldið fór ég aftur á skrifstofu biskupsins og tók á móti boði hans. Hann sagði mér að hafa samband við viðkomandi herþjónustuskrifstofu og láta vita um ákvörðun mína.

Ég gerði það og þá sagði konan sem var yfir skrifstofunni: „Ef þú tekur á móti trúboðskalli, munt þú fá herkvaðningu áður en þú getur skráð þig í heimavarnarliðið. Þú verður skráður sem óbreyttur hermaður, ekki liðsforingi.“

Þrátt fyrir þessa óvæntu breytingu varð trúboð mitt dásamlegt. Það breytti lífi mínu eins og það gerir fyrir alla þá sem þjóna. En, yfirvöld stóðu við orð sín og sendu mér herkvaðningu í bandaríska herinn um mánuði eftir að trúboði mínu lauk.

Eftir æfingabúðir og lögregluskóla hersins var ég settur í starf herlögreglumanns. Kvöld eitt var mér falið það næturstarf að fylgja nokkrum föngum úr einni herstöð í aðra.

Um nóttina, þegar ferðin var um hálfnuð, stönsuðum við til að hvílast. Liðsforinginn sagði okkur að fara inn á veitingastað og fá okkur kaffi svo að við gætum haldið vöku okkar alla nóttina. Hann tók strax eftir að ég afþakkaði það. Hann sagði: „Sorensen, þú þarft kaffi til að halda þér vakandi það sem eftir er ferðar. Ég vil ekki að neinn fanginn strjúki eða valdi erfiðleikum á minni vakt.“ Ég sagði: „Herra, með fullri virðingu biðst ég undan því. Ég er Mormóni og drekk ekki kaffi.“ Honum var ekkert um svar mitt og áminnti mig enn um að drekka kaffið. Enn neitaði ég því kurteislega. Ég settist á stað minn aftast í vagninum, með vopn í hendi, og bað þess í hjarta mínu að ég gæti haldið mér vakandi og þyrfti aldrei að nota það. Ferðinni lauk átakalaust.

Nokkrum dögum síðar bauð sami liðsforinginn mér inn á skrifstofu sína til einkaviðtals. Hann sagði mér að þótt hann hafi haft áhyggjur af því að ég gæti ekki

haldið mér vakandi alla ferðina, þætti honum virðingarvert að ég skyldi standa fast á sannfæringu minni. Mér til mikillar undrunar sagði hann síðan að aðstoðarmaður hans hefði verið fluttur og hann hefði mælt með mér sem nýjum aðstoðarmanni sínum!

Næstu þrjú árin fékk ég næg tækifæri til alls kyns stjórnunarstarfa. Því fór svo að reynsla mín af herþjónustu varð betri en mig hafði nokkru sinni dreymt um.

Af þessari einföldu sögu – og mörgum henni líkum í lífi mínu – hef ég lært að trúin er svarið við áhyggjuefnum okkar, vanda og þjáningum. Trú á Drottin, Jesú Krist, er vissulega sá kraftur sem breytt getur lífi manna og leitt okkur til sáluhjálpar.

Hvernig getum við byggt upp slíka trú? Með verkum okkar. Við verðum að „fara og gjöra það, sem Drottinn hefur boðið," rétt eins og Nefí ráðlagði. Við verðum að „treysta Drottni af öllu hjarta," eins og móðir mín kenndi mér svo ástúðlega. Iðulega þegar við sýnum þá trú að gera vilja Drottins finnum við þakksamlega að við erum ríkulega blessuð fyrir hlýðni okkar.

Stundum komumst við þó að því, að jafnvel þegar við gerum okkar besta til að þjóna Drottni, þjáumst við samt. Þið þekkið ef til vill einhvern sem býr við þær erfiðu aðstæður. Hugleiðið foreldri sem á veikt barn, er allir biðja og fasta fyrir af öllu hjarta og allri sál sinni, en deyr samt. Eða trúboðann sem fórnar miklu til að fara í trúboð, en veikist þá illilega og verður eftir það vanmátta og í stöðugri kvöl. Eða konuna sem lifir eins trúföst og hlýðin og hún getur en fær aldrei eignast börnin sem hún þráir. Eða eiginkonuna sem gerir sitt besta til að búa fjölskyldu sinni gott heimili og elur upp börn sín, en síðan yfirgefur eiginmaðurinn hana. Í ritningunum eru mörg dæmi um fólk sem bjargaðist eftir að hafa sýnt mikla trú, til að mynda Sadrak, Mesak og Abed-Negó í eldsofninum. Og í ritningunum eru einnig mörg dæmi um trúfast fólk sem ekki fékk guðlega hjálp á örlagastundum. Abinadí lét lífið á báli, Jóhannes skírari var hálshöggvinn, fylgjendum Alma og Amúleks var varpað á eldinn. Að gera vel tryggir ekki að allt muni alltaf ganga að óskum. Aðalatriðið er að muna að trúin er samt svarið – jafnvel þegar illa fer, kannski einmitt þegar illa fer.

Munið að Drottinn hefur lofað því að hjálpa okkur í mótlæti. Hann hefur sérstaka samúð með þeim sem þjást. Það var hann sem sagði: „Sælir eru sorgbitnir, því að þeir munu huggaðir verða."[2]

Drottinn mátti þola alla hluti, það var hluti af friðþægingunni. Hann þekkir líkamlegar og andlegar kvalir. Hann þekkir sorg og svik. En hann sýndi okkur að einlægur kærleikur, þolinmæði, auðmýkt og hlýðni eru leiðin til hins sanna friðar og hamingju. Jesús sagði: „Frið læt ég yður eftir, minn frið gef ég yður." En síðan ráðlagði hann okkur að leita ekki aðeins veraldlegrar huggunar og sagði: „Ekki gef ég yður eins og heimurinn gefur."[3] Heimurinn leggur þann skilning í frið, að losna við baráttu eða þjáningar, en Jesús býður okkur hugarró þrátt fyrir þjáningar. Líf hans var ekki laust við baráttu eða sársauka, en það var laust við ótta og innihaldsríkt. Pétur postuli skrifaði: „Ef þér sýnið þolgæði, er þér líðið illt, þótt þér hafið breytt vel, það aflar velþóknunar hjá Guði. Til þessa eruð þér kallaðir. Því að Kristur leið einnig fyrir yður og lét yður eftir fyrirmynd, til þess að þér skylduð feta í hans fótspor. ... Hann illmælti eigi aftur, er honum var illmælt, og hótaði eigi, er hann leið, heldur gaf það í hans vald, sem réttvíslega dæmir."[4]

Við sem tekið höfum á móti Jesú Kristi sem frelsara okkar verðum að treysta að fullu á verðleika Krists. Hann mun frelsa okkur eftir að við höfum gert allt sem við getum gert. Þegar við hugrökk sýnum trú, og þegar við sækjum fram og treystum á verðleika Krists, mun hann blessa okkur og leiða í öllu sem við gerum. Hann mun styrkja okkur og færa okkur frið þegar raunir steðja að. „Því að vér lifum í trú, en sjáum ekki."[5] Ég bið þess að við getum öll betur lært að leggja traust okkar á Drottin og auka trú okkar á hann.

Nú vil ég að lokum, bræður mínir og systur, minnast á enn eitt atriði. Á liðnum árum hef ég notið þeirrar blessunar að fylgjast enn betur með Hinckley forseta, og ég vil minna ykkur á að Hinckley forseti er ekki aðeins lifandi spámaður, heldur einnig sjáandi. Hann sér það sem aðrir sjá ekki. Hann hefur gjöf dómgreindar; hann er bjartsýnismaður og raunsæismaður. Ég vil láta í ljós þakklæti mitt til Drottins fyrir að varðveita líf Hinckleys forseta og leyfa honum og göfugum ráðgjöfum hans að leiða kirkjuna síðustu tíu árin. Með guðlegri leiðsögn Hinckleys forseta hefur kirkjan hlotið víðtækar blessanir, sem ekki eru allar augljósar. Ég ráðlegg ykkur öllum sterklega að fylgja enn betur ráðgjöf hans og leiðsögn, því að sannlega: „Sjáanda hefur Drottinn upp vakið fyrir fólk sitt.“[6]

Um það ber ég vitni í nafni Jesú Krists, amen.

HEIMILDIR

1. Okv. 3:5–6.
2. Matt 5:4.
3. Jóh 14:27.
4. 1 Pét 2:20–23.
5. 2 Kor 5:7.
6. HDP Móse 6:36.

# „Hvaða gæfa stærri gefast mun, en kristilegir vinir“

**Systir Kathleen H. Hughes**
**fyrsti ráðgjafi í aðalforsætisráði Líknarfélagsins**

Fyrir nokkrum vikum var ég ásamt eiginmanni mínum í musterinu. Þegar við komum inn heilsaði okkur musterisstarfsmaður, kær vinur úr deildinni okkar. Sú kveðja var upphaf framúrskarandi reynslu fyrir okkur. Við hittum og hlutum þjónustu, meir en nokkru sinni að ég minnist, frá mörgu fólki sem við þekktum, vinum úr fyrri deildum, vinum úr samfélaginu, körlum og konum sem við höfðum þjónað með í ýmsum köllunum. Síðasta persónan sem ég hitti var ung kona sem mér fannst ég ekki þekkja. Hún var yndisleg og strax og hún tók til máls mundi ég eftir henni: Robin, ein af ungu stúlkunum í Lárberja bekknum þegar ég var forseti Stúlknafélagsins. Þegar við ræddumst við og bárum saman bækur okkar, sagði hún mér hversu dýrmætur sá tími hefði verið henni. Það sama gilti fyrir mig.

Ég fór úr musterinu djúpt snortin af allri þessari góðvild, og mér varð ljóst hversu mikilvægir vinir hafa verið mér í lífi mínu. Drottinn hefur snert anda minn aftur og aftur, og oftar en ekki hefur snerting hans verið möguleg vegna vinarhandar.

Fyrir þrjátíuogátta árum í þessum mánuði ferðuðumst við, Dean og ég, þá nýgift, til Nýju Mexíkó til þess að heimsækja foreldra mína. Í þeirri ferð fór faðir minn með okkur í dagsferð upp í fjöllin í norðurhluta fylkisins. Um kvöldið komum við að bíl sem var utan vegar með sprungið dekk. Bílstjórinn sagði föður mínum að varadekkið væri líka sprungið og hann þyrfti far til næsta bæjar til að fá dekkið lagað. Faðir minn, sem sá fjölskyldu mannsins inni í bílnum, sagði við hann: „Þú kemst aldrei í bæinn og til baka aftur fyrir myrkur. En sjáðu til, dekkin þín eru af sömu stærð og mín. Taktu mitt varadekk, og næst þegar þú kemur til Albuquerque, færirðu mér það aftur.“ Sá ókunni, undrandi yfir boðinu, sagði: „En þú þekkir mig ekkert.“ Svar pabba, dæmigert fyrir hann, var: „Þú ert heiðarlegur maður, er ekki svo? Þú skilar mér aftur dekkinu.“

Nokkrum vikum síðar spurði ég pabba um varadekkið. Hann sagði mér að því hefði verið skilað. Faðir minn, nú á 90. aldursári, heldur enn sínum fyrri háttum. Flest fólk á hans aldri fær mat heimsendan, en pabbi minn fer með mat til hinna „öldruðu.“ Hann er oft við sjúkrabeð vina sem veikir eru eða deyjandi. Hann fer út með vélsögina sína og hjálpar Rotarý félögunum með sína árlegu hreinsun. Þegar ég hugsa um líf pabba og starf, minnist ég hugvekju Packers forseta: Hann er „virkur í fagnaðarerindinu.“ Líf hans, eins og sálmurinn leggur til, snertir líf annarra til góðs, og við snertinguna, auðgast allir. Faðir minn skilur hvað vinátta snýst um.

Sem forsætisráð Líknarfélagsins, heyrum við stundum konur segja að þær finni ekki fyrir kærleika Drottins. En ef til vill fyndu þær betur kærleika hans með því að sjá hönd hans í verkum þeirra sem láta sér annt um þær. Það kann að vera meðlimur í grein þeirra eða deild, nágranni, eða jafnvel ókunnugur sem blessar þær og sýnir kristilegan kærleika. Öldungur Henry B. Eyring kenndi: „Þið eruð kölluð til að vera fulltrúar frelsarans. Rödd ykkar sem vitnar, verður rödd hans, hönd ykkar sem lyftir hönd hans ...“ (*Ensign*, nóv. 2002, 76). Ef við getum lyft öðrum í nafni Krists, þá er vissulega hægt að lyfta okkur.

Einn heimiliskennari sem ég þekki heimsótti af trúmennsku aldraða ekkju mánaðarlega. En hann heimsótti hana ekki bara, á hverju hausti stillti hann loftræstikerfi hússins og fylgdist með hitakerfinu í húsi hennar. Var það kærleikur Guðs að verki eða kærleikur heimiliskennarans? Svarið er auðvitað, hvort tveggja.

„Hvaða stærri gjöf færð þú gefið,
Hvaða gæfa stærri gefast mun,
en kristlegir vinir sem ljúflega
styrkja trú okkar, auðga líf okkar.“

Ég hef notið blessana um mína daga vegna kristilegra vina – frá æskuvinum og hinum mikla fjölda fólks sem blessað hefur fjölskyldu okkar í öllum þeim deildum sem við höfum verið í. Trú þeirra og skuldbinding við fagnaðarerindi Jesú Krists, þjónusta þeirra, viturleg og ljúf kennsla þeirra, allt hefur það auðgað líf okkar. Sumir vina minna eru mjög ólíkir mér. Við erum ósammála um ýmislegt. Við ergjum jafnvel hvert annað. En vinátta stenst ágreining – fagnar honum reyndar. Ég nýt þess að heimsækja stikur sem samanstanda af fólki af ólíkum toga, aldri, uppruna og kynþáttum.

Ég upplifi sérstaka dýpt vináttunnar þegar ég þjóna með systur Parkin og Pingree og öðrum konum í forsætisráðum aðildarfélaganna. Þetta eru góðar konur. Ó, hve ég elska þær. Eftir þriggja ára samstarf, þekkja mínar kæru systur í forsætisráðinu mig vel. Þær þekkja trú mína og vitnisburð, en þær þekkja einnig óöryggi mitt og áhyggjur. Þær vita einnig að þegar ég er uppgefin eftir langa þjálfunarferð er ég ekki upp á mitt besta. En ég finn kærleik þeirra og þolinmæði og ég veit að þær hugsa enn vel til mín. Vitnisburður þeirra og bænir byggja mig upp; hlátur þeirra lýsir upp daga mína. Í öllum skilningi erum við systur.

Ég hef átt svipaða reynslu með fjölskyldu minni. Ein af yngri systrum mínum hefur barist við krabbamein nokkra undanfarna mánuði. Við búum ekki nálægt hvor annarri, en símhringingarnar færa okkur nær. Í þessum erfiðu rauðum hennar höfum við deilt hvor með annarri kærleika, bænum, minningum og ljúfum vitnisburðum. Systur mínar eru dýrmætir vinir. Svo er einnig um bræður mína, kæran eiginmann, börn mín og barnabörn (hversu hávaðasöm sem þau kunna að vera.)

Á fyrri árum endurreisnarinnar söfnuðust nýir meðlimir saman til að skapa „Síon.“ Síon var bæði staður og tilgangur – andi. Við söfnumst ekki lengur saman á þann hátt. Greinar okkar og deildir eru nú okkar Síon. En andi Síonar ríkir þar því aðeins að meðlimirnir beri umhyggju hver fyrir öðrum. Sorglegt er að stundum heyrum við um konur, og karla, sem hafa orðið tilfinningalega sár og skilið sig frá öðrum kirkjumeðlimum. Ef þú átt í slíkum ógöngum – hvort sem þú ert sá móðgaði eða sá sem móðgað hefur – leitaðu þá fyrirgefningar; gerðu þér grein fyrir eigin þætti í villunni. Mundu eftir ábendingu Krists til okkar: „Ég segi yður: Verið eitt, og ef þér eruð ekki eitt, eruð þér ekki mínir“ [K&S 38:27].

Ég fékk nýlega tækifæri til að tala við konu sem spurði mig um Joseph Smith. Hún hafði greinilega efasemdir um köllun hans og starf. Við orð hennar, komu mér í hug orð Drottins til Olivers Cowdery: „Stattu með þjóni mínum, Joseph, [dyggilega] ...“ (K&S 6:18). Ég vona að dag hvern, og hverja stund lífs míns, verði unnt að segja um mig: „Hún stóð með Joseph.“ Ég vil vera vinur hans.

Joseph Smith var sjálfur traustur vinur margra. Hann sagði: „Vinátta er ein af hinum miklu grundvallarreglum ‘Mormónisma’; [hún er til þess gerð] að umbylta og menningarvæða heiminn, og valda því að stríði og átökum linni, að menn verði vinir og bræður“ [HC 5:517]. Auk þess vissi hann að vinátta er meira en orðin tóm. Hann frétti dag einn að óvinirnir hefðu kveikt í húsi eins bróðurins. Þegar kirkjuþegnar töluðu um að þeir vorkenndu honum, tók spámaðurinn nokkra peninga upp úr vasa sínum og sagði: „Ég vorkenni þessum bróður sem nemur upphæðinni fimm dalir. Hve

mikið vorkennið þið honum?“ (Hyrum L. Andrus og Helen Mae Andrus, tóku saman, They Knew the Prophet, bls. 150)

Höfum við sömu afstöðu til vináttu og spámaðurinn Joseph hafði? Snúum við góðum tilfinningum okkar upp í praktíska aðstoð? Guð þekkir þarfir barna sinna, og oft vinnur hann í gegnum okkur, hvetur okkur til að hjálpa hvert öðru. Þegar við förum eftir slíkum ábendingum, erum við á helgri braut, því okkur býðst tækifæri til að þjóna sem fulltrúar Guðs sem bænarsvar.

Bræður og systur, ef við erum vinir spámannsins Josephs, þá erum við jafnframt vinir frelsararans. Lifum við þannig að við lýsum yfir „hollustu við nafn frelsarans“? Það gerði Joseph Smith, og á þessu ári, þegar við heiðrum manninn sem hratt af stað ráðstöfuninni í fyllingu tímanna, ættum við ekki aðeins að minnast vináttu hans við mannkyn, heldur einnig vináttu hans og skuldbindingu við Drottin. Spámaðurinn sagði: „Ég mun reyna að sætta mig við hlutskipti mitt vitandi að Guð er vinur minn. Í honum mun ég huggun hljóta.“ (Joseph Smith, The Personal Writings of Joseph Smith, 239, standardized)

Okkur ætti öllum að vera fullkomlega ljóst, að æðstu vináttubönd okkar ættu að vera við himneskan föður okkar og son hans, Jesú Krist. Frelsarinn hefur með samúð sagt við okkur: „Ég [vil] kalla yður vini, því að þér eruð vinir mínir ...“ (K&S 93:45). Heitasta þrá hans okkar vegna, bræðra hans og systra, er að leiða okkur aftur til föðurins. Og leið okkar er ljós: Þroska með okkur í lífinu, eins og unnt er, eiginleika og einkenni Krists. Hlýða boðorðum hans, vinna verk hans og lúta vilja hans.

Þegar ég hugsa aftur til þess dags þegar margir mér svo kærir heilsuðu mér í musterinu, vil ég trúa því að við getum notið jafn mikilla blessana í daglegu lífi. Ég fann elsku sem virtist brot af hinni hreinu ást Krists – kærleikanum sem fylla ætti hjörtu okkar. Ég sé fyrir mér deildir og greinar þar sem vinir á öllum aldri og af ólíkum toga standa saman og laga líf sitt að kenningum Jesú Krists.

Ég ber ykkur vitnisburð minn í dag að Kristur lifir. Ég færi honum þakkir. Ég bið þess að ég megi ávallt vera vinur hans og með því að gjöra svo, verði ég einnig vinur ykkar.

Í nafni Jesú Krists, amen.

# Samtengd hjörtu

**Öldungur Henry B. Eyring**
**í Tólfpostulasveitinni**

Boðskapur minn er til þeirra sem hafa snúist til trúar á kirkjuna. Meira en helmingur núverandi kirkjuþegna hafa valið að láta skírast eftir átta ára aldur. Þið eruð því engar undantekningar í kirkjunni. Við ykkur vil ég segja að Drottinn ann ykkur mikið og treystir ykkur. Og enn frekar segja ykkur hve mikið hann treystir á ykkur.

Þið funduð ást hans að vissu marki þegar þið létuð skírast. Fyrir mörgum árum fór ég með ungan mann, tvítugan að aldri, ofan í skírnarvatnið. Við félagi minn höfðum kennt honum fagnaðarerindið. Hann var sá fyrsti í fjölskyldu sinni sem heyrði hið endurreista fagnaðarerindi. Hann bað um skírn. Vitnisburður andans vakti með honum löngun eftir að fylgja fordæmi frelsarans, sem hlaut skírn hjá Jóhannesi skírara, jafnvel þótt hann væri syndlaus.

Þegar ég leiddi þennan unga mann upp úr skírnarvatninu kom hann mér á óvart þegar hann faðmaði mig og hvíslaði í eyra mér um leið og tárin runnu: „Ég er hreinn, ég er hreinn." Þegar við höfðum lagt hendur okkar á höfuð þessa sama unga manns með valdi Melkísedeksprestdæmisins og veitt honum heilagan anda, sagði hann: „Þegar þú mæltir þessi orð fannst mér sem eldur léki um mig allan, frá toppi til táar."

Reynsla þín hefur verið þér einstök, en að vissu marki fannst þú víðfeðmi þeirrar blessunar sem barst þér. Síðan þá hefur þú fundið raunveruleika þeirra loforða sem þú fékkst og þeirra loforða sem þú gafst. Þú hefur fundið hreinsun skírnarinnar, vegna friðþægingar Jesú Krists. Og þú hefur fundið umbreytingu hjarta þíns þegar heilagur andi hefur orðið félagi þinn. Þrár þínar hafa tekið breytingum.

Þegar einhver segir mér að hann hafi snúist til trúar á kirkjuna, spyr ég: „Hefur einhver í fjölskyldu þinni tekið á móti fagnaðarerindinu?" Ef svarað er játandi, fylgir skemmtileg lýsing á ánægjulegu kraftaverki í lífi foreldris, bróður, systur, afa eða ömmu. Það er gleðiefni að vita að einhver í fjölskyldu þeirra tekur þátt í blessunum þeirra og hamingju. Ef svarið er: „Nei, ég er enn eini meðlimurinn," munu þeir nánast alltaf tala um foreldra sína. Þeir segja eitthvað þessu líkt: „Nei, ekki enn. En við erum að reyna." Og heyra má af röddinni að þeir munu aldrei hætta að reyna, aldrei nokkru sinni.

Drottinn vissi að þannig myndi ykkur líða þegar hann valdi ykkur úr heiminum til að taka á móti þeim sáttmálum sem blessa líf ykkar. Hann vissi að þið mynduð þrá að fjölskylda ykkar nyti sömu blessana og þið þegar þið genguð í kirkjuna. Það sem meira er, hann vissi að sú þrá myndi aukast þegar þið kynntust gleði þeirra fyrirheita sem hann veitir okkur í helgum musterum sínum. Þar leyfir hann þeim sem verðugir eru að gera sáttmála við sig. Við lofum að halda boðorð hans. Hann lofar okkur, að ef við erum staðföst, fáum við lifað í dýrð með honum sem eilífar fjölskyldur í komanda heimi.

Í kærleiksríkri góðvild sinni vissi hann að þið mynduð þrá að vera eilíflega bundin foreldrum ykkar og foreldrum þeirra. Þið kunnið að eiga afa eins og minn, sem alltaf virtist þykja vænt um heimsóknir mínar. Ég hélt að ég væri eftirlætis afabarnið þangað til frændur mínir sögðust hafa haldið það sama. Hann er nú horfinn. Afar mínir og ömmur og forfeður þeirra eru dánir. Margir áar ykkar dóu án þess að fá tækifæri til að taka á móti fagnaðarerindinu og hljóta þær blessanir og þau loforð sem þið hafið hlotið. Drottinn er sanngjarn og hann er kærleiksríkur. Og því greiddi hann

okkur leið til þess að þær óskir okkar rættust, að áar okkar gætu hlotið allar þær blessanir sem hann hefur boðið okkur.

Áætlunin um að gera þetta mögulegt hefur verið til frá upphafi. Drottinn gaf börnum sínum loforð fyrir löngu. Síðasta bók Gamla testamentisins er bók Malakís. Og síðustu orðin eru ljúft loforð og ákveðin viðvörun.

„Sjá, ég sendi þér Elía spámann, áður en hinn mikli og ógurlegi dagur Drottins kemur. Hann mun sætta feður við sonu og sonu við feður, til þess að ég komi ekki og ljósti landið banni.“[1]

Sum þessara orða er brýnt að skilja. Hinn mikli og ógurlegi dagur Drottins er endalok heimsins. Jehóva, Messías, mun koma í dýrð. Hinum ranglátu mun öllum tortímt. Við lifum á síðustu dögum. Tíminn til að gera allt sem við höfum lofað að gera kann að vera naumur.

Mikilvægt er að vita hvers vegna Drottinn lofaði að senda Elía. Elía var mikill spámaður og Guð hafði veitt honum mikinn kraft. Hann hafði hlotið þann mesta kraft sem Guð veitir börnum sínum: Innsiglunarkraftinn, til að binda á jörðu og á himni. Guð veitti Pétri postula hann. Og Drottinn efndi það loforð sitt að senda Elía. Elía birtist spámanninum Joseph Smith 3. apríl 1836, rétt eftir vígslu Kirtland-musterisins, fyrsta musterisins sem byggt var eftir endurreisn fagnaðarerindisins. Joseph lýsti þeirri helgu stund:

„[Þá] birtist okkur önnur mikil og dýrðleg sýn, því að spámaðurinn Elía, sem hrifinn var til himins án þess að smakka dauðann, stóð frammi fyrir okkur og sagði: Sjá, sá tími er nú að fullu kominn, sem talað var um fyrir munn Malakís – er vitnaði um að hann [Elía] yrði sendur, áður en hinn mikli og ógurlegi dagur Drottins kæmi – Til að snúa hjörtum feðranna til barnanna og barnanna til feðranna, til þess að öll jörðin verði ekki lostin banni – Þess vegna eru lyklar þessara ráðstafana seldir yður í hendur, og með því skuluð þér vita, að hinn mikli og ógurlegi dagur Drottins er í nánd, fyrir dyrum.“[2]

Síðan þið genguð í kirkjuna hafið þið fundið hjörtu ykkar beinast að fjölskyldu ykkar, bæði þeim sem lifa og þeim sem eru í andaheiminum. Drottinn veitti aðra sýn svo að þið vissuð hvað gera ætti við þær tilfinningar.

Að Joseph Smith gengnum kallaði Drottinn aðra spámenn til að leiða kirkju sína. Einn þeirra var Joseph F. Smith. Hann sá í sýn það sem gerðist í andaheiminum þegar frelsarinn birtist þar á tímanum milli dauða hans og upprisu. Smith forseti sá gleði andanna þegar þeir heyrðu að frelsarinn hefði rofið helsi dauðans og vegna friðþægingar hans gætu þeir risið upp frá dauðum. Og hann sá frelsarann skipuleggja þjóna úr hópi andanna til að prédika fagnaðarerindi hans hverjum anda og veita þeim tækifæri til að taka á móti sáttmálunum og blessununum sem standa ykkur til boða og sem þið viljið að forfeður ykkar og mæður hljóti. Allir ættu að fá það tækifæri.

Smith forseti sá einnig leiðtogana sem frelsarinn kallaði til að flytja fagnaðarerindið börnum himnesks föður í andaheiminum. Hann nefndi suma þeirra: Föður Adam, móður Evu, Nóa, Abraham, Esekíel, Elía, spámenn sem við þekkjum úr Mormónsbók og nokkra frá síðari dögum, þar á meðal Joseph Smith, Brigham Young, John Taylor og Wilford Woodruff. Hugsið ykkur kraft þessara trúboða til að kenna fagnaðarerindið og snerta hjörtu forfeðranna. Ekki þarf að undra að Wilford Woodruff hafi sagt í lifanda lífi, að hann tryði því að fáir, ef nokkrir, forfeður Síðari daga heilagra í andaheiminum myndu hafna boðskap sáluhjálpar þegar þeir heyrðu hann.[3]

Margir af látnum áum okkar hafa fengið vitnisburð um að boðskapur trúboðanna sé sannur. Þegar þið hlutuð þann vitnisburð gátuð þið beðið trúboðana um skírn. En þeir sem í andaheiminum eru geta það ekki. Hinar dýrmætu helgiathafnir standa aðeins til boða í þessum heimi. Einhver í þessum heimi verður að fara til

heilags musteris og gera sáttmála í þágu þeirra sem í andaheiminum eru. Þess vegna er það skylda okkar að finna nöfn ættmenna okkar og tryggja að þeim bjóðist það sem þeir geta ekki fengið án okkar hjálpar.

Vitneskjan um þetta snýr ekki aðeins hjarta mínu til ættmenna minna sem bíða heldur einnig til trúboðanna sem kenna þeim. Ég mun hitta þessa trúboða í andaheiminum og svo munuð þið. Hugsið ykkur spámann standa þar hjá þeim sem hann hefur elskað og kennt og eru ættmenni ykkar. Ímyndið ykkur eins og ég geri bros spámanns þegar þið gangið til hans og ættmenna ykkar sem hann hefur snúið til trúar en gat ekki skírt né innsiglað fjölskyldunni fyrr en þið komuð til bjargar. Ég veit ekki hver venjan er þar, en ég ímynda mér faðmlag og þakklætistár.

Ef þið getið ímyndað ykkur bros trúboðans og ættingjans, hugleiðið þá frelsarann þegar þið hittið hann. Og það munuð þið. Hann greiddi gjaldið fyrir syndir ykkar og öll andabörn himnesks föður. Hann er Jehóva. Hann sendi Elía. Af fullkominni elsku veitti hann prestdæmiskraftinn til að innsigla og blessa. Og hann treysti ykkur með því að láta ykkur heyra fagnaðarerindið í ykkar lífi, veita ykkur tækifæri til þess að taka á ykkur þá skyldu að bjóða það þeim ættmennum ykkar sem ekki fengu sama dýrmæta tækifærið. Hugleiðið hve þakklátur hann er þeim sem greiða gjaldið með því verki sínu og trú að finna nöfn ættmenna sinna og elska þau og hann nægilega til að bjóða þeim varanleg fjölskyldubönd í eilífu lífi, sem er stærst allra gjafa Guðs. Hann færði æðstu fórnina. Hann mun elska og þakka þeim sem greiddu það gjald sem þurfti til þess að ættmenn þeirra gætu tekið boði hans um eilíft líf.

Gjaldið er ef til vill ekki svo hátt, því hjarta ykkar hefur þegar snúist til þeirra. Þið byrjið á einfaldan hátt. Skrifið það sem þið þegar vitið um fjölskyldu ykkar. Þið þurfið að skrifa nöfn foreldra og foreldra þeirra og einnig fæðingar-, dánar- eða giftingardaga. Einnig staðarnöfn ef unnt er. Sumt munuð þið þekkja og vita þegar. En þið getið líka spurt ættingja. Þið eigið ef til vill fæðingar-, giftingar- eða dánarvottorð. Takið ljósrit og raðið þeim. Ef þið heyrið sögur úr lífi þeirra, skuluð þið skrifa þær niður og geyma. Þið eruð ekki aðeins að safna nöfnum. Þeir sem þið hittuð aldrei í þessu lífi verða ástkærir vinir. Hjörtu ykkar verða bundin þeim að eilífu.

Þið getið byrjað á fyrstu kynslóðunum og rakið þaðan. Þannig getið þið nafngreint mörg ættmenni sem þarfnast hjálpar ykkar. Einhver í ykkar eigin deild eða grein kirkjunnar hefur verið kallaður til að hjálpa ykkur að búa þessi nöfn undir musterið. Þar má bjóða þeim sáttmálana sem munu leysa þau úr andavarðhaldi sínu og binda þau saman sem fjölskyldu ... ykkar fjölskyldu ... að eilífu.

Tækifæri ykkar og skyldan sem þau skapa eru undursamleg í sögu þessa heims. Nú eru fleiri musteri á jörðu en nokkru sinni fyrr. Sífellt fleiri um allan heim hafa fundið anda Elía hvetja sig til að skrá nöfn og staðreyndir um líf forfeðra og mæðra. Til eru fleiri leiðir við leit ættmenna en nokkru sinni fyrr í veraldarsögunni. Drottinn hefur úthellt vitneskju um hvernig afla megi upplýsinga vítt um heim með tækni sem fyrir nokkrum árum hefði talist kraftaverk.

En þessum tækifærum fylgir sú aukna skylda að leggja traust sitt á Drottin. Af þeim sem mikið er gefið, verður mikils krafist.[4] Þegar þið hafið fundið nokkrar fyrstu kynslóðirnar verður leiðin erfiðari. Gjaldið eykst. Þegar þið komist lengra aftur verða heimildirnar ófullkomnari. Þegar aðrir í fjölskyldu ykkar leita ættmennanna munuð þið komast að því að þeim hafa þegar boðist fullar blessanir musterisins. Þá eigið þið fyrir höndum erfitt og mikilvægt val. Þið freistist til að hætta og láta aðra sem hæfari eru um verkið, eða geyma það til síðari tíma. En þið munuð einnig finna hvöt í hjarta ykkar um að halda áfram, þótt erfitt sé.

Þá er vert að hafa í huga að nöfnin sem svo erfitt er að finna eru nöfn raunverulegs fólks, sem þið eigið tilveru ykkar í þessum heimi að þakka og sem þið munuð hitta aftur í andaheiminum. Þegar þið létuð skírast fylgdust ættmenni ykkar í von með. Ef til vill hafa þeir beðið í aldir eftir að fagna því að einn af niðjum þeirra gerði sáttmála um að finna þá og bjóða þeim frelsi. Þegar þið hittist munuð þið sjá í augum þeirra annað hvort þakklæti eða hræðileg vonbrigði. Hjörtu þeirra eru bundin ykkur. Von þeirra í ykkar höndum. Þið þurfið ekki að treysta á eigin styrk ef þið takið þá ákvörðun að reyna að finna þau.

Fyrir nokkrum nóttum dreymdi mig draum. Ég sá hvítan miða með nafni sem ég þekkti ekki og dagsetningu sem ég gat aðeins að nokkru lesið. Ég fór á fætur og sótti ættarskýrslur mínar. Ættarnafnið á miðanum kom inn í ætt móður minnar fyrir þremur öldum á stað sem heitir Eaton Bray. Einhver þráir heitt að löng bið taki enda. Ég hef enn ekki fundið þessa persónu. En ég hef enn á ný fengið fullvissu um að elskandi Guð sendir hjálp sem bænarsvar í þessu helga verki, að endurleysa ættmenni okkar, því það er verk hans og dýrð hans, og því verki höfum við helgað hjarta okkar.

Um það ber ég vitni í nafni Jesú Krists, amen.

HEIMILDIR

1. Malakí 4:5–6.
2. K&S 110:13–16.
3. Sjá Discourse by President Wilford Woodruff, *Latter-day Saints' Millennial Star*, 21. maí 1894, bls. 339–40.
4. Sjá Lúk 12:48.

# „ÞAÐ MIKLA SEM GUÐ HEFUR OPINBERAГ

**Gordon B. Hinckley forseti**

Bræður mínir og systur, eins og minnst hefur verið á, munum við í desembermánuði fagna því að 200 ár eru liðin frá fæðingu spámannsins Josephs Smith. Fram að því mun margt gerast til þess að fagna þessum merku tímamótum.

Bækur verða gefnar út, námsstefnur verða sem ýmsir fræðimenn taka þátt í, hátíðasýningar, ný kvikmynd, og heilmargt annað.

Í tengslum við þetta, finnst mér, sem þeim 15. í röðinni frá þessum mikla hátindi afrekanna, rétt að bera vitni um guðlega köllun hans.

Ég held í hendi mér dýrmætri litilli bók. Hún var gefin út í Liverpool, Englandi, af Orson Pratt árið 1853, fyrir 152 árum. Það er frásögn Lucy Mack Smith af lífi sonar síns.

Þar er greint með nokkurri nákvæmni frá komu engilsins Morónís og tilurð Mormónsbókar.

Í bókinni segir frá því að þegar bróðir hans Alvin heyrði um fundi Josephs með englinum stakk hann upp á að fjölskyldan kæmi saman og hlustaði á hann greina frá „því mikla sem Guð hefur opinberað."

Ég byggi á þeim orðum viðfangsefni ræðu minnar – hinum miklu hlutum sem Guð hefur opinberað með spámanninum Joseph. Leyfið mér að nefna fátt eitt af þeim mörgu kenningum og starfsaðferðum sem aðgreina okkur frá öllum öðrum kirkjum, og allt barst með opinberun til hins unga spámanns . Þetta þekkið þið, en það er þess virði að minna á það og velta því fyrir sér.

Það fyrsta er að sjálfsögðu þegar Guð sjálfur birtist ásamt elskuðum syni sínum, hinum upprisna Drottni Jesú Kristi. Þessi mikla vitrun Guðdómsins er að mínum dómi, stærsti slíki atburðurinn frá fæðingu, lífi, dauða og upprisu Drottins okkar á hádegisbaugi tímans.

Við höfum engar frásagnir af öðrum sambærilegum atburði.

Um aldir komu menn saman og þráttuðu um eðli guðdómsins. Konstantínus safnaði saman fræðimönnum úr ýmsum greinum til Níkeu árið 325. Eftir tveggja mánaða umræður, sættust þeir á málamiðlun sem um aldaraðir hefur verið kenningarleg yfirlýsing meðal kristinna manna varðandi Guðdóminn.

Ég býð ykkur að lesa þá skilgreiningu og bera hana saman við yfirlýsingu drengsins Josephs. Hann segir einfaldlega að Guð hafi staðið fyrir framan sig og talað við sig. Joseph gat séð hann og heyrt til hans. Hann var í mannsmynd, og efnisvera. Við hlið hans var hinn upprisni Drottinn, aðskilin vera, sem hann kynnti sem elskaðan son sinn og við hann gat Joseph einnig talað.

Ég bendi á að á hinum stutta tíma þessarar athyglisverðu sýnar lærði Joseph meira varðandi Guðdóminn en allir fyrri fræðimenn og klerkar.

Í þeirri guðlegu opinberun var endurstaðfestur ofar öllum vafa raunveruleiki bókstaflegrar upprisu Drottins Jesú Krists.

Þessi þekking á Guðdómnum, hulin heiminum um aldir, var það fyrsta af því mikla sem Guð opinberaði sínum útvalda þjóni.

Og á raunveruleika og sannleik þeirrar sýnar hvílir gildi Kirkju Jesú Krists hinna Síðari daga heilögu.

Ég minnist næst á annan mjög mikilvægan hlut sem Guð opinberaði.

Hinn kristni heimur viðurkennir Biblíuna sem orð Guðs. Fæstir hafa nokkra hugmynd um hvernig hún barst okkur.

Ég hef rétt nýlega lokið við að lesa nýútgefna bók eftir viðurkenndan fræðimann. Ljóst er af upplýsingum sem hann veitir að mismunandi bækur Biblíunnar voru tengdar saman á að því er virðist óskipulegan hátt. Í sumum tilvikum, voru ritin ekki sett saman fyrr en löngu eftir að atburðir sem lýst er gerðust. Maður hlýtur að spyrja: „Er Biblían sönn? Er hún raunverulega orð Guðs?"

Við svörum að það er hún, að svo miklu leyti sem hún er rétt þýdd. Drottinn hafði hönd í bagga við gerð hennar. En núorðið stendur hún ekki ein. Til er annað vitni um merkan og mikilvægan sannleika sem í henni er.

Ritningarnar segja að „því aðeins skal framburður gildur vera, að tveir eða þrír beri" (2 Kor 13:1).

Mormónsbók hefur birst fyrir gjöf og kraft Guðs. Hún talar sem rödd úr duftinu og vitnar um son Guðs. Hún talar um fæðingu hans, um þjónustu hans, um krossfestingu hans og upprisu, og segir frá því þegar hann birtist hinum réttlátu í landinu Nægtabrunni á meginlandi Ameríku.

Hún er áþreifanlegur hlutur sem hægt er að handleika, hana má lesa, hana má sannreyna. Innan spjalda hennar er loforð um guðlegan uppruna hennar. Nú hafa milljónir manna látið á reyna og fundið að hún er sönn og heilög frásögn.

Af þeim sem ekki er okkar trúar hefur hún verið nefnd sem ein af tuttugu bókum sem gefnar hafa verið út í Ameríku er mest áhrif hafa haft á þá sem þær hafa lesið.

Eins og Biblían er vitni gamla heimsins, þannig er Mormónsbók vitni hins nýja. Þær haldast í hendur við að lýsa yfir að Jesús sé sonur föðurins.

Á síðustu tíu árum hefur 51 milljón eintaka verið dreift. Hún er nú fáanleg á 106 tungumálum.

Þessi helga bók, sem kom fram sem opinberun frá almættinu, er vissulega annað vitni um guðdómleika Drottins okkar.

Ég hefði talið að allur hinn kristni heimur myndi bjóða hana velkomna og fagna henni sem lifandi vitnisburði. Hún stendur sem annað mikið grundvallar framlag sem barst með opinberun til spámannsins.

Enn eitt er endurreist prestdæmið. Prestdæmið er valdsumboð til að starfa í nafni Guðs. Slíkt valdsumboð er hornsteinn hverra trúarbragða. Ég hef lesið aðra bók nýlega. Hún fjallar um fráhvarfið í upprunalegu kirkjunni. Hafi valdsumboð þeirrar kirkju glatast, hvernig gat það þá fengist á ný?

Valdsumboð prestdæmisins barst frá þeim eina stað sem það gat komið frá, og það er frá himnum. Þeir afhentu það sem höfðu það þegar frelsarinn gekk á jörðu.

Fyrst var það Jóhannes skírari sem veitti Aronsprestdæmið, eða hið minna prestdæmi. Á eftir komu Pétur, Jakob og Jóhannes, postular Drottins Jesú Krists, og veittu Joseph og Oliver Cowdery Melkísedeksprestdæmið sem þessir sömu postular höfðu fengið af hendi Drottins sjálfs þegar hann lifði á jörðu og hann sagði:

„Ég mun fá þér lykla himnaríkis, og hvað sem þú bindur á jörðu, mun bundið á himnum, og hvað sem þú leysir á jörðu, mun leyst á himnum" (Matt 16:19).

Hversu fagur er sá ferill endurreisnar sem leiddi til stofnunar kirkjunnar á árinu 1830, fyrir 175 árum í þessari viku. Sjálft nafn kirkjunnar fékkst með opinberun. Hvers kirkja var hún? Var hún Josephs Smith? Var hún Olivers Cowdery? Nei, hún var Kirkja Jesú Krists endurreist á jörðu á þessum síðari dögum.

Önnur mikil og einstök opinberun gefin spámanninum var áætlunin um eilíft líf fjölskyldunnar.

Fjölskyldan er sköpun almættisins. Hún er helgust allra sambanda. Hún er alvarlegast allra verkefna. Hún er grundvallarstofnun samfélagsins.

Með opinberunum Guðs til spámanns hans fengust kenningar og valdsumboð sem innsigla fjölskyldur saman ekki einungis fyrir þetta líf, heldur alla eilífð.

Ég tel að ef við hefðum afkastagetu til að kenna árangursríkt þessa einu kenningu, mundi hún vekja áhuga milljóna eiginmanna og eiginkvenna sem elska hvort annað og elska börn sín, en eru í hjónabandi sem varir aðeins „þar til dauðinn aðskilur.“

Sakleysi ungra barna er önnur opinberun sem Guð hefur veitt fyrir atbeina spámannsins Josephs. Almenna reglan er skírn ungbarna sem losar þau undan því sem kallað er synd Adams og Evu. Samkvæmt kenningu endurreisnarinnar er skírn til fyrirgefningar á eigin persónulegum syndum. Hún verður sáttmáli milli Guðs og manns. Hún er framkvæmd við ábyrgðaraldur þegar fólk er nógu gamalt til að gera greinarmun á réttu og röngu. Hún er með niðurdýfingu og táknræn um dauða og greftrun Jesú Krists og endurkomu hans í upprisunni.

Ég held áfram og nefni enn einn opinberaðan sannleika.

Okkur er sagt að Guð fari ekki í manngreinarálit, og samt eru ekki í neinni annarri kirkju, sem ég veit um, ráðstafanir gerðar fyrir þá sem eru handan hulu dauðans til að taka á móti öllum blessunum sem bjóðast hinum lifandi. Hin mikla kenning um sáluhjálp fyrir hina dánu er einstæð fyrir þessa kirkju.

Menn hrósa sér af því að þeir séu „frelsaðir“ en í sömu andrá játa þeir að forfeður þeirra séu það ekki og geti ekki frelsast.

Friðþæging Jesú í þágu allra sýnir mikla staðgengilsfórn. Hann hóf ferli, þar sem hann gerðist staðgengill fyrir allt mannkyn. Þetta ferli, þar sem einn maður getur starfað í þágu annars, heldur áfram í helgiathöfnunum í húsi Drottins. Þar þjónum við í þágu þeirra sem dáið hafa án þekkingar á fagnaðarerindinu. Þeirra er valið að meðtaka eða hafna helgiathöfninni sem framkvæmd er. Þeir eru komnir í sömu spor og þeir sem um jörðina ganga. Hinum dánu eru veitt sömu tækifæri og hinum lifandi. Enn á ný, hversu dýrðlegar og undursamlegar ráðstafanir hefur almættið gert með opinberunum þess til spámannsins.

Eilíft eðli mannsins hefur verið opinberað. Við erum synir og dætur Guðs. Guð er faðir anda okkar. Við lifðum áður en við komum hingað. Við höfðum persónuleika. Við fæddumst inn í þetta líf samkvæmt guðlegri áætlun. Við erum hér til að láta reyna á verðugleika okkar, breytum samkvæmt því sjálfræði sem Guð hefur gefið okkur. Þegar við deyjum höldum við áfram að lifa. Eilíft líf okkar skiptist í þrjú stig; fyrsta, fortilvera okkar; annað, jarðnesk tilvera okkar; og þriðja, framhaldslíf okkar. Í dauðanum deyjum við þessum heimi og förum gegnum huluna inn í þá tilvist sem við höfum verðleika til að fá. Þetta er einnig einstæð, sérstæð, og dýrmæt kenning þessarar kirkju sem fengist hefur með opinberun.

Ég set fram þetta stutta yfirlit yfir það gríðarmikla þekkingarflóð og valdsumboð sem Guð veitti spámanni sínum. Ef tími leyfði gæti ég nefnt margt fleira. Þó er eitt enn sem ég verð að nefna. Það er reglan um nútíma opinberun. Trúaratriðin sem spámaðurinn ritaði segja:

„Vér trúum öllu, sem Guð hefur opinberað, öllu, sem hann nú opinberar, og vér trúum að hann muni enn opinbera margt stórfenglegt og mikilvægt varðandi Guðs ríki“ (Trúaratriðin 1: 9).

Vaxandi kirkja, kirkja sem breiðist út um jörðina á þessum erfiðu tímum, þarfnast stöðugrar opinberunar frá hásæti himna til að leiða hana áfram.

Með bæn og í ákafri leit eftir vilja Drottins, berum við vitni um að leiðsögn fæst, opinberun berst, og Drottinn blessar kirkju sína á leið hennar á vit örlaga sinna.

Á traustum grundvelli guðlegrar köllunar spámannsins Josephs og opinberunum frá Guði sem honum hlotnuðust, höldum við fram á leið. Miklu hefur

verið áorkað við að koma okkur þangað sem við nú erum. En miklu er enn ólokið í því ferli að færa þetta endurreista fagnaðarerindi „sérhverri þjóð og kynkvísl, tungu og lýð“ (Op 14:6).

Ég fagna tækifærinu til að vinna með ykkur er við sækjum fram í trú. Byrðin er stundum þung, eins og þið vitið vel. En kvörtum ekki. Göngum í trú, hver með sitt verk.

Á þessu fagnaðarári, skulum við heiðra spámanninn, sem Guð opinberaði svo margt, með okkar eigin framgangi.

Sólin reis í lífi Josephs á köldum degi í Vermont 1805. Hún settist í Illinois á mollulegu kvöldi 1844. Á þeim stuttu 39 árum sem hann lifði barst fyrir hans tilstilli óviðjafnanlegt flæði þekkingar, gjafa, og kenninga. Ef horft er á það hlutlægt, jafnast ekkert á við það. Huglægt séð, er það kjarninn í persónulegum vitnisburði milljóna Síðari daga heilagra vítt um jörðu. Það er mér og ykkur heiður að vera meðal slíkra.

Sem drengur naut ég þess að hlusta á mann, með hljómmikla barítónrödd, syngja orð Johns Taylor:

Sjáandinn, sjáandinn, Joseph sjáandinn! ...
Ég nýt þess að dvelja við kæra minningu hans;
hins útvalda Guðs og mannvininn mesta,
prestdæmið færði hann okkur á ný;
hann leit yfir liðna og ókomna tíð ...
og opnaði sýn inn í himneskan heim.
("The Seer, Joseph, The Seer," 1968 útgáfa *Hymns*, nr. 296).

Sannarlega var hann sjáandi. Hann var opinberari. Hann var spámaður lifanda Guðs sem talað hefur til sinna eigin og allra komandi kynslóða.

Við þetta bæti ég hátíðlegum vitnisburði mínum um guðdómleika köllunar hans, um dyggðugt líf hans, og um innsiglun vitnisburðar hans með dauða hans, í heilögu nafni endurlausnara okkar, sjálfs Drottins Jesú Krists, amen.

# Sunnudagssíðdegi

## Hvers leitið þið?

**Öldungur L. Tom Perry**
**í Tólfpostulasveitinni**

„Daginn eftir var Jóhannes þar aftur staddur og tveir lærisveinar hans.
Hann sér Jesú á gangi og segir: Sjá, Guðs lamb.
Lærisveinar hans tveir heyrðu orð hans og fóru á eftir Jesú.
Jesús sneri sér við, sá þá koma á eftir sér og sagði við þá: Hvers leitið þið? (Jóh 1:35–38).

Í heiminum í dag sjáum við að leitað er svara við spurningunni: „Hvers leitið þér?" með svo margvíslegum hætti. Allt of margir sá fræjum ávaxta sem ekki munu næra eilífa sál.

Má ég útskýra þetta með reynslu okkar í Mið-Evrópuráðinu þegar vorum í lest á leið til fundarstaðar. Við nýttum samverustund okkar til að ræða verkefnin framundan. Maðurinn sem sat gegnt okkur gerðist forvitinn um samtal okkar. Að lokum spurði hann: „Eruð þið mótmælendur eða kaþólskir?" Við svöruðum: „Hvorugt, við erum þegnar Kirkju Jesú Krists hinna Síðari daga heilögu." Hann kannaðist við að hafa heyrt kirkjunnar getið, en bætti síðan við: „Þið munuð aldrei ná mjög langt í þessu landi. Stjórnvöldin viðurkenna einungis kaþólsku og mótmælendakirkjuna. Þær einar hljóta fjárhagsstuðning frá stjórnvöldunum. Kirkja kemst ekki af án stuðnings stjórnvalda."

Við reyndum að útskýra að kirkjan okkar kæmist vel af án aðstoðar stjórnvalda – að við notuðum tíundarkerfi Drottins. Hann hélt því fast fram að kirkjan myndi ekki ná langt í sínu landi, og benti á að við ættum að beina erfiði okkar að einhverjum öðrum stað. Auðvitað bárum við vitni um að kerfi Drottins virkar og sögðum honum frá öllum samkomuhúsunum og musterunum sem við erum að byggja út um heiminn án þess að leita eftir lánsfé til bygginganna. Hann virtist mjög undrandi en eftir sem áður ósannfærður.

Þegar við sáum að við gátum ekki sannfært hann um að kirkja gæti staðist án stuðnings frá stjórnvöldum, reyndum við að breyta um umræðuefni. Ég spurði: „Hvernig fer fyrir þínu landi í öllum þeim breytingum sem nú eru að verða? Minnkandi íbúafjöldi og ásókn vaxandi fjölda innflytjenda mun að lokum gera ykkur að minnihlutahóp í eigin landi." Með miklu þjóðarstolti, svaraði hann: „Það mun aldrei gerast." Ég svaraði: „Hvernig rökstyður þú það þegar innflytjendur eru fleiri en nemur fæðingarfjölda í landinu?" Hann hélt áfram að fullyrða að þetta mundi aldrei gerast í hans landi – þeir myndu loka landamærunum áður en til slíks kæmi.

Ég lagði að honum og sagði: „Hvernig hindrið þið það miðað við núverandi framvindu?" Það næsta sem hann sagði gekk fram af mér. Hann sagði: „Ég er 82 ára gamall. Ég verð löngu farinn áður en ég þarf að horfast í augu við það vandamál."

Eitt megin vandamálið sem við stöndum frammi fyrir þegar við prédikum fagnaðarerindið fyrir heiminum er hið almenna sinnuleysi gagnvart trúarbrögðum, gagnvart andlegum hlutum. Flest fólk er mjög ánægt með núverandi lífsstíl sinn og finnst það ekkert þurfi að gera annað en „eta og drekka og vera glöð." Það hefur engan áhuga á neinu nema sjálfu sér – hér og nú.

Of margir, aðallega meðal þróaðra þjóða heims, eru orðnir svo veraldlegir í trú sinni og athöfnum að þeir halda því fram að maðurinn hafi algjört sjálfsforræði.

Einstaklingurinn þurfi ekki að gera neinum grein fyrir nokkru nema sér sjálfum, og í takmörkuðum mæli samfélaginu sem hann býr í.

Samfélögin þar sem þessi veraldlegi lífsstíll skýtur rótum þurfa að greiða fyrir hann hátt andlegt og siðferðilegt gjald. Ásóknin í hið svokallaða einstaklingsfrelsi, án tillits til lögmála sem Drottinn hefur sett til stjórnar börnum sínum á jörðu, mun leiða til bölvunar öfgafullrar heimshyggju og eigingirni, hnignunar siðferðis samfélagsins og einstaklinganna, og andstöðu við valdastofnanir.

Slíkum veraldlegum samfélögum er lýst í Kenningu og sáttmálum 1:16: „Þeir leita ekki Drottins til að tryggja réttlæti hans, heldur gengur hver maður sína eigin leið og eftir ímynd síns eigin guðs, en ímynd hans er í líkingu heimsins ...“

Af þeirri ástæðu, fékk kirkja Drottins fyrirmæli um að fylgja spámanninum og leita einhvers annars en þess sem heimurinn sækist eftir. Framhaldið er í versum 17–18 í 1. kafla Kenningar og sáttmála:

„Þess vegna kallaði ég, Drottinn, sem þekki þær hörmungar er koma munu yfir íbúa jarðar, þjón minn Joseph Smith yngri og talaði til hans frá himni og gaf honum fyrirmæli.

Og gaf einnig öðrum fyrirmæli um að boða heiminum þessa hluti, og allt til þess að rætast megi það sem spámennirnir hafa ritað.“

Það var með spámanninum Joseph Smith sem kirkja Jesú Krists var endurreist á jörðu – „Því að hann mun gefa hinum staðföstu orð á orð ofan og setning á setning ofan” (K&S 98:12). Með guðlegri hjálp þýddi hann og gaf út Mormónsbók. Aronsprestdæmið og Melkísedeksprestdæmið voru veitt honum og Oliver Cowdery, og heilagar helgiathafnir voru endurreistar til frelsunar mannkyni.

Við lýsum því ákveðið yfir að Kirkja Jesú Krists hinna Síðari daga heilögu hefur svör við spurningunni: „Hvers leitið þið?“ Kirkjan okkar er leiðin fyrir karla og konur að finna frelsara okkar og fagnaðarerindi hans. Þið, sem eruð saman komin á þessari fjölmennu samkomu, og hinn ennþá meiri fjöldi heilagra sem horfa á þessa ráðstefnu víða um heim, eruð ríkulega blessuð vegna þess að þið hafið öll leitað að hinni endurreistu kirkju og fundið hana. Kirkjan varð til sem afleiðing af endurreisn en ekki siðaskiptum. Nýleg reynsla mín í Mið-Evrópu hefur vissulega aukið virðingu mína fyrir hlutverki þessara fyrri kristnu leiðtoga sem komu á siðaskiptum. Joseph Smith var spámaður Guðs, talsmaður Drottins, og hann endurreisti allt það sem mikilvægt er til uppbyggingar ríkis Guðs og til undirbúnings síðari komu Drottins, Jesú Krists, Þegar við leitum hans er mikilvægt að við leitum hans í gegnum kirkju hans. Það er fyrir endurreista kirkju hans að við tökum á móti frelsandi helgiathöfnum sem nauðsynlegar eru til að komast aftur til hans.

Ég vil að allir þegnar kirkjunnar viti að ég hef lært af mínu núverandi verkefni að útbreiðsla á fagnaðarerindi Jesú Krists felur í sér áskoranir sem mér höfðu aldrei áður komið í hug. Samt sé ég á hverjum degi merki um von, mestmegnis vegna blessana Drottins, en einnig verk leiðtoga, þegna, og trúboða í þessum heimshluta. Heiðarlegir leitendur sannleikans eru að finna svör við spurningum sínum – þeir eru að finna Drottin í gegnum endurreista kirkju hans. Má ég nefna ykkur þrjú dæmi: föður nokkurn, einn ungan og ógiftan, og ógifta systur, sem öll fundu nýja trú og von í lífi sínu.

Fjögurra manna fjölskylda, frá Sri Lanka, sem trúboðssystur höfðu fyrsta samband við og móðirin og börn hennar lásu oft í *Mormónsbók*, báðust fyrir daglega, og vildu sækja kirkju. Faðirinn á hinn bóginn stóð gegn því – ólíkt konu sinni, var hann ekki kristinnar trúar, og honum fannst hann ekki ennþá reiðubúinn að endurskoða trúarbrögð sín.

Trúboðssysturnar fengu innblástur um að leggja megináherslu á Jesú Krist í kennslu sinni. Með þeirra eigin orðum:

„Við kenndum um Joseph Smith, um trú hans á Jesú Krist, hvað við lærum um Krist af Fyrstu sýninni, og vitnisburð spámannsins um frelsara okkar. Allt sem við lásum saman eða skoruðum á þau að lesa sem fjölskylda í *Mormónsbók* var aukin kennsla til þeirra um endurlausnara okkar. Það var þá sem við byrjuðum að sjá framför. Þau settu upp innrammaða mynd af Kristi í stofunni sinni – það var mynd sem við höfðum fært þeim að gjöf ...“

Umskiptin urðu hjá föðurnum þegar kona hans lýsti því yfir að hún vildi taka skírn, og synir hans ákváðu að biðjast fyrir til þess að vita hvort þeir ættu einnig að skírast. Frá þeirri stundu, las hann reglubundið í *Mormónsbók*, og baðst fyrir varðandi skírn. Einlæg þrá hans eftir að vita hvort kirkjan væri sönn breytti honum, og hann varð andlegur leiðtogi á heimili sínu. Rétt áður en hann og fjölskylda hans voru skírð, bað faðirinn um tíundarseðil og umslag. Hann vildi ekki draga það mínútunni lengur að halda boðorðin.

Í öðru tilviki, var ungur óvirkur bróðir endurvirkjaður sem afleiðing af upphafi átaks til að virkja unga og ógifta á aldrinum 18 til 30 ára. Á fyrsta athafnakvöldinu í einni af kirkjubyggingum okkar, var þessi bróðir sá eini utan trúboðanna sem mætti, en innan fárra vikna, hafði hann komið með yfir 30 manns á fjölskyldukvöld og aðrar athafnir.

Þessi bróðir er vefsíðuhönnuður – hann og félagi hans stofnuðu sitt eigið fyrirtæki í vefsíðugerð. Eins og er býr hann með tveimur utankirkjumönnum, sem báðir starfa í þessu fyrirtæki hans. Hann er mjög djarfur við að deila vitnisburði sínum. Einn af samstarfsmönnum hans hafði áður numið kristna guðfræði og bróðirinn vísaði honum til trúboðanna sem störfuðu að verkefni fyrir unga og ógifta. Nú mætir samstarfsmaðurinn reglubundið á fundi og endurvirkjaði bróðirinn hjálpar trúboðunum þegar þeir kenna honum, með því að bæta vitnisburði sínum um sannleiksgildi fagnaðarerindisins við þeirra.

Í enn öðru tilviki barðist ung kona frá Hamborg, Þýskalandi, við að finna andlega merkingu í lífi sínu. Hún tók að biðjast fyrir og spyrja Guð hvað hún ætti að gera. Morgun einn, eftir nokkra föstu í þrjá daga og miklar bænir, gekk hún að heiman út á strætisvagnastöð. Þegar þangað kom, varð henni ljóst að hún hafði gleymt tilteknum lyklum heima sem hún þurfti á að halda þann dag. Hún fór heim aftur, sótti lyklana, og gekk aftur á strætisvagnastöðina. Hún var mjög örg þegar henni varð ljóst að hún hafði misst af vagninum sem hún var vön að taka.

Á sama tíma voru tveir trúboðar í strætisvagni rétt utan við Hamborg. Á leiðinni fannst þeim skyndilega að þeir ættu að tala við fyrstu manneskjuna sem þeir hittu eftir að þeir kæmu út úr vagninum. Öldungarnir fóru úr vagninum og sáu strax þessa ungu konu. Þeir töluðu lítillega við hana um kirkjuna og ákváðu tíma og stað til að kenna henni. Hún fékk þegar í stað þá tilfinningu að öldungarnir væru sendir til hennar sem svar við bænum hennar. Hinir góðu þegnar kirkjunnar sameinuðust trúboðunum við að kenna henni og láta hana finna að hún væri sérstakur hluti af deildinni. Hún meðtók boðskap endurreists fagnaðarerindis Jesú Krists og var skírð innan þriggja vikna. Hún starfar nú í Stúlknafélaginu í deildinni.

Í jarðneskri þjónustu sinni, viðurkenndi Drottinn nauðsyn uppbyggingar til að efla trú í hjarta þegna kirkju hans, og vöxt þeirra í fagnaðarerindi hans. Þessi fjölskylda, þessi bróðir og þessi systir, fundu öll frelsarann er þau fundu kirkju hans og styrktust í henni.

Kirkjan leiddist úr í fráhvarf eftir dauða postulanna, er hún var án þessara aðalleiðtoga til leiðsagnar og stjórnunar. Þessi tiltekna lexía sögunnar er skýr: Það er

nauðsynlegt að hafa miðstýrða kirkjustjórnun undir leiðsögn frelsarans, sem veitir nauðsynlegar kenningar og helgiathafnir til sáluhjálpar og upphafningar.

Biblían gefur ríkulegan vitnisburð um að Drottinn hafi í jarðneskri þjónustu sinni stofnað kirkju sína með réttu valdsumboði og skipulagi. Páll segir, svo dæmi sé tekið:

„Og frá honum er sú gjöf komin, að sumir eru postular, sumir spámenn, sumir trúboðar, sumir hirðar og kennarar.

Þeir eiga að fullkomna hina heilögu og láta þeim þjónustu í té, líkama Krists til uppbyggingar,

þangað til vér verðum allir einhuga í trúnni og þekkingunni á syni Guðs, verðum fullþroska og náum vaxtartakmarki Krists fyllingar.

Vér eigum ekki að halda áfram að vera börn, sem hrekjast og berast fram og aftur af hverjum kenningarvindi, tæld af slægum mönnum með vélabrögðum villunnar.

Vér eigum heldur að ástunda sannleikann í kærleika og vaxa í öllu upp til hans, sem er höfuðið, Kristur“ (Ef 4:11–15).

Í sjötta trúaratriðinu segir:

„Vér höfum trú á sama skipulagi og var í frumkirkjunni, þ.e. postulum, spámönnum, hirðum, fræðurum, guðspjallamönnum og svo framvegis.“

Þannig lýsum við því yfir gagnvart heiminum að prestdæmið hefur verið endurreist, stjórnkerfi Guðs er á jörðu, fyrirmynd frá honum er til staðar sem leiða mun okkur aftur í návist hans. Við trúum að við séum með besta svarið við spurningunni: „Hvers leitið þið?“ Eins og frelsarinn kenndi:

„En leitið fyrst ríkis hans og réttlætis, þá mun allt þetta veitast yður að auki“ (Matt 6:33).

Rétt eins og bygging er reist með einum múrsteini í einu, er kirkja frelsarans byggð með einum trúskiptum, einum vitnisburði, einni skírn í senn. Megum við öll leita að, finna, og byggja upp kirkju hans hvar sem við kunnum að vera er auðmjúk bæn mín í nafni hans sem við leitum, sjálfs Jesú Krists, amen.

# KLÁM

**Öldungur Dallin H. Oaks**
**í Tólfpostulasveitinni**

Síðastliðið sumar lukum við hjónin tveggja ára veru okkar á Filippseyjum. Við höfðum unun af þjónustu okkar þar og okkur fannst gott að snúa heim. Við sjáum umhverfið í nýju ljósi eftir þessa fjarveru. Sumt kunnum við að meta enn betur og annað veldur okkur auknum kvíða.

Aukin innreið kláms í bandarískt þjóðfélag meðan við vorum fjarverandi veldur okkur áhyggjum. Kirkjuleiðtogar okkar hafa í mörg ár varað við þeirri hættu sem felst í myndum og málfari sem ætlað er að vekja með okkur kynlífsþrár. Hin spillandi áhrif klámsins, framleiðsla þess og dreifing í hagnaðarskyni, er nú að flæða yfir samfélag okkar líkt og ógnaralda illsku.

Á síðustu ráðstefnu helgaði Hinckley forseti heila ræðu þessu efni og sagði opinskátt að „þetta væri mjög alvarlegt vandamál, jafnvel meðal okkar fólks" ("A Tragic Evil among Us," *Ensign*, nóv. 2004, 60). Flestir biskupanna sem við hittum á stikuráðstefnum segja nú að þetta sé gríðarlegt vandamál.

Félagar mínir, sem hafið Melkísedeksprestdæmið og einnig piltarnir okkar, ég ætla nú að ræða við ykkur um klámið. Mér er ljóst að margir standið þið berskjaldaðir gegn þessu og margir ykkar hafa saurgast af þessu.

Í umræðu minni um efni þetta líður mér líkt og spámanninum Jakob, sem beindi máli sínu til karlmanna þess tíma og sagði það hryggja sig að þurfa að tala svo djarflega til þeirra frammi fyrir viðkvæmum eiginkonum þeirra og börnum. Hann sagðist knúinn vegna fyrirmæla frá Guði til að tala til karlmannanna um efni þetta, þótt viðfangsefnið væri erfitt (sjá Jakob 2:7–11). Og það geri ég af sömu ástæðu.

Jakob ávítar karlmennina í öðrum kapítula bókarinnar sem ber nafn hans fyrir „hórdóm" (vers 23, 28). Hann sagði þá hafa „sært hjörtu blíðlyndra eiginkvenna [sinna] og glatað trúnaðartrausti barna [sinna] vegna þess slæma fordæmis, sem [þeir hefðu] sýnt þeim" (vers 35).

Hver var þessi mjög svo rangláti „hórdómur"? Án efa voru sumir karlanna þegar sekir um illa breytni. En megin kjarni hinnar miklu prédikunar Jakobs snýst ekki um hina illu breytni *í verki*, heldur hina illu breytni *hugans*.

Jakob hefur mál sitt á því að greina körlunum frá því að „fram að þessu [hafi þeir] hlýðnast orðum Guðs" (Jakob 2:4). En hann sagði síðan við þá að hann þekkti hugsanir þeirra að þeir væru „nú farnir að lifa í synd, [og að] sú synd [væri] ... hrein viðurstyggð ... fyrir Guði (vers 5). Hann sagðist einnig „þurfa að bera [þeim] vitni um ranglætið í hjörtum [þeirra]" (vers 6). Jakob var að segja það sem Jesús sagði þessum orðum: „Hver sem horfir á konu í girndarhug, hefur þegar drýgt hór með henni í hjarta sínu" (Matt 5:28; sjá einnig 3 Ne 12:28; K&S 59:6; 63:16).

Fyrir rúmum 30 árum brýndi ég fyrir nemendum í Brigham Young-háskóla að forðast „auglýsingaáróður um ólögleg kynlífssambönd." Ég sagði þá:

„Klám, eða erótískar sögur og myndir, er verra en skemmdur og eitraður matur. Líkaminn býr yfir varnarkerfi til að losa sig við skemmdan mat. Skemmdur matur mun, að undanskildum fáeinum tilvikum, aðeins kalla yfir ykkur tímabundin veikindi, en ekki valda varanlegum skaða. Sá sem hins vegar nærir sig á saurugum sögum eða klámi eða erótískum myndum og sögum, innritar slíkt í hið viðkvæma kerfi sem við köllum heilabú. Heilinn mun ekki spýja óþverranum frá sér. Þegar slíkt efni hefur eitt sinn verið innritað, mun það festast í minni okkar, koma upp í hugann þegar minnst varir og draga okkur frá því uppbyggilega í lífinu" ("Challenges for the Year

Ahead," bæklingur Brighams Young-háskóla, 6. september 1973; endurprentaður í "Things They're Saying," *New Era*, febr. 1974, 18).

Bræður, ég verð að greina ykkur frá því að biskupar okkar og fagráðgjafar greina aukinn fjölda karla sem fastir eru í neti klámsins og margir þeirra eru virkir þegnar kirkjunnar. Sumir sem gefa sig að klámi lágmarka augljóslega alvarleika þess og nota áfram prestdæmi Guðs, því þeir telja að enginn muni komast að þessari iðju þeirra. En sá sem ástundar slíkt veit það, svo og Drottinn.

Sumir hafa lagt til að sérstök spurning yrði um klámið í musterisviðtölum. Sú spurning er þegar fyrir hendi. Fimm spurningar hið minnsta ættu að leiða til játningar og umræðu um efni þetta, ef sá sem viðtalið er tekið við býr að þeirri andlegu næmni og þeim heiðarleika sem vænst er af þeim sem tilbiðja í húsi Drottins.

Ein minnisstæð kenning frelsarans á við um þá sem á laun gefa sig að klámi:

„Vei yður, fræðimenn og farísear, hræsnarar! Þér hreinsið bikarinn og diskinn utan, en innan eru þeir fullir yfirgangs og óhófs.

Blindi farísei, hreinsaðu fyrst bikarinn innan, að hann verði líka hreinn að utan" (Matt 23:25–26; sjá einnig Alma 60:23).

Frelsarinn heldur áfram sakfellingu sinni yfir þeim sem gefa sig að því sýnilega, en vanrækja sinn innri mann:

„Þér líkist hvítum kölkuðum gröfum, sem sýnast fagrar utan, en innan eru fullar af dauðra manna beinum og alls kyns óþverra.

Þannig eruð þér, sýnist hið ytra réttlátir í augum manna, en eruð hið innra fullir hræsni og ranglætis" (Matt 23:27–28).

Hin andlega afleiðing slíkrar hræsni er skjót tortíming. Þeir sem gefa sig að klámi fyrirgera krafti prestdæmisins. Drottinn hefur sagt: „Þegar við reynum að hylja syndir okkar, ... sjá, þá draga himnarnir sig í hlé. Andi Drottins tregar, og þegar hann er vikinn á brott, er úr sögunni prestdæmi eða vald þess manns" (K&S 121:37).

Þeir sem gefa sig að klámi glata einnig samfélagi við andann. Klám kemur ímyndunaraflinu af stað og kemur í veg fyrir andríki. „Hyggja holdsins er dauði," – andlegur dauði (Róm 8:6; 2 Ne 9:39).

Hvarvetna er greint frá því í ritningunum að andi Drottins dvelji ekki í óhreinu musteri. Þegar við meðtökum sakramentið verðug, er okkur lofað „að andi hans sé ætíð með [okkur]" (K&S 20:77). Við gerum sáttmála um að „hafa hann ávallt í huga" til að loforðið verði okkar. Þeir sem sækjast í og nota klám til kynlífsörvunar eru augljóslega að brjóta þann sáttmála. Þeir brjóta einnig þann helga sáttmála að halda sig frá vanheilagri og óhreinni breytni. Þeir geta ekki haft anda Drottins með sér. Allir slíkir þurfa að gefa gaum að þessum orðum Péturs: „Snú því huga þínum frá þessari illsku þinni og bið Drottin, að þér mætti fyrirgefast hugsun hjarta þíns" (Post 8:22).

Bræður, þið hafið væntanlega gefið því gaum að ég hef ekki rætt um skaðleg áhrif kláms á geðrænt heilbrigði eða þá glæpsamlegu breytni sem af því leiðir. Ég hef rætt um áhrif kláms á andríki okkar – á hæfni okkar til að eiga samfélag við anda Drottins og getu okkar til að nota kraft prestdæmisins.

Klámið eyðileggur einnig hin dýrmætustu persónulegu sambönd einstaklinga. Hinckley forseti vitnaði í bréf konu nokkurrar í ráðstefnuræðu í október síðastliðnum sem hann flutti fyrir prestdæmishafa, en í því biður hún hann að vara þegna kirkjunnar við klámi sem „hefur ... þau áhrif að særa hjörtu og sálir djúpum sárum, að kæfa lífið í samböndum" („A Tragic Evil among Us," 60).

Á stikuráðstefnu sem nýlega var haldin, rétti kona nokkur mér álíka aðvörunarbréf. Eiginmaður hennar hafði einnig í mörg ár þjónað í mikilvægri kirkjuköllun samtímis því að vera ánetjaður klámi. Hún sagði að sér hefði reynst erfitt

að fá prestdæmishafa til að líta alvarlegum augum á þann vanda sem klámið er. Ég les orð hennar:

„Ég fékk allskonar viðbrögð, líkt og ég færi með ýkjur eða að ég ætti sök á þessu sjálf. Núverandi biskup okkar hefur verið ágætur. Nú, 15 árum síðar, er eiginmaður minn að takast á við þessa fíkn, sem einnig er 15 árum erfiðara fyrir hann og tjónið óbætanlegt."

Klámið dregur úr getu manna til að njóta eðlilegs kynlífs, að njóta rómantísks og andlegs sambands við einstakling af gagnstæðu kyni. Það eyðir siðferðislegum höftum þeirrar breytni sem er óviðeigandi, afbrigðileg eða ólögleg. Þeir sem gefa sig að klámi svæfa eigin samvisku og láta leiðast til þess verknaðar sem þeir verða vitni að, hverjar sem afleiðingarnar kunna að verða fyrir þá sjálfa eða aðra.

Klám er einnig ánetjandi. Það lamar hæfni til ákvarðanatöku og „veiðir í net sitt" þá sem gefa sig að því og áreitir stöðugt um meira og meira. Maður nokkur sem ánetjast hafði klámi og sterkum eiturlyfjum skrifaði mér þetta: „Í mínum augum er kókaín ekkert í líkingu við þetta. Ég hef gert þetta tvennt. ... Að venja mig af hörðu efni var ekkert í líkingu við það að [reyna að gefa klámið upp á bátinn]."[1]

Sumir reyna að réttlæta eigin undanlátssemi með þeim rökum að þeir skoði aðeins „meinlaust" en ekki „svæsið" klámefni. Vitur biskup skilgreindi þetta sem afneitun þess að sjá illt sem illt. Hann greindi frá mönnum sem reyna að réttlæta það klámefni sem þeir gefa sig að með því að segja „þetta er ekki jafn slæmt og" eða „aðeins eitt slæmt atriði." Agn þess illa mælist ekki í magni heldur áhrifum. Þegar menn gæla við illar hugsanir, svo mikið að andinn dregur sig í hlé, brýtur það niður andlegar varnir þeirra og þeir láta stjórnast af valdi hins illa. Þegar þeir fara á Alnetið eða annað til að verða sér úti um klám, vegna „krefjandi örvunar," eins og biskup þessi skilgreinir það, eru þeir djúpt sokknir í synd.

Benjamín konungur greindi frá hræðilegum afleiðingum slíks háttarlags í hinni miklu ræðu sinni: Þegar við fjarlægjumst anda Drottins, verðum við óvinir réttlætisins, í okkur vaknar lifandi kennd um eigin sekt og við „[hörfum] úr návist Drottins" (sjá Mósía 2:36–38). „Miskunnsemin á engar kröfur til þess manns," sagði hann að lo.kum, „þess vegna verður það endanlegur dómur hans að þola óendanlega kvöl" (vers 39).

Minnist hins hörmulega dæmis um Davíð konung. Þótt andlegur risi væri í Ísrael, gaf hann sig að nokkru sem hann hefði betur látið ógert (2 Sam 11). Hann lét freistast af því sem augu hans sáu og braut tvö boðorð Drottins, og hið fyrra var „þú skalt ekki drýgja hór" (2 Mós 20:13). Á þennan hátt féll þessi spámaður og konungur frá upphafningu sinni (sjá K&S 132:39).

Góðu fréttirnar eru hins vegar þær að enginn er neyddur til að láta leiðast af hinu illa til kvalræðis. Hver sá sem lætur ginnast á þennan hræðilega veg getur af honum snúið. Hann á útgönguleið. Hann getur orðið hreinn fyrir iðrun.

Alma lýsir þessu svo:

„Já, ég minntist allra synda minna og misgjörða og var þeirra vegna altekinn kvölum vítis. ...

„Hugsunin ein um að komast í návist Guðs míns fyllti sál mína ólýsanlegri skelfingu. ...

Og svo bar við, að meðan ég þannig leið nístandi kvöl og hrjáðist af endurminningunni um hinar mörgu syndir mínar, sjá, þá minntist ég einnig þess að hafa heyrt föður minn spá fyrir fólkinu, að Jesús nokkur Kristur, sonur Guðs, mundi koma og friðþægja fyrir syndir heimsins.

Þegar hugur minn náði nú tökum á þessari hugsun, hrópaði ég í hjarta mínu: Ó Jesús, þú sonur Guðs, vertu mér miskunnsamur, sem fastur er í beiskjugalli og reyrður ævarandi hlekkjum dauðans.

Og sjá. Þegar ég hugleiddi þetta, gleymdi ég kvölum mínum. Já, minningin um syndir mínar hrjáði mig ekki lengur.

Og ó, hvílík gleði, hve undursamlegt ljós ég sá! Já, sál mín fylltist gleði, jafn yfirþyrmandi og kvalir mínar höfðu áður verið!" (Alma 36:13–14, 17–20).

Bræður mínir, sem eruð fangar þessarar fíknar eða hrjáðir af þessari freistingu, þið eigið ykkur útgönguleið.

*Í fyrsta lagi:* Viðurkennið illa breytni ykkar. Dragið ekki úr alvarleika hennar eða reynið ekki að réttlæta sjálfa ykkur. Leiðtogar okkar hafa í a.m.k. aldarfjórðung brýnt fyrir körlum, og einnig konum og börnum, að forðast þessa illsku.[2] Í kirkjutímaritum okkar er fjöldi aðvörunarorða og leiðbeininga um þetta efni – meira en tveir tugir greina birtar eða væntanlegar á þessu og síðasta ári einum saman.[3]

*Í öðru lagi:* Leitið hjálpar Drottins og þjóna hans. Hlýðið á og tileinkið ykkur þessi orð Hinckleys forseta:

„Ákallið Drottin úr djúpi sálar ykkar að hann nemi brott þá fíkn ykkar sem fjötrar ykkur niður. Og megið þið hafa hugrekki til að leita leiðsagnar biskups ykkar, og ef nauðsynlegt er, ráðgjafar umhyggusams fagfólks" ("A Tragic Evil among Us," 62).

*Í þriðja lagi:* Gerið allt sem þið getið til að forðast klámefni. Ef þið verðið einhvern tíma í nálægð klámefnis – sem hent getur hvern sem er í þessum heimi – fylgið þá fordæmi Jósefs frá Egyptalandi. Þegar freistingin greip hann, flýði hann frá henni og „hljóp út" (2 Mós 39:12).

Látið ekki á nokkurn hátt undan freistingu. Afstýrið synd í stað þess að takast á við óumflýjanlega eyðileggingu hennar. Leiðið hana því hjá ykkur! Snúið ykkur undan! Forðist hana í hvívetna. Beinið hugsunum ykkar á heilnæmar brautir. Minnist sáttmála ykkar og sækið musterið af trúfestu. Biskupinn vitri sem ég áður vitnaði í sagði: „Þeir prestdæmishafar sem hlotið hafa musterisgjöf hafa ALDREI gefið sig að klámefni samhliða því að ástunda reglubundna tilbeiðslu í musterinu. Það gerist aðeins þegar þeir verða kærulausir við slíka tilbeiðslu."[4]

Við verðum einnig að vernda ástvini okkar í verki. Foreldrar koma sér upp viðvörunarskynjurum til að verja heimilisfólkið gegn hættlegum reyk eða eiturgufum. Við ættum einnig að setja upp varnir gegn andlegum hættum, til að mynda netsíur og þess háttar, svo hægt sé að fylgjast með því sem horft er á. Og við ættum að efla andlegan styrk fjölskyldu okkar með ástríkum samskiptum, fjölskyldubænum og ritningarnámi.

Að lokum: Styðjum ekki við klámið. Notið ekki kaupmátt ykkar til að styðja við slíkt siðleysi. Og ungu konur, gerið ykkur vinsamlega grein fyrir, að ef þið klæðið ykkur ósæmilega, aukið þið við vanda þennan, með því að vera klámfengnar í augum sumra þeirra manna sem á ykkur horfa.

Gefið vinsamlega gaum að þessum viðvörunarorðum. Við skulum öll bæta breytni okkar og leggja enn harðar að okkur við að vernda ástvini okkar og umhverfi gegn áreitni klámsins, sem ógnar andríki okkar, hjónabandi okkar og börnum okkar.

Ég ber vitni um að þetta er það sem okkur ber að gera til að fá notið blessana þess er við tilbiðjum. Ég ber vitni um Jesú Krist, ljós og líf heimsins, hvers kirkja þetta er, í nafni Jesú Krists, amen.

HEIMILDIR

1. Bréf, 20. mars 2005.

2. T. d., Gordon B. Hinckley, “A Tragic Evil among Us,” *Ensign*, nóv. 2004, 59–62; David E. Sorensen, “You Can’t Pet a Rattlesnake,” *Ensign*, maí 2001, 41–43; Thomas S. Monson, “Pornography – the Deadly Carrier,” Ensign, nóv. 1979, 66–67; David B. Haight, “Personal Morality,” Ensign, nóv. 1984, 70–73.
3. T. d., Rory C. Reid, “The Road Back: Abandoning Pornography,” *Ensign*, febr. 2005, 46–51; Arianne Cope, “Internet Café,” *New Era*, mars 2005, 34–37; “The Decision,” *The Friend*, mars 2004, 41–42.
4. Bréf, 13. mars 2005.

# Styrk bræður þína

**Öldungur Robert J. Whetten**
**einn hinna sjötíu**

Jesús var spurður þessarar spurningar: „Meistari, hvert er hið æðsta boðorð í lögmálinu?“ Svar hans var þetta: „Elska skalt þú Drottin, Guð þinn, af öllu hjarta þínu, allri sálu þinni og öllum huga þínum. Þetta er hið æðsta og fremsta boðorð. Annað er þessu líkt: Þú skalt elska náunga þinn eins og sjálfan þig. Á þessum tveimur boðorðum hvílir allt lögmálið og spámennirnir.“[1]

Allt frá Ísrael hinum forna til okkar tíma kynslóðar, hafa spámenn hans, liðnir og lifandi, ávallt kennt þann eilífa umlykjandi sannleika – að til þess að erfa eilíft líf verðum við að eiga elsku í sálum okkar. Elsku til Guðs, okkar eilífa föðurs, og elsku til samferðamanna okkar.

Jesús sagði við Pétur á efstu stundu þjónustu sinnar á jörðu: „En ég hef beðið fyrir þér, að trú þín þrjóti ekki. Og styrk þú bræður þína, þegar þú ert snúinn við.“[2]

Pétur átti vitnisburð fæddan af andanum um guðleika Jesú Krists. Pétur átti vitneskju og hana hlaut hann með opinberun. En trúarumbreyting hans, sú breyting sem varð á öllum hans lífsháttum og allri hans tilveru, varð sjáanlegri eftir hvítasunnuna, er hann hafði hlotið gjöfina sem umbreytti hjarta hans og vitnisburð heilags anda.

Já, bræður og systur, við eigum, líkt og Pétur átti þá, vitnisburð. En er trúarþroski stöðugt ferli í lífi ykkar? Takið þið stöðugum framförum í höndum skapara okkar? Er Guð að blessa aðra fyrir ykkar tilstilli? Biðjist þið fyrir til að Drottinn vísi ykkur á einhvern sem þarfnast blessunar, að þið fáið létt byrðar einhvers? Elskið þið aðra jafn mikið og þið elskið ykkur sjálf?

Þegar Jesús sagði fræðimanninum að hann yrði að elska náunga sinn líkt og sjálfan sig til að erfa eilíft líf, sagði fræðimaðurinn við Jesú: „Hver er þá náungi minn?“ Jesús svaraði með dæmisögunni um miskunnsama Samverjinn og spurði síðan: „Hver þessara þriggja sýnist þér hafa reynst náungi þeim manni, sem féll í hendur ræningjunum? Hann mælti: Sá sem miskunnarverkið gjörði á honum.“[3] Jesús kenndi með dæmisögu þessari að hverju og einu okkar ber að ástunda elsku og góðvild gagnvart öllum börnum föður hans.

Benjamín konungur sagði við hina heilögu þess tíma: „Vegna fyrirgefningar synda yðar dag frá degi, ... vildi ég, að þér gæfuð fátækum af eigum yðar, ... eins og til dæmis að gefa hungruðum mat, ... vitja sjúkra og liðsinna þeim, bæði andlega og stundlega.“[4] Liðsinnum við hinum þurfandi bæði andlega og stundlega? Leggjum við á okkur að efla trú þeirra sem í hjörðina koma, líkt og spámenn okkar tíma hafa hvatt til?

Í trúarumbreytingu felst það að helga líf sitt því að bera umhyggju fyrir og þjóna öðrum, sem þurfa á hjálp ykkar að halda og miðla af gjöfum ykkar og blessunum. Drottinn sagði ekki hirðið sauði mína þegar það er handhægt, vakið yfir sauðum mínum þegar þið eruð ekki önnum kafin. Hann sagði nærið sauði mína og lömb mín; hjálpið þeim að komast af í þessu heimi, haldið þeim nærri ykkur. Leiðið þá í öruggt skjól – öryggi réttláts vals, sem býr þá undir eilíft líf.

Sérhvert óeigingjarnt góðverk og þjónusta gerir ykkur andríkari. Guð vill nota ykkur til að blessa aðra. Stöðugur andlegur þroski ykkar og eilíf framþróun tengist að miklu leyti samskiptum ykkar – hvernig þið komið fram við aðra. Elskið þið í raun aðra og eruð þeim til blessunar? *Er ekki hinn sanni mælikvarði trúarumbreytingar ykkar breytni ykkar við aðra?* Sú manneskja sem aðeins gerir í kirkjunni það sem

varðar hana sjálfa, mun aldrei ná takmarki fullkomnunar. Þjónusta við aðra er það sem fagnaðarerindið og upphafið líf snýst um.

Á lífsins ferð ber ykkur að ná til samferðamanna ykkar og blessa þá, gefa af ykkur sjálfum í þágu þeirra sem þess þarfnast. „Því að hver sem vill bjarga lífi sínu," sagði meistarinn, „mun týna því, og hver sem týnir lífi sínu vegna mín og fagnaðarerindisins, mun bjarga því."[5]

Jakob ritaði bréf sitt til Ísrael framtíðar, „[hinna] tólf [kynkvísla] í dreifingunni."[6] Hann beinir kennslu sinni að okkur, fólki Drottins sem á síðari dögum tekur á móti hinu endurreista fagnaðarerindi. Hann kennir reglur sem þið ættuð að láta stjórnast af í samskiptum ykkar við aðra þegna kirkjunnar. Hann segir boðorðið um að elska náunga sinn eins og sjálfan sig vera „konunglegt boðorð." Jakob segir að vitnisburður einn og sé ekki fullnægjandi. Fagnaðarerindið þarf að vera lifandi raunveruleiki í lífi ykkar. „Og ég skal sýna þér trúna af verkum mínum."[7] „Verðið gjörendur orðsins og eigi aðeins heyrendur þess."[8] Skilgreining Jakobs á þeim sem snúast til trúar er: „Hrein og flekklaus guðrækni fyrir Guði og föður er þetta, að vitja munaðarlausra og ekkna í þrengingu þeirra og varðveita sjálfan sig óflekkaðan af heiminum."[9] Hann lýkur bréfi sínu til okkar á þessum orðum: „Bræður mínir, ef einhver meðal yðar villist frá sannleikanum og einhver snýr honum aftur, þá viti hann, að hver sem snýr syndara frá villu vegar hans mun frelsa sálu ... og hylja fjölda synda."[10] Þegar við endurheimtum villuráfandi bróður, frelsum við bæði hann og sjálf okkur. Syndir ykkar eru huldar eða gefnar eftir, því þið gefið af ykkur sjálfum öðrum til sáluhjálpar.

Ég hef notið þeirra miklu forréttinda að búa í rómönsku Ameríku og þar hef ég sjálfur orðið vitni að spádómum og blessunum rætast, sem Drottinn og spámenn hans hafa sett fram. „Ég mun safna saman þjóð minni eftir langæja tvístrun, ó Ísraelsætt, og mun aftur stofnsetja mína Síon meðal þeirra. ... Ég stofna kirkju mína meðal þeirra, og þeir munu komast undir sáttmálann og verða taldir með leifum Jakobs, sem ég hef gefið þetta land til eignar."[11]

Í rómönsku Ameríku hefur bókstaflega hundruðum þúsunda verið safnað saman frá næstum öllum þjóðum. Spádómar fullvissa okkur um að þessi vöxtur haldi áfram. Vöxtur þessi er okkar stærsta áskorun, en um leið okkar mesta tækifæri.

Páll postuli sagði til nýrra meðlima okkar tíma: „Þess vegna eruð þér ekki framar gestir og útlendingar, heldur eruð þér samþegnar hinna heilögu og heimamenn Guðs."[12]

Svo virðist sem of margir upplifi sig sem *gesti og útlendinga* þar sem kirkjan vex einna hraðast og eru eftir skildir við vegarbrúnina. Ef við eigum að sjá loforðin uppfyllast, verðum við að gera líkt og Moróní sagði: „Og eftir að tekið hafði verið á móti þeim til skírnar ... töldust þeir meðal þeirra, sem tilheyrðu kirkju Krists. Og nöfn þeirra voru skráð, svo að eftir þeim væri munað, og þeir væru nærðir ... til að halda þeim á réttri braut ..."[13]

Margir virkir meðlimir eru þeirrar skoðunar að minna virkir meðlimir og nýir trúskiptingar sem leiðast afvega, geri það vegna þess að þeir trúi ekki á kenningar kirkjunnar. Kannanir sem gerðar hafa verið styðja ekki þá ályktun. Þær sýna að næstum allir minna virkir meðlimir sem rætt er við trúa á tilveru Guðs, að Jesús er Kristur, að Joseph Smith hafi verið spámaður og að kirkjan sé sönn.

Í fjölda deilda og greina eru margir góðir og heiðarlegir karlar og konur, sem hreinlega vita ekki hvernig koma á til baka í kirkjuna. Góðar mæðir og góðir feður eru þar á meðal. Þau hafa bara haldið sína braut og enginn lætur það sig varða, sem færir þeim þau skilaboð að öllum standi á sama um þau. Þegar karlar og konur sem trú eiga vitja þessara einstaklinga og vingast við þá, efla þá, biðjast fyrir með þeim og kenna

þeim fagnaðarerindið, munu þeir og fjölskylda þeirra koma til baka að nýju. „Það allt, sem þér gjörðuð einum minna minnstu bræðra, það hafið þér gjört mér.“[14] Hver er hinn minnsti bróðir? Gæti Drottinn verið að vísa til þess sem nýr er í hjörðinni? Eða þess sem ráfað hefur í myrkri óvirkni og myndi snúa til baka, ef honum væri rétt einlæg vinarhönd?

Starfsreglur í trúboðsstarfi tengjast þessari miklu baráttu um sálir manna og eru skilgreindar fyrir hvert og eitt okkar. Meðlimum ber að vera með fastatrúboðum við kennslu trúboðslexía og gegna mikilvægu hlutverki í trúskiptum annarra. Trúboðum ber „að boða fagnaðarerindi mitt með andanum“[15] með eigin hjartans orðum, dýrmætum sannleiksorðum, sem numin eru með bæn og miklu námi. Hlutverki okkar í hinu stöðuga ferli trúskipta annarra lýkur ekki við skírn. Okkur ber að halda áfram að kenna nýjum meðlimum og öðrum þeim sem þarfnast andlegrar endurnæringar. Í bréfi sem Æðsta forsætisráðið sendi nýverið frá sér, eru prestdæmishafar minntir á þá ábyrgð sína að styrkja og efla nýja meðlimi. „Allir í deildinni ættu að vera ósparir á vináttu ... heimilis- og heimsóknarkennarar geta gegnt mikilvægu hlutverki. ... Nýir meðlimir ættu að fá tækifæri til að þjóna og leggja sitt af mörkum við að efla deildina.“[16]

Bræður og systur, eigi ferli trúskipta og umbreytingar að vera virkt í okkur, nýjum sem gömlum meðlimum, verðum við að þjóna og veita öðrum andlega endurnæringu, og við verðum að hjálpa öðrum að hljóta allar blessanir endurreisnarinnar, sem og blessanir musterisins.

Spámaðurinn Joseph Smith skrifaði bréf til hinna heilögu á hans tíma: „Kæru bræður, það ætti að vera skylda allra hinna heilögu að styðja bræður sína fúslega – að elska þá ætíð og hjálpa þeim. Við verðum að elska hver annan til að réttlætast frammi fyrir Guði. Við getum elskað náunga okkar eins og sjálf okkur og verið túföst í mótlæti.“[17]

Gordon B. Hinckley forseti, sagði: „Ég vona, og bið þess, að hvert og eitt okkar ... einsetji sér að ná til þeirra sem eru hjálparþurfi, ... og uppörvi þá í anda kærleika í faðmi kirkjunnar, þar sem elskuríkt hjarta huggar þá, veitir þeim hlýju og sterkar hendur heldur þeim uppi og beinir þeim á leið hamingju og farsæls lífs.“[18]

Elska er ekki aðeins orðið tómt eða yfirlýsing, heldur æðsta og mesta boðorðið, boðorð sem felur í sér að eitthvað sér gert – „Ef þér elskið mig, munuð þér halda boðorð mín“[19] og ef þið elskið mig þá „[gætið] ... sauða minna.“[20]

Þið verðið að gera það sem frelsari okkar og spámenn hans, bæði fyrr og nú, hafa ávallt kennt, að þjóna, efla trú ykkar og annast þá sem þarfnast elsku ykkar og blessunar. Þið eigið þetta loforð Drottins: „Og hjá hverjum þeim, sem veitir yður viðtöku, mun ég einnig vera, því að ég mun fara fyrir yður ... og andi minn mun vera í hjörtum yðar ...“[21]

Bræður og systur, þegar þið leggið á ykkur að elska og blessa aðra, munuð þið einnig blessuð með anda hans. Drottinn segir að báðir munu „skilja hvor annan, sá sem prédikar og sá sem meðtekur, og báðir uppbyggjast og fagna saman.“[22]

Ég bið þess að faðir okkar á himnum blessi sérhvert ykkar með þeirri elsku til annarra „sem hann hefur gefið öllum sönnum fylgjendum sonar síns ...“[23]
Í nafni Jesú Krists, amen.

HEIMILDIR


1. Matt 22:36–40.
2. Lúk 22:32.
3. Lúk 10:29, 36–37.
4. Mósía 4:26, leturbreyting hér.

5. Mark 8:35.
6. Jakbr 1:1.
7. Jakbr 2:18.
8. Jakbr 1:22.
9. Jakbr 1:27.
10. Jakbr 5:19–20.
11. 3 Ne 21:1,22.
12. Ef 2:19.
13. Moró 6:4.
14. Matt 25:40.
15. Kenning og sáttmálar 50:14.
16. Bréf frá Æðsta forsætisráðinu, dagsett hinn 22. des. 2004 og 11. febr. 2005.
17. History of the Church, 2:229.
18. Gordon B. Hinckley, "Reach with a Rescuing Hand" *Ensign*, nóv. 1996, 86.
19. Jóh 14:15.
20. Jóh 21:17.
21. Kenning og sáttmálar 84:88.
22. Kenning og sáttmálar 50:22.
23. Moró 7:48.

# Vera hughraust og trúföst í mótlæti

**Öldungur Adhemar Damiani**
**einn hinna sjötíu**

Hvernig finnum við frið í þessum heimi? Hvernig getum við staðist allt til enda? Hvernig getum við sigrast á þeim erfiðleikum og raunum sem við stöndum frammi fyrir?

Frelsarinn Jesús Kristur sagði: „Þetta hef ég talað við yður, svo að þér eigið frið í mér. Í heiminum hafið þér þrenging. En verið hughraustir. Ég hef sigrað heiminn.“[1]

Við þurfum að þola erfiðleika, sársauka og vonbrigði í hinni jarðnesku prófraun okkar. Við finnum aðeins frið í Jesú Kristi. Hann getur hjálpað okkur að vera hughraust og sigrast á öllum erfiðleikum þessa lífs.

Hvað felst í því að vera hughraustur? Merking þess er að eiga von, láta ekki hugfallast, glata ekki trúnni og vera glaður: „Menn lifa, svo að þeir megi gleði njóta.“[2] Merking þess er að takast á við lífið af sjálfstrausti.

Fagnaðarerindi Jesú Krists veitir okkur styrk og eilífa yfirsýn til að takast á við það sem á okkur herjar af hughreysti. Við megum þó ekki vanmeta þá erfiðleika sem spáð hefur verið að verði á okkar tíma.

Hverjir eru sumir þessara erfiðleika? Hvernig getum við tekist á við þá?

Sumir þessara erfiðleika eru vonleysi, kærleiksleysi og friðleysi.

Spámaðurinn Moróní kenndi: „Ef þér eigið enga von, hljótið þér að vera fullir örvæntingar, en örvæntingin stafar af misgjörðum.“[3] Komandi tími verða hjá mörgum ár örvæntingar. Og örvæntingin verður því meiri sem misgjörðirnar eru stærri.

Frelsarinn sagði: „Og vegna þess að lögleysi magnast, mun kærleikur flestra kólna.“[4] Sönn elska hverfur eftir því sem misgjörðir aukast. Það leiðir til aukins ótta, öryggisleysis og örvæntingar!

Drottinn sagði við spámanninn Joseph Smith: „Ég ... vil að allir menn viti að dagurinn nálgast óðfluga ... þegar friður verður burtu tekinn af jörðu og djöfullinn fær vald yfir sínu eigin yfirráðasvæði. En Drottinn mun einnig hafa vald yfir sínum heilögu og ríkja mitt á meðal þeirra.“[5] Við lifum á tíma friðleysis á jörðu.

Við lifum hins vegar líka á þeim dýrðartíma er Drottinn hefur endurreist prestdæmi sitt. Hið sanna fagnaðarerindi hefur verið endurreist. Kirkja Jesú Krists hinna Síðari daga heilögu er ríki Guðs á jörðu! Við leggjum okkar af mörkum við að búa jörðina undir þann tíma er Drottinn Jesús Kristur kemur til að ríkja á jörðu í eigin persónu.

Hvers vegna þurfum við að takast á við erfiðleika í þessu lífi?

Drottinn fer ekki í felur með það að hann muni láta reyna á trú okkar og hlýðni. „Með þessu munum við reyna þá,“ sagði hann, „og sjá hvort þeir gjöra allt, sem Drottinn Guð þeirra býður þeim.“[6]

Við lesum í Prédikaranum: „Allt getur alla hent, sömu örlög mæta réttlátum og óguðlegum, góðum og hreinum og óhreinum. ... Hinum góða farnast eins og syndaranum. ... Sömu örlög mæta öllum.“[7] Lífsins stormar koma yfir þann sem hús sitt byggir á bjargi fagnaðarerindisins, jafnt sem yfir hinn heimska, sem byggir líf sitt á því sem heimsins er.[8]

Hvernig ættum við að bregðast við erfiðleikum þessum?

Drottinn sagði: „Hver sem vill fylgja mér, afneiti sjálfum sér, taki kross sinn daglega og fylgi mér.“[9] Við verðum dag hvern að bera kross okkar og halda áfram – og láta ekki hugfallast eða missa móðinn á einhverjum vegkanti eilífrar ferðar okkar.

Hvernig getum við vitað hvort verið sé að reyna okkur eða að Drottinn sé að refsa okkur?

Erfiðleikar veita okkur tækifæri til þroska. Drottinn sagði: „Reyna verður fólk mitt í öllu, svo að það sé undir það búið að meðtaka þá dýrð, sem ég ætla því, já, dýrð Síonar. Og sá, sem ekki þolir ögun, er ekki verður ríkis míns.“[10]

Þegar við erum reynd, ættum við að staldra við og spyrja okkur sjálf: „Hvað vill Drottinn að ég geri við þessar aðstæður?“

Drottinn mælti þessi hughreystandi orð við spámanninn Joseph Smith: „Vita skaltu ... sonur minn, að allt mun þetta veita þér reynslu og verða þér til góðs. Mannssonurinn hefur beygt sig undir allt þetta. Ert þú meiri en hann?“[11] Við þurfum að líta á hverja raun sem tækifæri til þroska. Einhvern tíma munum við fá svör við spurningum okkar hvað þær snertir.

Drottinn sagði: „Þá, sem ég elska, aga ég einnig, svo að syndir þeirra verði fyrirgefnar, því að með öguninni greiði ég veginn fyrir lausn þeirra ... “[12] Drottinn elskar sérhvert okkar. Hann vill að við séum hamingjusöm. Hamingja þessi verður okkar í samræmi við trú okkar á Jesú Krist, einlæga iðrun okkar, hlýðni við boðorð hans og staðfestu okkar allt til enda.

Stundum finnst okkur að Drottinn hlusti ekki á bænir okkar eða veiti okkur bænaheyrslu. Á slíkum stundum þurfum við að staldra við og íhuga hvernig við höfum hagað lífi okkar. Nauðsynlegt er að gera líf sitt samhljóma fagnaðarerindi Jesú Krists. Drottinn opinberaði með spámanninum Joseph Smith: „Ég, Drottinn, hef leyft þessum þrengingum að koma yfir þá, en sú þrenging þeirra er afleiðing brota þeirra – Þeir voru tregir til að hlýða rödd Drottins Guðs síns. Þess vegna er Drottinn Guð þeirra tregur til að hlýða á bænir þeirra og svara þeim á erfiðleikatímum þeirra. Á friðartímum mátu þeir ráð mín lítils, en á erfiðleikatímum sínum leita þeir mín af nauðsyn.“[13]

Þegar við búum að einlægri þrá eftir að gera líf okkar samhljóma vilja Drottins, mun hann alltaf vera fús til að létta byrðar okkar.

Hvað dregur úr okkur kjarkinn og vonina?

Jesús Kristur greindi hinum Tólf frá sumu því sem getur veikt von okkar og fengið okkur til að missa móðinn: Við föllum í freistni, tökumst ekki á við erfiðleika og raunir, stöndum ekki af okkur ofsóknir, óttumst „áhyggjur“ heimsins, leitum fyrst auðæfa, gefumst upp í stað þess að standast allt til enda og látum blekkjast af falsspámönnum.[14]

Hvað veitir okkur hugrekki og von?

Boð Drottins til okkar allra er þetta: „Komið til mín, allir þér sem erfiði hafið og þungar byrðar, og ég mun veita yður hvíld.“[15] Jesús Kristur hefur kraftinn til að veita okkur hvíld frá sársauka og þjáningum.

Spámaðurinn Mormón sagði: „Eigi maðurinn því trú, hlýtur hann að eiga von, því að án trúar er enga von að hafa. ... Og ef maðurinn er hógvær og af hjarta lítillátur og játar með krafti heilags anda, að Jesús sé Kristur, hlýtur hann að eiga kærleika.“[16]

Ef við ræktum trú okkar daglega, hógværð og lítillæti í hjarta, játum að Jesús er Kristur og tökum á móti friðþægingu hans, munum við blessuð með styrk og von til að takast á við erfiðleika og þjáningar þessa lífs og sigrast á þeim.

Hver eru sum loforð Drottins til okkar?

„Verið vonglöð, litlu börn, því að ég er mitt á meðal yðar og ég hef ekki yfirgefið yður.“[17]

„Verið ... vonglaðir, því að ég mun leiða yður. Ríkið er yðar og blessanir þess eru yðar og auðæfi eilífðarinnar eru yðar.“[18]

Ég vitna í orð spámannsins Eters: „Sá, sem tryði á Guð, gæti því með vissu vonast eftir betri heimi, já, jafnvel samastaðar til hægri handar Guði, en sú von sprettur af trú og er sálum mannanna sem akkeri ...“[19]

Guð er faðir okkar. Við erum börn hans. Hann elskar okkur. Hann þráir að við séum hamingjusöm í þessu lífi og um alla eilífð. Við erum leidd af sönnum spámanni Guðs. Jesús er Kristur. Hjá honum getum við fundið frið í þessum heimi? Í nafni Jesú Krists, amen.

HEIMILDIR


1. Jóh 16:33.
2. 2 Ne 2:25.
3. Moró 10:22.
4. Matt 24:12.
5. K&S 1:35–36.
6. Abraham 3:25.
7. Préd 9:2–3.
8. Sjá Matt 7:24–27.
9. Lúk 9:23.
10. K&S 136:31.
11. K&S 122:7–8.
12. K&S 95:1.
13. K&S 101:2, 7–8.
14. Sjá Matt 13:19–23.
15. Matt 11:28.
16. Moró 7:42–44.
17. K&S 61:36.
18. K&S 78:18.
19. Eter 12:4.

# Að meta ráðgjöf þeirra sem eru „aldnir að árum“

**Öldungur Stephen B. Oveson**
**einn hinna sjötíu**

Mínir kæru bræður og systur, þegar við búum okkur undir að hlusta á lokaorð Hinckleys forseta við lok þessarar dásamlegu aðalráðstefnu, þá vona ég sterklega að við finnum öll hversu blessuð við erum að hafa tekið á móti frá spámönnum og postulum Drottins samansafnaðri visku og hvatningu sem, ef eftir er farið og fylgt, mun hjálpa okkur að stýra för æ nær frelsara okkar. Við ættum að vera sérstaklega þakklát að lifa á þeim tíma er kirkjuleiðtogar okkar, þótt margir séu háaldraðir, taka áfram á móti opinberun og innblæstri til framgangs ríkinu dag frá degi.

Sem ungur maður fékk ég mjög sterka ritaða áminningu um að sanna mig sem trúfastan og hlýðinn son, svo að þegar ég tæki að eldast leitaði ég ráða foreldra minna, visku þeirra, huggunar og leiðsagnar, þegar ég þarfnaðist þess, þótt þau væru orðin aldin að árum. Faðir minn lést fyrir meira en tuttugu árum, eftir að hafa verið mér mikil og fordæmisgefandi uppspretta visku alla mína ævidaga, og við jarðsettum 101 árs gamla móður mína við hlið síns eilífa lífsförunauts á mánudaginn var. Á hundraðasta aldursári staðfesti hún ævilangan vitnisburð sinn með þessum orðum: „Fagnaðarerindið er lífsmáti; það er hluti af áætluninni til að hjálpa okkur að forðast biturleika. Meir en nokkru sinni, trúi ég að þetta líf sé gott en að næsta líf sé betra“ (“Growing Old Graciously: Lessons from a Centenarian,” *The Religious Educator* 5, no1., 2004). Móðir mín sagði mér oft að hún bæði fyrir mér og fjölskyldu minni daglega. Eftir því sem hún nálgaðist huluna æ meir, urðu bænir hennar heitari og innihaldsríkari fyrir mig. Báðir foreldrar mínir, svo og mínir kæru tengdaforeldrar, stóðust eða eru að standast allt til enda á réttlætisbraut, og skilja eftir sig arfleifð trúfastrar hollustu fyrir alla afkomendur sína að fylgja.

Í nóvemberhefti *Ensign* 1989 er vitnað í Ezra Taft Benson forseta sem hér segir: „Drottinn þekkir og elskar hina öldruðu meðal fólks síns. Þannig hefur það alltaf verið, og þeim hefur hann trúað fyrir stórum hluta sinnar stærstu ábyrgðar. Á mismunandi ráðstöfunartímum hefur hann leiðbeint fólki sínu með spámönnum sem komnir voru á gamalsaldur. Hann hefur þarfnast þeirrar visku og reynslu sem fæst með aldrinum, innblásinna leiðbeininga þeirra sem sannað hafa trúfestu sína við fagnaðarerindi hans“ (Ezra Taft Benson, “The Elderly in The Church,” *Ensign,* nóv. 1989, 4).

Þessar hugsanir hafa leitt huga minn að þeim miklu prédikunum, blessunum, vitnisburðum, og ábendingum sem spámenn og postular hafa í aldanna rás látið eftir sig, sérstaklega þegar þeir sjálfir „gerast aldnir að árum“ eða búa sig undir að „hverfa í duftið.“ Sum þessara kveðjuorða eru meðal okkar athyglisverðustu og mest tilvitnuðu ritninga. Til dæmis: Í HDP Móse 6:57 segir Enok skýrum orðum: „Kenn því börnum þínum, að allir menn, hvarvetna, verði að iðrast, ella geti þeir engan veginn erft ríki Guðs, því að ekkert óhreint fær dvalið ... í návist hans.“ Þessar grundvallarreglur fagnaðarerindisins hafa verið kenndar frá tíma Adams og Evu, borist frá einni kynslóð til annarrar, eins og ritningarnar votta um, aftur og aftur.

Jósef sem seldur var til Egyptalands lét eftir sig þessa ráðgjöf til Ísraelsþjóðar: „Nú mun ég deyja. En Guð mun vissulega vitja yðar og flytja yður úr þessu landi til þess lands, sem hann hefir svarið Abraham, Ísak og Jakob“ (1 Mós 50:24).

Kynslóðum síðar, þegar spádómur Jósefs var um það bil að koma fram, lét Móse öllum kynslóðum Ísraels eftir blessun sína og Jósúa leiðtogamöttulinn, en hann leiddi fólkið aftur inn í fyrirheitna landið. Þegar Jósúa nálgaðist lokadægur sitt, lét

hann eftir sig hin ódauðlegu orð: „Kjósið þá í dag, hverjum þér viljið þjóna ... En ég og mínir ættmenn munum þjóna Drottni“ (Jós 24:15).

Síðar létu spámenn, svo sem Jeremía, Jesaja, og Malakí, eftir sig jafn óhrekjanlega vitnisburði í þjónustu sinni, spáðu um Messías sem koma mundi og eilífa friðþægingu hans.

Við finnum sama háttinn í Mormónsbók með þeirri áherslu sem lögð er á lokaorð Nefís, Jakobs, og Benjamíns konungs, en máttug prédikun hans breytti hjartalagi heillar þjóðar, svo ekki sé minnst á meistaraleg orð Abinadís, sem talaði af djörfung þótt hann vissi full vel að dagar hans væru taldir: „Kennið þeim, að endurlausn verður fyrir Krist, Drottin vorn, sem er hinn eilífi faðir sjálfur“ (Mósía 16:15). Listinn heldur áfram með Alma og syni hans, Alma, einnig Helaman, syni Helamans, sem gaf sonum sínum svo ómetanleg ráð: „Og nú synir mínir. Munið og hafið hugfast, að það er á bjargi lausnara okkar, sem er Kristur, sonur Guðs, sem þið verðið að byggja undirstöðu ykkar ... [sem] er öruggur grundvöllur, og ef menn byggja á þeim grundvelli, geta þeir ekki fallið“ (He 5:12).

Þessir og aðrir spámenn Mormónsbókar, þar á meðal Mormón sjálfur, rituðu fyrir okkar daga, og vissu að við myndum þarfnast þekkingar þeirra og visku okkur til hjálpar á þessum viðsjárverðu tímum. Sjálfri Mormónsbók lýkur með hinum óviðjafnanlegu orðum Morónís, sonar Mormóns, þar sem hann segir: „Já, komið til Krists, fullkomnist í honum og hafnið öllu óguðlegu. Og ef þér hafnið öllu óguðlegu og elskið Guð af öllum mætti yðar, huga og styrk, þá bregst yður eigi náð hans“ (Moró 10:32).

Við höfum samskonar „síðustu vitnisburði“ í Nýja testamentinu, svo sem þessa miklu yfirlýsingu Páls: „Ég hef barist góðu baráttunni, hef *fullnað* skeiðið, hef varðveitt trúna“ (2 Tím 4:7), og hann vitnar um að hann hafi staðist allt til enda. Okkur gefst mikil sýn inn í þroska hins mikla og reynda postula, Péturs, í yfirlýsingu hans: „... Skrýðist allir lítillætinu hver gagnvart öðrum, því að Guð stendur gegn dramblátum, en auðmjúkum veitir hann náð. Auðmýkið yður því undir Guðs voldugu hönd, til þess að hann á sínum tíma upphefji yður“ (1 Pét 5:5–6).

Og vissulega er mesti kennari allra tíma, hinn upprisni Drottinn sjálfur, sem býður postulum sínum og fylgjendum: „Farið því og gjörið allar þjóðir að lærisveinum, skírið þá í nafni föður, sonar og heilags anda, og kennið þeim að halda allt það, sem ég hef boðið yður. Sjá, ég er með yður alla daga allt til enda veraldar“ (Matt 28:19–20).

Hvílíkan auð sannfæringar og þekkingar þessi ritningarsamantekt gefur okkur. Getum við fundið sameiginlegan anda innblásturs streyma frá þeim öllum? Ég álít að það sé auðfundið:

- Að Kristur, sonur Guðs, lifir og er endurlausnari okkar og frelsari.
- Að við ættum að fylgja honum og sýna ást okkar til hans með því að minnast hans og auðmjúk halda boðorð hans.
- Að með friðþægingu hans, getum við iðrast og hlotið hreinsun.
- Að við erum sáttmálsþjóð hans og ættum alltaf að halda þá sáttmála sem við höfum gert.
- Að við þurfum að útbreiða fagnaðarerindi hans út um heiminn.
- Að við ættum að hafa trú, iðrast, taka skírn, meðtaka heilagan anda, og standast allt til enda.

Á okkar ráðstöfunartíma, endurtaka nútíma spámenn sí og æ þessar sömu reglur. Í kenningum Johns Taylor lærum við: „Sem mannssonur þoldi hann allt sem mögulegt er fyrir hold og blóð að þola; sem sonur Guðs sigraðist hann á öllu, og dvelur um eilífð til hægri handar Guði“ ("Latter-day Prophets Tell Us They Know Him," *New Era*, apríl 1992, 26; *The Mediation and the Atonement* [Salt Lake City: Deseret News Co., 1882], 151).

Eitt af því sem ég hef dálæti á frá Spencer W. Kimball forseta eru þessi orð: „Til viðbótar vitnisburðum þessara máttugu manna og postula til forna – bræðra okkar í þjónustu við sama meistara – bæti ég mínum eigin vitnisburði. Ég veit að Jesús Kristur er sonur lifanda Guðs og að hann var krossfestur vegna synda heimsins. Hann er vinur minn, frelsari minn, Drottinn minn, Guð minn. Af öllu mínu hjarta bið ég að hinir heilögu megi ... öðlast eilífa arfleifð með honum í himneskri dýrð“ (“An Eternal Hope in Christ,” *Ensign*, nóvember 1978, 73).

Spámaður okkar í dag, Gordon B. Hinckley forseti, heldur áfram að leiða okkur af kraftmikilli sannfæringu, eins og hann lýsti yfir nýlega í ávarpi á stikuráðstefnu: „Ég á vitnisburð, raunverulegan, brennandi, og lifandi, um sannleika þessa verks. Ég veit að Guð eilífur faðir okkar lifir og að Jesús er Kristur, frelsari minn og endurlausnari minn. Það er hann sem er höfuð þessarar kirkju. Allt sem ég þrái er að halda þessu verki áfram eins og hann vill að það sé gert“ (stikuráðstefna, Washington, Utah, 20. janúar 2002).

Sem samantekt á vitnisburðum allra fornra og nútíma postula og spámanna, höfum við ódauðleg orð spámannsins Josephs Smith, sem lýsti yfir: „Og nú, eftir þá mörgu vitnisburði, sem gefnir hafa verið um hann, er þetta vitnisburðurinn síðastur allra, sem við gefum um hann: Að hann lifir! Því að við sáum hann, já, Guði til hægri handar, og við heyrðum röddina, sem bar vitni um, að hann er hinn eingetni föðurins“ (Kenning og sáttmálar 76:22–23).

Sem sérstakt vitni um Jesú Krist, vil ég bæta við auðmjúkri staðfestingu minni á sannleika áður getinna vitnisburða. Ég veit að himneskur faðir er bókstaflega faðir anda okkar og að Jesús Kristur er frelsari okkar, endurlausnari okkar, Drottinn okkar, og eftir því sem við hlýðum boðorðum hans, vinur okkar (sjá Jóh 15:14). Þegar við nemum ritningarnar, megum við þá öðlast aukið innsæi í og meira þakklæti fyrir kraft vitnisburðarins, sérstaklega eins og hann er fluttur af þeim sem hafa mikla visku og háan aldur, er bæn mín, í nafni *Jesú Krists, amen.*

# Hin milda miskunn Drottins

**Öldungur David A. Bednar**
**í Tólfpostulasveitinni**

Fyrir sex mánuðum stóð ég við þennan ræðustól í fyrsta sinn sem nýjasti meðlimur Tólfpostulasveitarinnar. Bæði þá og jafnvel enn meira nú finn ég þunga þessarar þjónustuköllunar og ábyrgðar, að kenna skýrt og vitna með valdi og krafti. Ég bið um hjálp heilags anda er ég nú tala til ykkar.

Í dag vil ég lýsa og ræða þau andlegu áhrif sem ég varð fyrir skömmu áður en ég sté í þennan ræðustól á sunnudagsmorgunfundi síðustu aðalráðstefnu í október. Öldungur Dieter F. Uchtdorf hafði rétt lokið ræðu sinni og gefið máttugan vitnisburð sinn um frelsarann. Þá risum við öll á fætur og sungum sálminn sem Gordon B. Hinckley forseti hafði áður tilkynnt. Millisálmurinn þennan morgun var „Nú Ísraels lausnari."

Tónlistin fyrir hvern hluta ráðstefnunnar hafði verið ákveðin löngu fyrr – og greinilega löngu áður en ég fékk þessa nýju þjónustuköllun. Hefði mér þó verið boðið að velja millisálm fyrir þennan hluta ráðstefnunnar – sálm sem bæði væri göfgandi og andlega róandi fyrir mig og ráðstefnugesti áður en ég flytti fyrsta ávarp mitt í þessari ráðstefnuhöll – hefði ég valið eftirlætissálm minn, „Nú Ísraels lausnari." Augu mín fylltust tárum þar sem ég stóð ásamt ykkur og söng þennan hrífandi sálm endurreisnarinnar.

Við lok söngsins kom mér í hug vers úr Mormónsbók:
„... En sjá. Ég, Nefí, mun sýna yður fram á, að hin milda miskunn Drottins vakir yfir öllum þeim, sem hann hefur útvalið, trúar þeirra vegna, til að gjöra þá máttuga, jafnvel með krafti til frelsunar" (1 Ne 1:20).

Hugur minn beindist samstundis að orðum Nefís, „hin milda miskunn Drottins," og ég vissi að á þeirri stundi fann ég einmitt þessa mildu miskunn. Kærleiksríkur frelsarinn sendi mér mjög persónulega og tímabæra huggun og fullvissu með sálmi sem valinn var mörgum vikum áður. Sumir kunna að telja þetta einungis góða tilviljun, en ég ber vitni um að hin milda miskunn Drottins er raunveruleg og hún birtist ekki af handahófi eða aðeins af tilviljun. Oft tímasetur Drottinn sína mildu miskunn þannig, að það auðveldar okkur bæði að greina hana og viðurkenna.

### *Hvað er hin milda miskunn Drottins?*

Frá því í október síðastliðinn hef ég hvað eftir annað hugleitt setninguna „hin milda miskunn Drottins." Með eigin lestri, athugunum, íhugun og bænum tel ég mig hafa öðlast betri skilning á því að hin milda miskunn Drottins sé afar persónulegar og einstaklingsbundnar blessanir, styrkur, vernd, fullvissa, leiðsögn, ástúðleg góðvild, huggun, stuðningur og andlegar gjafir sem við hljótum frá og með Drottni Jesú Kristi og vegna hans. Sannlega hagar Drottinn „[miskunn sinni] í samræmi við ástand mannanna barna" (K&S 46:15).

Minnumst þess að frelsarinn sagði postulum sínum að hann myndi ekki skilja þá eftir án huggunar. Ekki aðeins myndi hann senda „annan huggara," sjálfan heilagan anda, heldur sagðist hann sjálfur myndi koma til þeirra (Jóh 14:18). Ég bendi á að frelsarinn kemur meðal annars til sérhvers okkar gegnum ríkulega og milda miskunn sína. Þegar erfiðleikar verða til dæmis á vegi okkar eru gjöf trúarinnar og hæfilegt sjálfstraust sem nær lengra en eigin geta tvö dæmi um hina mildu miskunn Drottins. Iðrun og fyrirgefning synda og góð samviska eru dæmi um hina mildu miskunn Drottins. Þolgæðið og hugrekkið sem gerir okkur mögulegt að sækja fram með glöðu

hjarta þrátt fyrir líkamlega takmörkun og andlega erfiðleika eru og dæmi um milda miskunn Drottins.

Á nýlegri stikuráðstefnu var hin milda miskunn Drottins augljós í hrífandi vitnisburði ungrar eiginkonu og fjögurra barna móður sem missti mann sinn í Írak í desember 2003. Þessi hugdjarfa systir sagði frá því, að eftir að henni hafði verið tilkynnt lát eiginmannsins hafi henni borist jólakort og boðskapur frá honum. Mitt í hörðum raunveruleikanum og snöggum umskiptum var þessi góða systir mildilega minnt á að fjölskyldur geta vissulega verið saman um eilífð. Með leyfi vitna ég í jólakortið.

*Til bestu fjölskyldunnar í heiminum! Eigið góðar stundir og munið hina sönnu merkingu jólanna! Drottinn hefur gert okkur mögulegt að vera saman um eilífð. Þótt við séum aðskilin, verðum við samt saman sem fjölskylda.*

*Guð blessi ykkur og varðveiti og gefi að þessi jól verði kærleiksgjöf okkar til hans í upphæðum!!!*

*Með ástarkveðjum, pabbi og þinn elskandi eiginmaður.*

Greinilegt er að aðskilnaðurinn sem eiginmaðurinn talar um í jólakveðju sinni er sá sem herþjónusta hans olli. En til systurinnar barst sem rödd úr duftinu frá látnum eilífðarmaka og föður sú andlega fullvissa og vitnisburður sem hún þarfnaðist mest. Eins og ég sagði áður þá birtist hin milda miskunn Drottins ekki af handabófi eða aðeins af tilviljun. Trúfesta, hlýðni og auðmýkt bjóða hinni mildu miskunn heim í lífi okkar, og það er oft tímasetning Drottins sem gerir okkur mögulegt að þekkja og varðveita þessar mikilvægu blessanir.

Fyrir nokkru talaði ég við prestdæmisleiðtoga sem fannst hann þurfa að muna nöfn alls æskufólks 13-21 árs í stiku sinni. Hann notaði skyndimyndir af piltunum og stúlkunum og setti á spjöld sem hann skoðaði meðan hann ferðaðist um í viðskiptaerindum eða á öðrum stundum. Prestdæmisleiðtoginn lærði fljótt nöfn alls unga fólksins.

Eina nóttina dreymdi prestdæmisleiðtoginn einn piltanna sem hann þekkti aðeins af mynd. Í draumnum sá hann piltinn klæddan í hvíta skyrtu með trúboðsbarmmerki. Með félaga sér við hlið var pilturinn að kenna fjölskyldu einni. Ungi maðurinn hélt á Mormónsbók í hendi sér og virtist sem hann væri að bera vitni um sannleiksgildi bókarinnar. Prestdæmisleiðtoginn vaknaði síðan af draumi sínum.

Síðar á prestdæmisfundi fór leiðtoginn til piltsins sem hann hafði séð í draumi sínum og bað hann um að tala við sig í nokkrar mínútur. Eftir stutt spjall nefndi leiðtoginn piltinn með nafni og sagði: „Ég er ekki draumamaður. Mig hefur aldrei dreymt nokkurn í þessari stiku nema þig. Ég ætla að segja þér frá draumi mínum og síðan vil ég biðja þig að hjálpa mér að skilja merkingu hans.“

Prestdæmisleiðtoginn sagði frá draumnum og spurði piltinn hvað hann merkti. Tilfinningaklökkur svaraði pilturinn: „Hann sýnir að Guð veit hver ég er.“ Það sem eftir var samtalsins milli piltsins og prestdæmisleiðtoga hans gekk mjög vel og þeir ákváðu að hittast og ræða saman af og til næstu mánuði.

Ungi maðurinn fann hina mildu miskunn Drottins fyrir tilverknað innblásins prestdæmisleiðtoga. Eins og ég sagði áður þá birtist hin milda miskunn Drottins ekki af handahófi eða aðeins af tilviljun. Trúfesti og hlýðni gerir okkur mögulegt að öðlast þessar mikilvægu gjafir og tímasetning Drottins gerir okkur iðulega kleift að þekkja þær.

Við ættum ekki að vanmeta eða líta fram hjá þeim krafti sem felst í hinni mildu miskunn Drottins. Einfaldleiki, ljúfleiki og stöðugleiki hinnar mildu miskunnar Drottins mun efla okkur og vernda jafnt á erfiðum tímum líðandi stundar og ókomnum. Þegar orðin geta ekki veitt þá huggun sem við þörfnumst eða lýst þeirri

gleði sem við finnum, þegar einfaldlega er gagnslaust að reyna að skýra það óútskýranlega, þegar rök og skynsemi ná ekki að veita viðeigandi skilning á ranglæti og misgjörðum þessa lífs, þegar jarðnesk reynsla og mat veita ekki þráða niðurstöðu og þegar svo virðist sem við séum alein, þá erum við sannlega blessuð með mildri miskunn Drottins og gjörð máttug, jafnvel með krafti til frelsunar (sjá 1 Ne 1:20).

***Hverja hefur Drottinn útvalið til að hljóta milda miskunn hans?***

Orðið „útvalinn" í 1. Nefí 1:20 er lykillinn að því að skilja hugtak hinnar mildu miskunnar Drottins. Orðabókin segir „útvalinn" merkja þann sem valinn er úr eða hafi forgang. Einnig má nota það yfir þá sem kjörnir eru eða valdir af Guði (Oxford English Dictionary Online, önnur útg., 1989).

Sumir sem heyra eða lesa þennan boðskap geta ranglega sniðgengið hann eða útilokað mögleikana á mildri miskunn Drottins í lífi sínu, ef þeir hugsa: „Ég er ekki sá sem hefur verið eða mun nokkru sinni verða útvalinn." Ranglega getum við talið að slíkar blessanir eða gjafir séu ætlaðar þeim sem virðast réttlátari eða sem gegna augljósum kirkjuköllunum. Ég ber vitni um að hin milda miskunn Drottins er okkur öllum opin og að Ísraels lausnari þráir að veita okkur slíkar gjafir.

Að vera eða verða útvalinn er ekki einskorðuð staða sem okkur veitist. Þess í stað ákveðum við sjálf, þið og ég, hvort við erum útvalin. Takið eftir notkun orðsins „útvalinn" í eftirfarandi versum úr Kenningu og sáttmálum:

„Sjá, margir eru kallaðir en fáir eru *útvaldir*. Og hvers vegna eru þeir ekki útvaldir?

Vegna þess að hjörtu þeirra beinast svo mjög að því, sem þessa heims er, og leita sér svo mannlegrar upphefðar" (K&S 121:34–35; leturbr. hér).

Ég tel að vísbendingin í þessum versum sé mjög skýr. Guð gerir ekki lista yfir eftirlæti sín sem við verðum síðan að vonast eftir að komast einhvern tíma á. Hann takmarkar ekki „hina útvöldu" við fáeina. Það eru hjörtu *okkar* og þrá *okkar* og hlýðni *okkar* sem ákvarða hvort við teljumst meðal hinna útvöldu Guðs.

Drottinn kenndi Enok einmitt þessa kenningu. Takið eftir orðinu *velja* í þessum versum.

„... Sjá þessa bræður þína. Þeir eru mín eigin handaverk, og þekkingu þeirra gaf ég þeim, þegar ég skapaði þá, og í aldingarðinum Eden gaf ég manninum sjálfræði sitt –

Og við bræður þína hef ég sagt, og einnig gefið þeim boðorð um, að þeir eigi að elska hver annan og að þeir skuli *velja* mig, föður sinn" (HDP Móse 7:32–33; leturbr. hér).

Við lærum af þessum versum að grundvallartilgangurinn með gjöf sjálfræðis var sá að elska hver annan og að velja Guð. Þannig verðum við hin útvöldu Guðs og bjóðum heim hinni mildu miskunn hans þegar við notum sjálfræði okkar til að velja Guð.

Ein þekktasta ritningargreinin, sem oft er vitnað í, er að finna í HDP Móse 1:39. Það vers lýsir því greinilega og nákvæmt hvert verk hins eilífa föður er: „Því að sjá. Þetta er *verk mitt* og dýrð mín – að gjöra ódauðleika og eilíft líf mannsins að veruleika" (leturbr. hér).

Samstæð ritningargrein í Kenningu og sáttmálum lýsir jafn skýrt og nákvæmt hvert okkar verk er sem sona og dætra hins eilífa föður. Athyglisvert er að þetta vers virðist ekki jafn vel þekkt og ekki eins oft vitnað í það. „Sjá, þetta er *verk þitt*, að halda boðorð mín, já, af öllum mætti þínum, huga og styrk" (K&S 11:20; leturbr. hér).

Verk föðurins er því að gjöra ódauðleika og eilíft líf barna sinna að veruleika. Okkar verk er að halda boðorð hans af öllum mætti, huga og styrk – og verða þannig

útvalin og, fyrir heilagan anda, hljóta og þekkja hina mildu miskunn Drottins í daglegu lífi okkar.

Sjálf ráðstefnan sem við tökum þátt í þessa helgi er enn eitt dæmið um hina mildu miskunn Drottins. Við njótum þeirrar blessunar að hljóta innblásna leiðsögn frá leiðtogum kirkju frelsarans – tímabærar ráðleggingar fyrir okkar tíma og okkar aðstæður og okkar vanda. Við höfum hlotið leiðsögn og upplyftingu, við höfum verið efld, kölluð til iðrunar og styrkt. Andi þessarar ráðstefnu hefur styrkt trú okkar og vakið þrá okkar til iðrunar, til hlýðni, til betrunar og til þjónustu. Ég er, líkt og þið, áhugasamur um að tileinka mér nú þegar aðvörunarorðin, leiðsögnina og fara að þeim innblæstri sem við höfum verið blessuð með á þessari ráðstefnu. Og innan skamms munum við hljóta hina mildu miskunn Drottins er við hlýðum á lokaorð og vitnisburð Gordons B. Hinckley forseta. Sannlega er „Drottinn ... öllum góður, og miskunn hans er yfir öllu, sem hann skapar" (Sálm 145:9).

Ég er þakklátur fyrir endurreisn fagnaðarerindis Jesú Krists fyrir tilstilli spámannsins Josephs Smith og fyrir vitneskjuna sem við höfum nú á hinni mildu miskunn Drottins. Þrár okkar, trúfesta og hlýðni bjóða heim og hjálpa okkur að greina miskunnsemi hans í lífi okkar. Ég ber vitni um að Jesús er Kristur, lausnari okkar og frelsari, og að hin milda miskunn hans stendur okkur öllum til boða. Öll getur við átt augu sem sjá skýrt og eyru sem heyra greinilega hina mildu miskunn Drottins er hún styrkur okkur og styður á þessum síðari dögum. Megi hjörtu okkar ætíð vera full af þakklæti fyrir hina ríkulegu og mildu miskunn hans. Í hinu heilaga nafni Jesú Krists, amen.

# Lokaorð

## Gordon B. Hinckley forseti

Kæru bræður og systur, þetta hefur verið dásamleg ráðstefna. Andi Drottins hefur verið með okkur. Við höfum lært margvíslegan sannleik. Vitnisburðir okkar hafa styrkst og trúin lifnað.

Fyrir kraftaverk nútíma tækni, og það er kraftaverk, hefur ráðstefnan verið send út um heim allan. Níutíu og fimm prósent af meðlimafjölda kirkjunnar um allan heim gæti hafa tekið þátt í þessu með okkur.

Þetta hefur verið tími til þess að endurnýja trú okkar á þann mikla og eilífa sannleik sem barst okkur fyrir tilverknað spámannsins Josephs. Hve blessuð við erum. Hve lánsöm við erum í vitneskjunni um þennan stórfenglega sannleika.

En ég vil segja, eins og ég hef sagt áður, aðild okkar að þessari kirkju, með möguleikum á öllum blessunum sem henni fylgja, ætti aldrei að fylla okkur sjálfsréttlætingu eða hroka, þannig að við ófrægjum aðra eða lítum niður á þá. Allt mannkyn er náungi okkar. Þegar spurt var hvert væri æðsta boðorð lögmálsins, svaraði Drottinn: „Elska skalt þú Drottin, Guð þinn, af öllu hjarta þínu, allri sálu þinni og öllum huga þínum ... [og] þú skalt elska náunga þinn eins og sjálfan þig“ (Matt 22:37, 39).

Hver sem hörundslitur okkar er, augnalitur eða tungumál, þá erum við öll synir og dætur Guðs og verðum að sýna hvert öðru kærleika og umhyggju.

Hvar sem við búum getum við verið vingjarnlegir nágrannar. Börn okkar geta verið með börnum þeirra sem eru annarrar trúar og haldist staðföst, ef þeim er réttilega kennt. Þau geta jafnvel orðið trúboðar félaga sinna.

Við biðjum okkar dásamlega æskufólk að standa gegn hinu illa í heiminum, að ýta því til hliðar og lifa lífi sem þóknanlegt er Drottni. Við biðjum þess stöðugt að foreldrar þess lifi verðugu lífi að öllu leyti.

Við endurtökum það sem við höfum sagt áður, gerið það að venju að fara í hús Drottins. Engin betri leið er til að tryggja réttlátt líf en með því að sækja musterið. Það mun reka burt illsku kláms, eiturlyfjaneyslu og andlegrar hnignunar.

Sem kirkja höfum við lært að vinna með öðrum við að létta sorg og þjáningar þeirra sem hörmulega erfitt eiga. Líknarstarf okkar hefur bókstaflega blessað líf óteljandi fjölda sem ekki eru okkar trúar. Í hinum hræðilegu náttúruhamförum flóðbylgjunnar og öðrum hörmungum þar sem barist er við sjúkdóma og hungur, höfum við unnið mikið og undursamlegt verk með öðrum án þess að leiða hugann að því hver fái þakkirnar.

Í febrúar á þessu ári veitti forseti ameríska Rauða krossins kirkjunni “Circle of Humanity” verðlaunin (mannúðarverðlaun) en það er æðsti heiður sem ameríski Rauði krossinn veitir fyrir mannúðarþjónustu. Þau voru veitt sem þakklæti fyrir fé sem gefið var til að bólusetja þúsundir barna í Afríku við mislingum.

Alþjóða Rotary félagið veitti kirkjunni nýlega viðurkenningu fyrir fjárframlög til útrýmingar mænuveiki í þeim löndum þriðja heimsins þar sem hún enn herjar.

Það hefur bjargað óteljandi lífum og linað miklar þjáningar og eymd með starfi sínu.

Í þeim mæli sem fjármagn, er örlátir þegnar okkar gefa, gerir okkur mögulegt reynum við að rétta fram hjálparhönd og lyfta þeim sem erfitt eiga.

Eins og ég sagði í inngangsorðum mínum í gær hefur menntunarsjóðurinn nú hjálpað 18.000 ungmennum í 27 löndum.

Vissulega blessar Drottinn okkur sem heild, og við verðum að blessa þurfandi börn hans hvar sem þau kunna að vera.

Þegar við nú höldum heim, veiti ég ykkur blessanir himins. Verið trú boðorðum Drottins og hann mun ljúka upp fyrir ykkur gáttum himins og úthella yfir ykkur blessunum. Ég læt ykkur eftir bæn mína og ást, og hlakka til þess þegar við söfnumst saman á ný til að tilbiðja Drottin. Í hinu heilaga nafni Jesú Krists, amen.

## Gleðitíðindi frá Kúmóra

**Systir Susan W. Tanner**
**aðalforseti Stúlknafélagsins**

Þegar ég kom í hið endurreista fábrotna bjálkahús Josephs Smith, fannst mér ég vera á helgum stað. Ég var á staðnum þar sem engillinn Moróní birtist Joseph Smith fyrst til að innleiða þetta mikla og undursamlega verk hins endurreista fagnaðarerindis Jesú Krists. Þegar mér varð hugsað um samtvinnað líf þessara tveggja miklu spámanna, Morónís, síðasta spámanns sinnar aldar, og Josephs, fyrsta spámanns okkar ráðstöfunartíma, varð mér ljóst að ég hafði átt fjölmargar „álíka" stundir. Leyfið mér að miðla ykkur nokkrum „álíka" lexíum, er ég ber vitni um þetta „mikla og undursamlega verk."

Þegar Joseph sá Moróní fyrst var hann aðeins 17 ára gamall, á sama aldri og margar ykkar stúlknanna. Við þekkjum stundina og staðinn. Það gerðist að nóttu til, 21. september 1823, í svefnherbergi á efri hæð meðan fimm bræður hans sváfu. Joseph bað þess að hann fengi að vita „horfur [sínar] og stöðu gagnvart [Guði]" (JS – S 1:29). Joseph fannst hann ófullkominn og óverðugur frammi fyrir Guði. Hann sagðist ekki hafa verið sekur um „stórar eða illkynjaðar syndir," en fann sig sekan um „heimskuleg glappaskot, [og að sýna] oft veikleika æskunnar" (JS – S 1:28). Hann bað því um hughreystingu. Ég get skilið tilfinningar hins unga Josephs og ég veit að það geta margar ykkar einnig. Hversu oft hefur hver og ein okkar ekki kropið í yfirþyrmandi ófullkomleika og þörf fyrir guðlega hughreystingu?

Moróní, hinn himneski sendiboði, birtist Joseph sem svar við iðrandi trúarbæn hans. Joseph skráði: „Hann ávarpaði mig með nafni" og sagði að „Guð ætlaði mér verk að vinna" (JS – S 1:33). Joseph „furðaði sig mjög á því, sem þessi sérstæði sendiboði hafði sagt [honum]" (JS – S 1:44). Við getum einnig hlotið andlega hughreystingu sem bænheyrslu. Við getum hlotið vitnisburð um að himnafaðir okkar þekkir okkur með nafni og að hann ætli *okkur* að uppfylla ákveðið hlutverk á jörðu.

Engillinn Moróní birtist Joseph tvisvar í viðbót nótt þessa, svo aftur daginn eftir á akrinum og í hlíðinni, og loks á hverju ári í fjögur ár á þeirri hæð sem við þekkjum sem Kúmóra. Fyrsta daginn endurtók Moróní sömu skilaboðin aftur og aftur. Getið þið líkt þessu við eitthvað sem þið hafið reynt? Börnin mín gantast stundum með það að ég endurtaki sömu hlutina aftur og aftur. Sýnið foreldrum ykkar og leiðtogum þolinmæði þegar þeir endurtaka sig stöðugt. Drottinn fól Moróní að kenna hinum unga spámanni með endurtekningu. Endurtekning rótfestir reglur fagnaðarerindisins í huga okkar og hjarta.

Þessar reglubundnu heimsóknir engilsins urðu til að þróa dýrðleg tengsl milli þessa forna spámanns, sem innsiglað hafði töflurnar, og þessa nútíma spámanns, sem útvalinn hafði verið til að leiða þær að nýju fram í dagsljósið. Ég tel að við ættum einng að rækta ástúð í hjarta okkar til fornra spámanna sem og nútíma spámanna. Hve viðeigandi að táknmynd af englinum Moróní sé efst á flestum nútíma musterum. Þær minna okkur á að hinn dýrðlegi Moróní „engill uppheims var, sem alda rauf hér þögn" (Sálmar, 6), en sálm þennan mun kórinn syngja síðar í kvöld.

Joseph Smith lærði svo margt af Moróní. Joseph miðlaði hinni lærdómsfúsu fjölskyldu sinni mörgu af því sem hann hafði lært í öryggi og skjóli þessa bjálkahúss þar sem Moróní birtist honum. Móðir hans sagði:

„Joseph tók á móti fyrirmælum frá einum tíma til annars og á hverju kvöldi komum við saman með börnum okkar og helguðum okkur umræðum um efni þeirra ... Ég held að það hafi verið einhver undarlegasta fjölskyldusýn sem sést hefur á jörðu. Við sátum öll í hring ... og hlustuðum af áfergju á kennslu átján ára gamals pilts“ (*The Revised and Enhanced History of Joseph Smith by His Mother*, ritst. af Scot Facer Proctor og Maurine Jensen Proctor, 111).

Lucy Mack sagði að þessi daglegu fjölskyldukvöld á heimili þeirra hafi stuðlað að ljúfri einingu, hamingju og friðsæld. Hve góð fyrirmynd hinn ungi Joseph er fyrir okkur um að efla heimilið og fjölskylduna! Hann lúrði ekki á vitnisburði sínum, og andlegri reynslu, heldur miðlaði honum oft til foreldra sinna og systkina. Við getum gert það sama á okkar heimili.

Smith-fjölskyldan varð að standa saman vegna stöðugra ofsókna á hendur henni og Joseph. Kannski hefur kennsla og fordæmi Morónís hjálpað spámanninum Joseph að standa sem vitni í ranglátum heimi. Moróní lifði við heimsástand sem hann sagði að yrði ríkjandi í heimi nútímans – „Já, það mun koma á þeim degi, þegar ... verða morð og rán, lygar og svik, hór og alls kyns viðurstyggð“ (Morm 8:31).

Moróní þekkti einnig af eigin raun einmanaleika og vonbrigði. Eftir mikla og harða orrustu milli Nefíta og Lamaníta, þar sem allt fólk hans var drepið, sagði hann harmþrunginn: „Ég er aleinn. ... Faðir minn hefur verið drepinn í bardaga og allt mitt ættfólk, og ég á hvorki vini né stað til að fara á. Og ég veit ekki, hve lengi Drottni þóknast að ég lifi“ (Morm 8:5). Getið þið skynjað einmanaleika og vonbrigði Morónís?

Mér er ljóst að mörgum ykkar finnst þið stundum vera einar og vinalausar í ranglátum heimi. Sumum ykkar finnst þið ekki eiga „stað til að fara á“ í erfiðleikum ykkar. En þið og ég munum ekki aðeins fá staðist, heldur einnig sigra, líkt og Moróní, í þeirri viðleitni okkar að vera trúar sannleikanum á örðugum tíðum. Hvað gerði hann í einmanaleika sínum frammi fyrir óvinveittum heimi? Hann var trúfastur og hlýðinn föðurnum og lauk við skráninguna á gulltöflurnar. Hann varð kunnugur ritmáli spámannanna. Og framar öllu vann hann sig út úr vonleysi sínu með því að halda sig fast við framtíðarfyrirheit Drottins. Hann ríghélt í sáttmálana sem Guð gerði við hús Ísraels um að blessa það ævarandi.

Moróní iðkaði trú með því að reiða sig á þær blessanir sem komandi kynslóðir hafa fyrirheit um. Öldungur Jeffrey R. Holland sagði að hina gleðiríku þátttöku liðinna spámannna, einnig Morónís, mætti rekja til þess að þeir sáu okkar tíma í sýn. Þeir sáu öflugt ungt fólk sem hélt sáttmála sína, fólk eins og ykkur, sem vinna myndi verk Drottins á þessum síðasta ráðstöfunartíma. Öldungur Holland sagði: „Leiðtogar þessa liðna tíma höfðu styrk til að halda sér við efnið, ekki vegna þess að þeir trúðu að þeir myndu ná árangri, heldur vegna þess að þeir vissu að þið mynduð gera það – stórkostlegur söfnuður ungra [kvenna], líkt og þið, ... sem staðráðinn er í að sjá fagnaðarerindið halda velli og sigra“ (“Terror, Triumph, and a Wedding Feast,” CES Fireside, 12. sept. 2004). Við höfum þessa miklu ábyrgð, að von Morónís um „gleðiríka þátttöku” okkar rætist.

Við sem tilheyrum Kirkju Jesú Krists hinna Síðari daga heilögu erum tengd Drottni með sáttmála. Hann sagði: „[Ég] gleymi ... þér ... ekki. ... Ég hefi rist þig á lófa mína“ (Jes 49:15–16, 1 Ne 21:15–16).

Hinn bindandi og hughreystandi sáttmálskraftur lífs okkar varð mér afar raunverulegur nýlega þegar kærir vinir okkar urðu fyrir hörmulegum ástvinamissi í fjölskyldu sinni. Þegar Catherine og Kimball Herrod voru akandi á leið heim eftir

fjölskylduboð heima hjá foreldrum hennar, ásamt fjórum ungum börnum sínum, níu mánaða til sjö ára, losnuðu tvö samhliða afturhjól af stórum flutningabíl sem kom úr gagnstæðri átt á hraðbrautinni, köstuðust yfir á þeirra helming vegarins og skullu á vinstri hlið fjölskyldubílsins. Kimball, sem var við stýrið, eiginmaður og faðir, missti meðvitund og slasaðist alvarlega. Catherine tókst einhvern veginn að stýra bílnum að vegbrúninni og biðja um neyðarhjálp. Hún fylgdist með sjúkraliðunum sinna eiginmanni sínum og tveimur eldri börnunum þar sem hún sat í lögreglubíl með tvö yngri börnin í fanginu. Hún bað upphátt: „Himneskur faðir, við vitum að þú hefur mátt til að lækna Kimball, sé það þinn vilji, en sé svo ekki, þá höfum við þá trú að þú styðjir okkur einhvern veginn í gegnum þetta.“ Flogið var með Kimball til sjúkrahúss, en þangað komst hann ekki lifandi.

Þegar búið hafði verið að öllum sárum barnanna, og þau kominn heim örugg í rúmið, fór Catherine á sjúkrahúsið til að kveðja eiginmann sinn í hinsta sinn. Þótt erfitt væri þá sagði hún við foreldra sína sem voru þar með henni: „Ég veit að Kimball og ég erum innsigluð með musterissáttmála og við munum einhvern tíma verða saman að nýju.“ Þessi unga móðir lét hughreystast af sáttmála sínum í þessari hræðilegu lífsreynslu.

Að útför lokinni vorum við minnt á þann kraft sem býr í sáttmálum til að hughreysta okkur á rauna- og sorgarstundum. Er við sungum saman lokasálminn („Fjölskyldur geta átt eilífð saman,“ Barnasöngbókin, 98), heyrðum við öll hina hljómfögru og skæru rödd hins fimm ára Taylors. Það var gleðiefni fyrir söfnuðinn að vita að barn hafði hlotið kennslu um innsiglunarsáttmálann, sem bindur saman föður þess og móður.

Í ræðunni sem faðir Chatherine flutti er einnig kennsla um þann kraft sem býr í sáttmálum. Hann vitnaði í ritningargrein í hinu dýrmæta riti sem Moróní innsiglaði og færði síðan spámanninum Joseph, með þeim áminningarorðum að fagnaðarerindið gefi fyrirheit um trausta undirstöðu í lífsins stormum, en verji okkur ekki gegn regni.

„Munið og hafið hugfast, að það er á bjargi lausnara okkar, sem er Kristur, sonur Guðs, sem þið verðið að byggja undirstöðu ykkar. Að þegar djöfullinn sendir sína voldugu storma, ... mun hann ekkert vald hafa til að draga ykkur niður í djúp vansældar og óendanlegs volæðis, vegna þess að það bjarg, sem þið byggið á, er öruggur grundvöllur“ (Helaman 5:12).

Hinn mikli styrkur sem búið getur í fjölskyldu á upptök sín í þeirri vitneskju að eilíf bönd tengja hana saman og að hún er tengd himneskum föður og verður ekki aðskilin frá honum.

Við getum, líkt og Moróní, Joseph Smith og Catherine og Kimball, sigrast á erfiðleikum, ranglæti og ofsóknum. Prestdæmissáttmálar tengja okkur eilíflega við okkar jarðnesku og himnesku fjölskyldu og íklæða okkur réttlæti og krafti.

Hve þakklát ég er að vera uppi á þessum mikla og undursamlega tíma þegar fagnaðarerindið hefur verið endurreist. Ég ber vitni um og tjái þakklæti mitt fyrir þessa tvo miklu spámenn, Moróní og Joseph Smith, sem áttu fund saman í loftherberginu og lögðu saman á ráðin um að leiða fram Mormónsbók. Ég lýk máli mínu með því að endurtaka hina gleðilegu yfirlýsingu spámannsins Josephs um hið endurreista fagnaðarerindi: „Hvað heyrum við nú í því fagnaðarerindi, sem við höfum meðtekið? Gleðiraust! ... Gleðitíðindi frá Kúmóra! Moróní, engill frá himni, tilkynnir uppfyllingu spádómanna – bókin skal opinberuð. ... Bræður [og systur], eigum við ekki að halda áfram í þágu svo mikils málstaðar? ... Hjörtu ykkar fagni og gleðjist ákaft. ... Sem kirkja og einstaklingar ... skulum við þess vegna færa Drottni fórn í réttlæti“ (K&S 128:19, 20, 22, 24). Ég veit að þetta er kirkja Jesú Krists. Megi

fagnaðarerindið hafa djúp áhrif á sál okkar allra, svo við elskum Guð og þjónum honum af öllu hjarta. Í nafni Jesú Krists.

# Verk fyrir mig að vinna

**Systir Julie B. Beck**
**fyrsti ráðgjafi í aðalforsætisráði Stúlknafélagsins**

Ég minnist lexíu nokkurrar á fjölskyldukvöldi þegar ég var telpa þar sem faðir minn greindi frá vitjun engilsins Morónís til spámannsins Josephs Smith. Hann sagði engilinn hafa birst við rúm Josephs eftir einlæga bæn hans. Engillinn var sendiboði Guðs, nafn hans var Moróní, og hann sagði Joseph að Guð hefði verk fyrir hann að vinna. (Sjá Joseph Smith – Saga 1:33.) Ég minnist þessarar kennslu föður míns: „Joseph sagði ekki: „Ó, nei, engill, ég vildi bara fá að vita hvaða kirkja væri sönn. Ég vissi ekki að ég þyrfti að gera eitthvað!" En auðvitað þurfti Joseph að gera eitthvað. Hann hafði köllun frá Drottni.

Það sem Joseph gerði var undravert. Hann var einfaldur bóndasonur, en fyrir hans tilstilli varð Mormónsbók þýdd og færð fram í dagsljósið, prestdæmið og lyklar þess voru endurreyst á jörðu, Kirkja Jesú Krists hinna Síðari daga heilögu var stofnuð og bygging hinna heilögu mustera hófst. Allar þær helgiathafnir sem börn himnesks föður þurfa á að halda sér til sáluhjálpar eru nú fyrir hendi á jörðu fyrir tilstilli Josephs Smith. *Þetta* var dagur kraftaverka sem rætt er um í Moróní (Moró 7:35–37) og hið dásamlega verk og undur sem Nefítarnir ræddu um fyrir mörgum öldum. (Sjá 1 Ne 14:7.)

Verkinu sem Joseph hóf var haldið áfram af meðlimum á fyrri tíma kirkjunnar, sem áttu trú á Jesú Krist og hið endurreista fagnaðarerindi hans. Fyrir þeirra tilstilli tók fagnaðarerindi Jesú Krists að breiðast út um heiminn og kirkja hans var stofnuð. Verk *þeirra* var sannarlega dásamlegt.

En tími kraftaverka er ekki liðinn og hinu undursamlega verki er enn haldið áfram. Þegar við vorum skírðar, varð hver og ein okkar hluti af dásamlegu verki.

Á liðnu ári hef ég vitjað þegna kirkjunnar. Mér varð ljóst að fyrir trú hinna veiku og einföldu mun sáttmála Drottins komið á á jörðu. (Sjá K&S 1:17–23.)

Í Kóreu er stúlka nokkur sem er eini meðlimur kirkjunnar í fjölskyldu sinni. Hún hélt á vel þvældu eintaki sínu af bókinni Eigin framþróun og sagðist dreyma um að eiga virka fjölskyldu í fagnaðarerindinu. Stúlknafélagsforseti í Armeníu framfylgir staðfastlega starfsskrá Stúlknafélagsins, jafnvel þótt hún hafi ekki handbók kirkjunnar á eigin tungumáli.

Kirkjuþegnar í Rússlandi fara reglubundið í musterið. Þeir leggja rúblurnar sínar fyrir og ferðast dögum saman í langferðabílum, lestum og bátum til næsta musteris sem er í Svíþjóð.

Hin níu ára gamla frænka mín, Kimberly, talaði við vinkonu sína af miklum áhuga um kirkjuna, sem leiddi til þess að vinkonan sagði: „Ég vil skrá mig í kirkjuna þína Hvar skrái ég mig?"

Piltarnir og stúlkurnar í deildinni minni þroska með sér leiðtogahæfni og hæfileika. Þau eru fús til að syngja, leika á hljóðfæri, flytja ræður, taka þátt í þjónustuverkefnum og gera fjölmargt annað, svo þau geti verið hluti af þessu undursamlega verki.

Piltur nokkur í Bogota sagði: „Ég tala fyrir munn piltanna í Kólumbíu. Við erum verðugir og búum okkur undir að þjóna!"

Ég hef komið á staði þar sem kirkjan er ýmist fámenn eða fjölmenn, þar sem hún er ýmist ný eða gömul. Ábyrgðin er hvarvetna sú sama. Við erum hluti af hinu sanna endurreista fagnaðarerindi Jesú Krists. Við þjónum á einfaldan hátt, vitnisburður okkar eflist og við tilheyrum kraftaverki þessa tíma.

Ég hef í lífi mínu verið vitni að kraftaverki hins endurreista fagnaðarerindis. Þegar ég var ung stúlka flutti fjölskylda mín til Sao Paulo í Brasilíu, en faðir minn hafði verið kallaður til að vera í forsæti trúboðsins í Brasilíu. Ég átti þar skemmtilegan tíma og frábært var að alast þar upp. Ég og bræður mínir höfðum gaman af þeim leik að klæða okkur upp og látast vera trúboðar. Við eyddum mörgum stundum í að skrifa okkar eigin trúboðsbæklinga „prédika" og „dreifa" bæklingum um allan garðinn. Í fimm ár snerust umræður okkar við kvöldverðarborðið um trúboðsverk og ég hlustaði áhugasöm á trúarsögur trúboðanna Ég vissi jafnvel á þessum aldri að ég væri þátttakandi í stórkostlegu verki.

Þegnar kirkjunnar í Brasilíu voru aðeins um 3000 þegar við komum þangað. Reynsla okkar var á margan hátt lík reynslu brautryðjenda kirkjunnar. Við höfðum engar sálmabækur eða myndir eða kennslubækur frá höfuðstöðvum kirkjunnar. Ég minnist þess að hafa verið með fáeinum börnum í Barnafélagi. Við sungum sömu söngvana í hverri viku, sem voru þeir einu sem þýddir höfðu verið á portúgölsku. Tveir eftirlætissöngvar mínir voru *A Luz Divina* eða *The Light Divine* og *There was a Bunny in the Middle of the Woods*.

Allt kennsluefni fagnaðarerindisins sem nauðsynlegt var að kenna á portúgölsku var prentað á trúboðsheimilinu. Við öll, og jafnvel börnin, vorum látin þjóna við að raða saman fréttabréfum trúboðsins og lexíum. Enginn kom með kirkjuefni til okkar. Spámaðurinn sendi okkur ekki stikuforseta eða biskupa. Hann sendi ekki Líknarfélagsforseta eða æskulýðsverkefni. Kirkjan í Brasilíu hafði yfir að ráða sama efni og brautryðjendurnir höfðu í upphafi. Námsefnið sem nota þurfti til að byggja upp kirkjuna var innprentað í fólkið.

Á þeim árum sem við vorum í Brasilíu óx kirkjan mikið. Þúsundir urðu Síðari daga heilagir. Brátt var trúboðinu skipt upp, umdæmi voru stofnuð, sem og greinar, og kirkjubyggingar reistar. Hnir nýju þegnar kirkjunnar voru áhugasamir og efldust að trú og urðu reyndari í fagnaðarerindinu.

Mörg ár hafa liðið og loks á síðasta ári fór ég til Basilíu til að vera við endurvígslu Sao Paulo-musterisins. Ég komst að því að 187 stikur væru í Brasilíu. Þar eru nú 26 trúboð, fjögur musteri og næstum ein milljón kirkjuþegna. Þið getið gert ykkur í hugarlund undrun mína þegar ég gekk inn á troðfullt svæðið og sá um 65.000 meðlimi saman komna til að hlýða á Hinckley forseta og taka þátt í vígslunni. Mér fannst það kraftaverk að sjá þúsundir ungmenna dansa og syngja saman. Þegar ég virti fyrir mér þessa gleðihátíð, sagði ég stöðugt við sjálfa mig: „Þetta er undravert! Þetta er kraftaverk! Hvernig gerðist þetta kraftaverk?"

Ég undraðist allt kvöldið yfir því sem fyrir augun bar. Daginn eftir, við vigslu musterisins, átti ég endurfund við Barnafélagskennara minn, systur Gloriu Silveira. Þá varð mér ljóst hvernig kraftaverkið hafði gerst. Systir Silveira hafði verið nýskírð þegar hún kom í Barnafélagið og hafði því enga reynslu af kirkjustarfi, en var reiðubúin að miðla einföldum vitnisburði sínum og kenna mér Trúaratriðin á portúgölsku. Hún og eiginmaður hennar, Humberto, eru enn trúföst. Þau hafa þjónað í mörgum kirkjuköllunum yfir árin og þjóna enn. Þegar ég sá systur Silveiru, gerði ég mér ljóst að kirkjan í Brasilíu hafði vaxið vegna hennar og þúsunda annarra, henni líkri. Hún og bróðir Silveira eru fulltrúar allra þeirra sem eiga trú á Drottin Jesú Krist og fagnaðarerindi hans. Þau hafa vaxið að þekkingu og hæfni og hafa þjónað í kirkjunni. (Sjá K&S 88:80.) Þau hafa miðlað vinum sínum fagnaðarerindinu. (Sjá K&S 30:5.) Þau starfa í musterinu. (Sjá K&S 138:48.) Þau kenna börnum sínum fimm réttar reglur. (Sjá K&S 68:28.) Af 43 niðjum þeirra hafa 15 þjónað í fullu trúboði. Barnabörn þeirra þjóna nú í musterinu og barnabarnabörn þeirra eru fjórða kynslóð fjölskyldu þeirra sem eru þátttakendur í hinu dásamlega verki sem Joseph Smith ýtti úr vör. Trú

á jörðu hefur eflst þeirra vegna. Þau eru dæmi um það kraftaverk sem Drottinn greindi frá þegar hann sagði að fagnaðarerindi hans yrði boðað af hinum veiku og einföldu (K&S 1:23) og að af litlu mun hinu mikla komið til leiðar (1 Ne 16:29).

Drottinn sendi engil til Josephs Smith til að segja honum að hann hefði verk að vinna. Verki þessu er nú viðhaldið í okkar og er leitt af lifandi spámanni, Gordon B. Hinckley, sem sagði: „Verk þetta er dýrðlegt. Það mun blessa líf sérhvers karls, konu, drengs og stúlku, sem á móti því tekur“ (First Worldwide Leadership Training Meeting, 11. janúar 2003, 21). „Guði séu þakkir fyrir undursamlega veitingu vitnisburðar, valds og kenninga sem hér er að finna, í hinni endurreistu kirkju Jesú Krists“ (“The Marvelous Foundation of Our Faith,” *Ensign*, nóvember 2002, 78). Í nafni Jesú Krists, amen.

# Hann þekkir ykkur með nafni

**Systir Elaine S. Dalton**
**annar ráðgjafi í aðalforsætisráði Stúlknafélagsins**

Það var „að morgunlagi, fagran og heiðskíran dag, snemma vors árið átján hundruð og tuttugu," er hinn 14 ára gamli Joseph Smith fór í skógarlund nokkurn. Hann kaup í bæn og „sá ... tvær verur, svo bjartar og dýrðlegar, að ekki verður með orðum lýst, [standa] fyrir ofan [sig] í loftinu." Hann sagði: „Önnur þeirra *ávarpaði mig, nefndi mig með nafni* og sagði, um leið og hún benti á hina: „*Þetta er minn elskaði sonur. Hlýð þú á hann!*" (JS – S 1:14, 17, skáletur hér). Getið þið gert ykkur í hugarlund hvernig hinum 14 ára gamla Joseph leið er hann sá Guð föðurinn og son hans Jesú Krist og hlýddi á himnaföðurinn nefna sig með nafni?

Þegar ég fór í Lundinn helga reyndi ég að ímynda mér hvernig það hefði verið að vera í sporum Josephs Smith. Á þessari kyrrlátu stundu hvíslaði andinn í ólmandi hjarta mitt að ég stæði á heilagri jörðu og að allt sem Joseph Smith hefði sagt væri sannleikur. Mér varð síðan kröftuglega ljóst hve mikils góðs við njótum af trú hans, hugrekki og staðfastri þrá eftir að hlýða Guði. Hann hlaut svar við auðmjúkri bæn sinni. Hann sá föðurinn og ástkæran son hans. Þarna í Lundinum helga varð mér ljóst að himneskur faðir þekkti ekki einungis Joseph Smith með nafni, heldur einnig okkur öll með nafni – og á sama hátt og Joseph Smith hafði mikilvægu hlutverki að gegna í þessu mikla og dásamlega verki, gegnum við mikilvægu hlutverki á þessum síðari dögum.

Vitið þið að himneskur faðir þekkir ykkur persónulega – með nafni? Ritningarnar kenna að það sé sannleikur. *Enos* skráði þetta þegar hann fór út í skóg til að biðjast fyrir: „Og rödd kom til mín og sagði: Enos, syndir þínar eru fyrirgefnar, og þú munt blessaður verða" (skáletur hér, Enos 1:5). Móse baðst ekki aðeins fyrir, heldur ræddi hann augliti til auglitis við Guð, og Guð sagði: „Ég ætla þér verk að vinna, sonur minn *Móse*" (skáletur hér, HDP Móse 1:6). Drottinn þekkti Jakob með nafni og breytti því í *Ísrael* til að staðfesta betur hlutverk hans á jörðu. (Sjá Bible Dictionary, 708.) Hann gerði það sama við Pál og Abraham og Söru. Í Kenningu og sáttmálum, kafla 25, er Emmu Smith veitt blessun henni til leiðsagnar og hughreystingar. Drottinn hefur mál sitt í blessun þessari með því að segja: „Hlýð þú á rödd Drottins Guðs þíns meðan ég tala til þín, *Emma Smith*, dóttir mín" (skáletur hér, K&S 25:1).

Þið hefið kannski ekki heyrt Drottinn kalla á ykkur með nafni, en hann þekkir hvert og eitt ykkar og hann þekkir ykkur með nafni. Öldungur Neal A. Maxwell sagði: „Ég ber vitni um að Guð hefur þekkt ykkur persónulega ... um langan langan tíma – (sjá K&S 93:23). Hann hefur elskað ykkur um langan langan tíma. Hann hefur tölu á öllum stjörnum himinsins (sjá Sálm 147:4; Jes 40:26); Hann þekkir ykkur með nafni og einnig sorg ykkar og gleði!" (Öldungur Neal A. Maxwell, "Remember How Merciful the Lord Hath Been," *Ensign*, maí 2004, 46).

Hvernig getið þið vitað að himneskur faðir þekkir ykkur með nafni og einnig þarfir ykkar? Öldungur Robert D. Hales sagði: „Takið ykkur ritningarnar í hönd. Krjúpið í bæn. Spyrjið í trú. Hlýðið á heilagan anda. ... Lifið eftir fagnaðarerindinu, með þolinmæði og þrautseigju" ("Receiving a Testimony of the Restored Gospel of Jesus Christ," *Ensign*, nóv. 2003, 31).

Það gerði Joseph. Vitnisburður hans gerði okkur öllum kleift að vita að himneskur faðir þekkir og elskar okkur. Við erum sannlega „dætur himnesks föður, sem elskar okkur" (Þema Stúlknafélagsins). Öldungur Jeffrey R. Holland sagði: „Ekkert

eitt okkar er minna metið eða elskað af Guði en annað ... Hann elskar hvert og eitt okkar – öryggisleysi, áhyggjur, sjálfsímynd og allt. ... Hann hvetur *hvern* keppanda og kallar að okkur sé ætlað að sigra syndina en *ekki* hvert annað" ("The Other Prodigal," *Ensign*, maí 2002, 62).

Þegar Joseph hafði hlotið slíka vitneskju, varð það ekki til að auðvelda líf hans. Hann þurfti í raun að takast á við gríðarlegan þrýsting frá jafnöldrum og fullorðnum. Saga Josephs Smith er mikilvæg fyrirmynd fyrir okkur öll. Við getum tileinkað okkur kenningar hans þegar við vitum ekki hvað gera skal, þegar við stöndum frammi fyrir þrýstingi jafnaldra, þegar okkur finnst freistingarnar sliga okkur eða þegar við erum einmana eða okkur finnst við vera óverðug. Við getum beðist fyrir! Við getum ákallað Guð, í nafni hans heilaga sonar, Jesú Krists, og leitað huggunar og leiðsagnar. Hafið þið einhvern tíma staðið frammi fyrir vanda og ekki vitað hvað til bragðs eigi að taka? Joseph sagði: „Hugur minn [hneigðist] til alvarlegra hugleiðinga og mikils kvíða" (JS – S 1:8). Hann sagði: „Ég sagði oft við sjálfan mig: ... Hvað á ég að gera?" (JS – S 1:10).

Hvernig hlaut hann huggun og leiðsögn? Hann ígrundaði ritningarnar og loforðin í þeim og „einsetti [sér síðan] að 'biðja Guð,'" (JS – S 1:13). Svarið sem hann hlaut þennan fagra vordag, varð til að breyta lífi hans og stefnu. Hann VISSI. Hann hafði hlotið vitnisburð um Guð og Jesú Krist, sem gerði honum kleift að lifa eftir fagnaðarerindinu, af þolinmæði og þrautseigju. Hann var stöðugt undir þrýstingi og ofsóknum jafnaldra. Hann gat ekki afneitað því að hafa séð sýn. Hann gat verið staðfastur vegna vitnisburðar síns. Og það getið þið einnig.

Ef þið hafið einhvern tíma orðið fyrir þrýstingi jafnaldra, skuluð þið biðjast fyrir, spyrja í trú og hlýða á heilagan anda. Lifið síðan eftir fagnaðarerindinu. Joseph harmaði veikleika sína og ófullkomleika. Aftur baðst hann fyrir. Engillinn Moróní vitjaði hans sem svar við bæn hans. Joseph ritaði: „*Hann ávarpaði mig með nafni*" og sagði „[að] Guð ætlaði mér verk að vinna" (skáletur hér, JS – S 1:33).

Þegar við biðjumst fyrir mun Drottinn leiða okkur og búa okkur undir að gera okkar hlut. Sumar nokkurt, er ég var á ferð um Evrópu með Þjóðdansflokki Brigham Young-háskóla, lærði ég mikilvæga lexíu. Ég varð veik og kjarklaus. Ég vildi hætta og fara heim. Við vorum í Skotlandi og hugðumst vera með sýningaratriði fyrir meðlimi, trúarnema og trúboða. Við fórum á trúboðsheimilið til að biðjast fyrir. Þegar við komum þangað varð mér starsýnt á stein nokkurn í framgarðinum. Á steininn voru meitluð þessi orð: „Stattu þig vel í hlutverki þínu hvert sem það er." Orðin höfðu þau áhrif að hjartað tók kipp. Mér fannst sem steinninn væri að tala við mig. Það breytti hugsanagangi mínum. Á þessari stundu var mér ljóst að ég hafði ekki aðeins hlutverki að gegna í dansflokknum, heldur einnig lífshlutverki og mér var mikið í mun að „vanda vel" til þess. (Sjá athugasemd aftast.)

Hvers ætlast Drottinn til af okkur? Hann ætlaðst til þess að við gegnum okkar hlutverki fyrir komu hans. Hann væntir þess að við sannreynum verðugleika okkar til að dvelja hjá honum. Hann vill að við verðum lík honum. Fylgjum því fordæmi Josephs. Ég ann þessum texta sálmsins sem kórinn söng: „En sitt táp og fjör ei missti, treysti á himna föður sinn" („Fyrsta bæn Josephs Smith," Sálmar, 10). Hann var óhagganlegur og hugdjarfur í tilgangi sínum. Joseph sagði sjálfan sig vera „óróavald" í ríki óvinarins. Hann sagði: „Svo virðist sem andstæðingnum hafi orðið ljóst ... að mér væri ætlað að verða til ófriðar og skapraunar í ríki hans" (JS – S 1:20). Ég hef skrifað á spássíu ritninga minna: VERTU ÓRÓAVALDUR! Treystu á umsjá himnaföðurins.

Hvert og eitt okkar mun gegna mikilvægu hlutverki, ef við fylgjum því fordæmi sem Joseph Smith sýndi. Drottinn efldi Joseph Smith í hans guðlega

hlutverki. Hann mun efla ykkur í hlutverki ykkar. Hann kann jafnvel að senda heilaga engla sína til að kenna ykkur. Áskorunin er því þessi – verðið þið á stöðum sem samboðnir eru englum? Verðið þið nægilega kyrrlátar til að heyra? Verðið þið óhagganlegar og traustsins verðar?

Við erum uppi á tíma fyllingar fagnaðarerindisins, sem hefur verið endurreist á jörðu fyrir tilstilli Josephs Smith, spámanns Drottins. Við erum uppi á tíma Mormónsbókar sem leiðarvísis. Við erum uppi á tíma lifandi spámanna, prestdæmisvalds á jörðu og innsiglunarvalds til að binda saman fjölskyldur í helgum musterum. Nú eru vissulega „ógleymanlegir dagar" (JS – S 1:71, neðanmálstexti).

Það er bæn mín að sérhver okkar verði staðföst í trúnni, að við megum fylgja fyrirmynd Josephs Smith um að hljóta vitnisburð. Það er einnig bæn mín að sérhver okkar sé verðug þess að vera fulltrúi *nafns hans.* Hann hefur gefið þetta fyrirheit: „Eins og hinn nýi himinn og hin nýja jörð, sem ég skapa, munu standa stöðug fyrir mínu augliti ... eins mun ... nafn [yðar] standa stöðugt" (Jes 66:22).

Vitnisburður minn um hið endurreista fagnaðarerindi Jesú Krists hefur verið mér sem leiðarvísir og akkeri lífsins. Ég er þakklát fyrir að tala til ykkar í dag og segi af öllu hjarta: „Vorn spámann við þökkum þér, Drottinn" (Sálmar, 7). Ég er afar þakklát fyrir ráðvendni 14 ára gamals pilts, sem hlaut bænarsvar við spurningu sinni og var síðan staðfastur þeirri vitneskju sem hann hlaut.

Hver ykkar hefur hlutverki að gegna í þessu mikla og dásamlega verki. Hann mun hjálpa ykkur. Hann mun leiða ykkur sér við hlið. Hann þekkir ykkur með nafni. Um það vitna ég í helgu *nafni* Jesú Krists, amen.

ATH.: David O. McKay forseti varð fyrir hughrifum við þennan sama stein í trúboði sínu í Skotlandi. Þegar hann varð forseti kirkjunnar, keypti hann steininn og lét setja hann í framgarð trúboðsheimilisins í Skotlandi, svo hann yrði uppspretta innblásturs fyrir trúboðana þar.

# Ver fyrirmynd trúaðra

**Thomas S. Monson forseti**
**fyrsti ráðgjafi í Æðsta forsætisráðinu**

Kæru systur, bæði þið sem eruð hér í hinni stórkostlegu ráðstefnuhöll og þið sem horfið á í gegnum gervihnött hvarvetna um heim, ég bið um athygli ykkar nú og að ég megi standa undir þeirri ábyrgð minni að ávarpa ykkur.

Við höfum notið hins uppbyggjandi og innblásna boðskapar forsætisráðs Stúlknafélagsins, hinnar dásamlegur tónlistar og anda þessarar samkomu. Við höfum skerpt á þakklæti okkar fyrir spámanninn Joseph Smith, líf hans, og hið endurreista fagnaðarerindi.

Æðsta forsætisráð kirkjunnar ber umhyggju fyrir ykkur og hefur trú á ykkur og leiðtogum ykkar. Þið eruð gott fordæmi réttlætis í heimi sem bráðþarfnast áhrifa ykkar og styrks.

Kannski getur stríðshróp ykkar vel verið þau orð sem Páll postuli gaf sínum ástkæra Tímóteusi: „Ver fyrirmynd trúaðra, í orði, í hegðun, í kærleika, í trú, í hreinleika.“[1]

Á okkar tíma veldur frjálslyndi, ósiðsemi, klám og sá máttur sem felst í þrýstingi jafnaldra því að margir láta hrekjast fram og til baka í ólgusjó syndar og stranda á skerjum glataðra tækifæra, blessana og drauma.

Dýrmætu ungu konur og þið mæður, leiðtogar Stúlknafélagsins og leiðbeinendur, leyfið mér að greina ykkur frá fyrirmynd að sjálfsstjórn til að leiða ykkur örugglega í gegnum jarðlífið til himnesks ríkis okkar himneska föður. Ég hef skipt hegðunarreglum mínum í fjóra hluta:

- Þið búið að arfleifð; heiðrið hana.
- Ykkur mun freistað; standist það.
- Þið þekkið sannleikann; lifið samkvæmt honum.
- Þið eigið vitnisburð; miðlið honum.

Fyrsta: Þið búið að arfleifð; heiðrið hana. Þrumur glumdu á Sínaífjalli og þessi orð heyrðust: „Heiðra föður þinn og móður.“

Hve foreldrar ykkar elska ykkur, hve heitt þeir biðja fyrir ykkur. Heiðrið þá.

Hvernig heiðrið þið foreldra ykkar? Ég ann þessum orðum Williams Shakespeare: „Ei elska þeir sem ávallt hug sinn dylja.“[2] Þið getið á óteljandi hátt sýnt móður ykkar og föður sanna ást ykkar. Þið getið hlýtt þeim og farið eftir kenningum þeirra, því þær munu aldrei leiða ykkur afvega. Þið getið sýnt þeim virðingu. Þau hafa fórnað miklu og munu fórna miklu fyrir ykkur.

Verið heiðarlegar við móður ykkar og föður. Slíkur heiðarleiki við foreldra kemur t.d. fram í einlægum og opinskáum samskiptum við þá. Forðist að beita þögninni. Á dimmri nóttu verður tif klukkunnar hærra og vísar hennar mjakast hægar þegar dýrmæt dóttir er enn ekki komin heim. Ef ykkur seinkar, skuluð þið taka upp símann og hringja: „Mamma, pabbi, allt er í fína lagi. Við komum aðeins við til að fá okkur að borða. Hafið ekki áhyggjur, okkur líður vel. Við komum fljótlega heim.“

Fyrir allmörgum árum, er ég var á æskulýðsráðstefnu í Clarkston-kirkjugarðinum í Utah, þar sem ungmennahópar skoðuðu minnisvarða á gröf Martins Harris, sem var einn af vitnunum þremur að Mormónsbók, tók ég eftir öðrum grafsteini – litlum steini sem á var grafið nafn og þessi átakanlegu orð: „Á heimili

okkar hefur ljós eitt slokknað; kær rödd hefur þagnað. Tómleiki ríkir í hjarta, sem aldrei mun þaðan hverfa.“

Bíðið þess ekki að ljós slokkni á heimili ykkar; bíðið þess ekki að kær rödd þagni þar til þið hafið sagt: „Ég elska þig, mamma; ég elska þig, pabbi.“ Nú er tími til að þenkja og þakka. Ég treysti því að þið gerið þetta tvennt. Þið búið að arfleifð; heiðrið hana.

Næsta hegðunarregla okkar er: Ykkur mun freistað; standist það.

Spámaðurinn Joseph Smith glímdi við freistingar. Getið þið gert ykkur í hugarlund háðið og spottið sem hann hlýtur að hafa orðið fyrir er hann lýsti yfir að hann hafði séð sýn? Ég býst við að það hafi borið drenginn næstum ofurliði. Hann vissi án efa að það myndi létta honum lífið, ef hann drægi þessa yfirlýsingu sína um sýnina til baka og héldi áfram eðlilegu lífi. Hann gaf þó ekki eftir. Þetta eru orð hans: „Ég hafði raunverulega séð ljós og í ljósinu miðju hafði ég séð tvær verur, og þær höfðu raunverulega ávarpað mig. Og þótt ég væri hataður og ofsóttur fyrir að segja, að ég hefði séð sýn, þá var það samt satt. ... Ég hafði séð sýn. Ég vissi það, og ég vissi að Guð vissi það, og ég ... gat [ekki] neitað því.“[3] Joseph Smith kenndi hugdirfsku með fordæmi. Hann stóð frammi fyrir freistingum og stóðst þær.

Mörg erum við kunnug leikritinu „Kamelot.“ Ég ætla að miðla ykkur mínu eftirlætis orðtaki úr leikriti þessu. Þegar erfiðleikarnir höfðu ágerst milli Arthúrs konungs og Gunnvarar drottningar, segir Arthúr þessi aðvörunarorð: „Við megum ekki láta eigin ástríður gera út um drauma okkar.“ Þessi orð vil ég nú gera að mínum til ykkar. Leyfið ekki að ástríður ykkar geri út um drauma ykkar. Standið gegn freistingum.

Hafið í huga þessi orð Mormónsbókar: „Aldrei hefur hamingjan falist í ranglæti.“[4]

Leiðsögn þessi skiptir sköpum fyrir velgengni ykkar og hamingju: „Verið vandlát á vini.“ Við hneigjumst til þess að líkjast þeim sem við dáumst að og yfirleitt eru það vinir okkar. Við ættum aðeins að umgangast þá sem, líkt og við, skipuleggja ekki líf sitt út frá stundarþægindum, grunnhyggnum markmiðum eða rýrum metnaði – heldur kunna að meta það sem mestu skiptir, já, eilíf viðfangsefni.

Varðveitið hina eilífu yfirsýn. Ráðgerið að gifta ykkur í musterinu þegar fram líða stundir. Engin umgjörð er ljúfari, engin stund helgari, en hinn einstaki giftingardagur ykkar. Þar og þá mun himneskri gleði bregða fyrir. Verið vökular og leyfið ekki að freistingin ræni ykkur þessari blessun.

Hafið þennan mælikvarða á öllu því sem þið áformið: Hvað gerir þetta mér? Hvað gerir þetta fyrir mig? Og látið hegðunarreglur ykkar ekki birtast í „Hvað finnst öðrum?“ heldur fremur „Hvað finnst mér sjálfri?“ Látið hina hljóðu og kyrrlátu rödd hafa áhrif á ykkur. Hafið hugfast að sá sem vald hafði til þess setti hendur á höfuð ykkar þegar þið voruð staðfestar og sagði: „Meðtak hinn heilaga anda.“ Ljúkið upp hjarta ykkar, já, sál ykkar, svo þessi sérstaka rödd sem ber vitni um sannleikann megi þar hljóma. Líkt og spámaðurinn Jesaja sagði þá munu „eyru þín ... heyra þessi orð ... : Hér er vegurinn! Farið hann!“[5]

Samhljómur okkar tíma er frjálslyndi. Hvarvetna sjáum við hin ýmsu átrúnaðargoð, kvikmyndastjörnur, íþróttakempur – þá sem margt ungt fólk líkir eftir – sem vanvirða lögmál Guðs og réttlæta þá saurgandi breytni sem í fljótu bragði virðist engar slæmar afleiðingar hafa. Trúið því ekki! Tími reikningsskila rennur upp – já, höfuðbókina þarf að jafna. Sérhver öskubuska á sitt miðnætti; það er kallað dómsdagur, já, lokapróf lífsins. Eruð þið undir það búnar? Eruð þið ánægðar með það sem þið hafið áorkað?

Þið getið fengið margskonar hjálp. Patríarkablessun okkar er ein hjálpin. Í þeirri blessun eru kapítular úr bók eilífra möguleika okkar. Lesið blessun ykkar oft. Lærið hana vandlega. Gærið að aðvörunarorðum í henni. Lifið verðugar loforða hennar.

Hafi einhver ykkar hrasað á ferð sinni, er hægt að rísa upp að nýju. Þar kemur til iðrunarferlið. Frelsari okkar dó til að veita mér og ykkur þá blessunarríku gjöf. Þótt vegurinn sé ógreiðfær, þá er loforðið raunverulegt: „Þó að syndir yðar séu sem skarlat, skulu þær verða hvítar sem mjöll.“[6] „Og [ég mun] ekki framar minnast syndar þeirra.“[7] Freistingar verða á vegi ykkar; ég bið þess að þið standist þær.

Næsta hegðunarreglan: Þið þekkið sannleikann: lifið samkvæmt honum.

Eftir að Joseph Smith sá sýnina í Lundinum helga, voru engin frekari tjáskipti við hann í þrjú ár. Getið þið gert ykkur í hugarlund hvernig ykkur myndi líða, ef þið hefðuð séð Guð föðurinn og Jesú Krist, son hans, ef Kristur hefði rætt við ykkur, og þið fengjuð síðan engin frekari fyrirmæli í þrjú ár? Hefðuð þið tekið að efast? Myndi það vekja furðu ykkar eða efasemdir? Það vakti ekki furðu eða efasemdir hjá spámanninum Joseph Smith, hann efaði ekki Drottin. Hann hafði hlotið sannleikann og lifði samkvæmt honum.

Kæru ungu vinkonur, þið hafið verið fráteknar til að koma fram á þessum einstaka tíma, þegar fagnaðarerindi Jesú Krists er endurreist á jörðu. Gordon B. Hinckley forseti sagði um fagnaðarerindið og vitnisburð: „Það sem við köllum vitnisburð ... er jafn raunverulegt og kraftmikið og hvert annað afl á jörðu. ... Hann ... býr í ungum og öldnum. ... Hann veitir fullvissu um að lífið hafi tilgang, að sumt sé miklu mikilvægara en annað, að við séum í eilífri ferð, að við séum ábyrg frammi fyrir Guði.“[8]

Ykkur hefur verið kenndur sannleikur fagnaðarerindisins af foreldrum ykkar og kennurum kirkjunnar. Þið komið til með að finna sannleika í ritningunum, í kenningum spámannanna og með þeim innblæstri sem ykkur veitist er þið krjúpið og æskið hjálpar Guðs.

Hafið í huga að trú og efasemdir geta ekki verið samtímis í huga ykkar, því annað mun hrekja hitt á brott. Losið ykkur við efasemdir. Ræktið trú. Keppið alltaf að því að varðveita þá barnstrú sem flutt getur fjöll og fært himinn nær hjarta og heimili.

Þegar vitnisburður um fagnaðarerindið, um frelsarann og föður okkar á himnum, er orðinn vandlega rótfastur, mun hann hafa áhrif á allt sem þið gerið í lífi ykkar. Hann hjálpar ykkur að ákveða hvernig þið eyðið tíma ykkar og hverja þið hyggist umgangast. Hann hefur áhrif á breytni ykkar við fjölskyldu ykkar, gagnkvæm samskipti ykkar. Hann færir elsku, frið og gleði í líf ykkar. Hann ætti að hjálpa ykkur að ákveða að vera hæverskar í klæðaburði og málfari. Á umliðnu ári höfum við tekið eftir gríðarlegum breytingum á klæðnaði sumra hinna ungu kvenna okkar. Klæðnaður fylgir tískustraumum sem koma og fara; en ef tískuklæðnaður er ósæmilegur, er mikilvægt að ungar konur noti hann ekki. Þegar þið klæðið ykkur hæversklega sýnið þið ykkur sjálfum og himneskum föður virðingu. Á þessum tíma, þegar tískufatnaður er sniðinn eftir hinum rýra fatnaði sumra kvikmyndastjarna og tónlistargoða, kann að reynast erfitt að finna hæverskan fatnað í verslunum. Það er samt hægt og er mikilvægt. Páll postuli sagði: „Vitið þér eigi, að þér eruð musteri Guðs og að andi Guðs býr í yður? ... Musteri Guðs er heilagt, og þér eruð það musteri.“[9] Þið þekkið sannleikann: lifið samkvæmt honum.

Að lokum: Þið eigið vitnisburð; miðlið honum. Vanmetið aldrei hversu mikil áhrif vitnisburður ykkar kann að hafa. Þið getið styrkt hver aðra; þið búið yfir hæfni til að skynja það óskynjanlega. Þegar auga ykkar sér, eyra ykkar heyrir og hjarta ykkar skynjar, þá getið þið náð til jafnaldra ykkar þeim til bjargar.

Leyfið mér að miðla reynslu til útskýringar, sem ég upplifði fyrir nokkrum árum þegar systir Monson hafði verið á sjúkrahúsi vegna þess að hún hrasaði. Hún bað mig að fara í matvörubúðina til að kaupa eitthvað lítilræði. Ég hafði ekki gert þetta áður. Ég fór með innkaupalista sem m. a. stóð á kartöflur. Ég fann brátt innkaupagrind og setti í hana nokkrar kartöflur. Ég vissi ekki um plastpokana sem venja var að setja slíka matvöru í. Þegar ég renndi svo innkaupagrindinni á undan mér tóku kartöflurnar að detta á gólfið, út um fremur lítil göt á grindinni. Hjálpsöm afgreiðslukona kom askvaðandi og hrópaði: „Ég skal hjálpa þér!" Ég reyndi að útskýra fyrir henni að innkaupagrindin væri í ólagi. Þá var mér sagt að allar innkaupagrindurnar væru með þessum götum og þau væru hugsuð fyrir fætur lítilla barna.

Þessu næst tók afgreiðslukonan af mér innkaupalistann og hjálpaði mér að finna það sem á honum stóð. Hún sagði síðan: „Ert þú ekki Monson biskup?"

Ég svaraði því til að ég hefði vissulega verið biskup fyrir mörgum árum. Hún sagði þá: „Á þeim tíma átti ég heima í Gale-stræti innan marka deildar þinnar, en þá var ég ekki meðlimur kirkjunnar. Þú sást til þess að stúlkurnar í deildinni hefðu sambandi við mig vikulega og færu með mig í Ungmennafélagið og í annað félagsstarf. Þetta voru góðar stúlkur, sem sýndu mér vináttu og ljúfmennsku sem snerti mig. Ég vildi bara segja þér að sú vinátta sem þú sást mér fyrir leiddi til þess að ég lét skírast og varð staðfestur meðlimur kirkjunnar. Það hefur orðið mér til mikillar blessunar og ég þakka þér fyrir ljúfmennsku þína."

Þið getið miðlað vitnisburði ykkar á marga vegu – með orðum ykkar, með fordæmi ykkar, með þeim hætti sem þið hagið lífi ykkar.

Megum við öll líkja eftir fordæmi spámannsins Josephs. Hann kenndi sannleikann; hann lifði samkvæmt sannleikanum; hann miðlaði sannleikanum. Þið eigið vitnisburð; miðlið honum.

Kæru systur, megi Guð blessa ykkur. Við elskum ykkur og biðjum fyrir ykkur. Hafið í huga að þið heyið ekki baráttuna einsamlar. Drottinn hefur gefið þetta fyrirheit: „Ég mun fara fyrir yður. Ég mun verða yður til hægri handar og til þeirrar vinstri, og andi minn mun vera í hjörtum yðar og englar mínir umhverfis yður, yður til stuðnings."[10]

Á morgun eru páskar. Megi hugsanir ykkar beinast að honum á þessum páskum, sem friðþægði fyrir syndir okkar, sem vísaði okkur leiðina til lífsins, kenndi okkur að biðjast fyrir og sýndi okkur það með eigin breytni. Fæddur í gripahúsi, settur í jötu, sonur Guðs bendir okkur öllum að fylgja sér. „Ég veit minn lifir lausnarinn. Hve ljúf ég þessi orðin finn!"[11] Megi andi hans ávallt vera með ykkur. Þess bið ég í hans heilaga nafni – já, nafni Jesú Krists, Drottins – amen.

HEIMILDIR


1. 1 Tím 4:12.
2. William Shakespeare, Herramenn tveir frá Verónuborg, I. þáttur, 2. svið.
3. Joseph Smith – Saga 1:25.
4. Alma 41:10.
5. Jes 30:21.
6. Jes 1:18.
7. Jer 31:34.
8. Gordon B. Hinckley, "Testimony," *Ensign*, maí 1998.
9. 1 Kor 3:16, 17.
10. K&S 84:88.
11. Samuel Medley, *Sálmar Kirkju Jesú Krists hinna Síðari daga heilögu*, nr. 36.

